EINAR H. KVARAN



# TRÚ OG SANNANIR

## HUGLEIÐINGAR UM EILÍFÐARMÁLIN



REYKJAVÍK
ÚTGEFANDI: ÞORSTEINN GÍSLASON
MCMXIX

## *FORMÁLI.*

---

*Margsinnis hefir þess verið farið á leit við mig — og stundum sótt nokkuð fast — að eg léti prenta erindi þau, er eg hefi flutt á nokkurum síðustu árunum um sálarrannsóknir nútímans. Fyrir góðvild útgefandans á eg nú kost á að verða við þessum tilmælum. Og úr því að ráðist var í þetta á annað borð, virtist mér réttast að safna hér saman öllu því helzta, er eg hefi sagt um þetta mál á almannafæri, og ekki hefir áður verið prentað sem sérstakir ritlingar. Mér er kunnugt um það, að þetta mál er farið að skifta miklu í hugum fjölda manna hér á landi. Og af því að eg hefi verið all-mikið við þetta mál riðinn, finst mér, að það eigi ekki illa við, að menn geti einhverstaðar að því gengið, hvernig málið hefir verið boðað alþýðu manna hér á landi af minni hálfu, frá því er því var fyrst hreyft hér og fram á þennan dag.*



*Eg geri ráð fyrir, að menn veiti því eftirtekt, að vitnisburður minn um árangur sálarrannsóknanna er ákveðnari í síðari hluta þessarar bókar en í fyrri hlutanum. Eg hefi jafnan viljað forðast að segja nokkuð það um þetta flókna og vandasama mál, sem eg hefi ekki verið gersamlega sannfærður um sjálfur. Og sannfæring mín um, að samband sé fáanlegt við annan heim hefir*

*aukist og eflst með hverju árinu, eftir því sem þekking mín á málinu hefir vaxið. Fyrir því dirfist eg að fullyrða meira nú en fyrir, til dæmis að taka, 9—10 árum. Eins er það, að eg tek nú ekki allar þær skýringar gildar, sem mér þóttu sennilegar fyrir nokkurum árum. Sérstaklega skal eg taka það fram, að eg hygg, að undirvitundinni einni hafi verið ýmislegt eignað, sem mér virðist nú full ástæða til að ætla, að lengra sé að komið. Til skýringarauka skal eg benda á það, sem sagt er í þessari bók um Bidder og Vito Mangiamele (bls. 135—136) og um hið dularfulla vitsmunaafl Sókratesar (bls. 137—138). Eftir ýmislegt, sem fram hefir komið á síðustu árum, sérstaklega í rannsóknum prófessors Hyslops á því, er eg nefni hér í bókinni „langvinn áhrif frá öðrum heimi“, virðast mér að minsta kosti langmestar líkur til þess, að slík fyrirbrigði stafi frá öðrum heimi. Mér skilst líka svo, sem þeir vísindamenn, er mest hafa haldið undirvitundar-skýringunum fram, muni yfirleitt líta svo á, sem þær skýringar þarfnist gagngerðrar endurskoðunar.*

*Því miður get eg ekki gert heimilda minna þá grein, sem eg ætti ef til vill að gera. Þessar hugleiðingar eru árangurinn af miklum og margvíslegum lestri bóka, tímarita og blaða. Við samning þeirra hefi eg sjaldnast gætt þess að ritfesta staðina, sem eg hefi stuðst við. Og nú hefi eg fæst ritanna handbær. Sumstaðar hefi eg samt getið þeirra neðanmáls, og sumstaðar ber efnið það með sér, hver heimildin er. Eg verð að láta mér nægja að geta þess hér, til viðbótar við það, sem sjá má í bókinni sjálfri, að við samning erindanna um* m á t t  m a n n s a n d a n s *studdist eg langmest*

*við þrjú rit: „Enigmas of Psychical Research“ eftir James H. Hyslop, ritgerð í „Review of Reviews“ 1909 eftir W. T. Stead, og „Varieties of Religious Experience“ eftir William James. Annars hygg eg, að ef til vill skifti ekki mjög miklu máli hér um upptalning útlendra rita, af því að einkum er þessi bók ætluð alþýðumönnum þessa lands, og þeir ættu engan kost á að rannsaka heimildir mínar, þó að þeim væri sagt til þeirra.*

*Þess hefir láðst að geta, að ræðan á stofnfundi S. R. F. Í. var prentuð í jólablaði „Morgunblaðsins“ 1918.*

*Eina meinlega prentvillu hefi eg rekið mig á — því miður geta þær verið fleiri. Hún er á bls. 144: mannsandinn hafi sjálfsagða tilveru; á að vera: mannsandinn hafi sjálfstæða tilveru. Auk þess hefir lína, sem á að vera efst á bls. 321, lent efst á bls. 337. Þetta eru lesendur vinsamlegast beðnir að athuga.*

*Reykjavík í júlí 1919.*

*E. H. K.*

---

EFNI:

---



---

# Trú og sannanir.

Ritgjörð í Skírni 1905.

---

Eg hygg, og held því fram, að því verði naumast neitað með réttu, að trúarbrögðin séu mjög að kulna með vestrænu þjóðunum, að minsta kosti í þeirri mynd, sem kristin kirkja boðar þau.

Sjálfsagt er þessu einkum svo farið í löndum prótestanta. Þar er það ekkert leyndarmál, að mikill meiri hluti háskólagenginna manna, að guðfræðingum fráskildum, og eins þeirra manna, sem fengið hafa eitthvað svipaða mentun eins og þeir, sem stundað hafa nám við háskóla, eru annaðhvort andvígir trúarbrögðunum, leynt eða ljóst, eða láta þau liggja milli hluta og ekkert til sín taka, byggja lífskoðun sína alls ekkert á þeim og sinna ekkert kristinni kirkju, nema þá í því skyni einu að brjóta ekki bág við gamlar og fagrar venjur. Þá er ekki hinn mikli aragrúi vinnulýðs í borgunum trúræknari, nema síður sé. Jöfnum höndum við baráttu hans fyrir betri kjörum og gagn-

gerðri breyting á fyrirkomulagi mannfélagsins fer barátta gegn kristinni kirkju. Bændur hafa hingað til verið minst snortnir af þeim kenningum, sem eru trúarbrögðunum andvígar. En því lengra sem þeir dragast inn í straum nútíðarmenningarinnar, því minni verður munurinn á þeim og öðrum stéttum manna, og þá sjálfsagt eins í þessu efni eins og öðrum.

Allra óvænlegastar eru horfur trúarbragðanna, þegar þess er gætt, að næstum því allir ágætustu gáfumenn mentaþjóðanna hafa á einum til tveimur síðustu mannsöldrunum orðið þeim fráhverfir. Á þá afburða-vitsmunamenn, sem játað hafa kristna trú af ríkri sannfæring, eins og t. d. Pasteur og Gladstone, hefir á síðustu tímum verið litið sem afbrigði; og þrátt fyrir lotninguna, sem mentaður heimur hefir fyrir þeim borið, hefir vafalaust sumum í öðru veifinu fundist þeir vera nokkurs konar andleg nátttröll, að því leyti, sem þeir voru trúaðir, kristnir menn. Hver, sem hefir haft veruleg kynni af bókmentum heimsins síðustu áratugina, hlýtur að hafa tekið eftir því, að það er tiltölulega nauðalítill hlutur af gáfnamagni veraldarinnar, sem á síðari tímum hefir orðið trúarbrögðunum samtaka. Vísindin og kirkjan hafa farið hvort sína leið-

ina, og alt af hefir orðið lengra og lengra á milli brautanna. Sú sannfæring hefir orðið æ ríkari og ríkari, að þau ættu aldrei að eilífu samleið framar. Það liggur í hlutarins eðli, að þetta hefir haft áhrif á alþýðu manna.

Lítum vér á ástandið hér á landi, er óhætt að fullyrða, að svipað verður uppi á teningnum sem annarstaðar. Rennum vér huganum aftur í tímann 40—50 ár, verður munurinn stórkostlegur. Þá leyndi það sér ekki, að þjóðin trúði yfirleitt aðalatriðum kristinnar kenningar. Þeir menn, sem ekki gerðu það, voru taldir sérvitringar, og mönnum stóð hálfgerður stuggur af þeim. Nú er sjaldgæft að hitta verulega hugsandi mann, utan prestastéttarinnar, sem ekki hefir stórmikið að athuga við kenningar kirkjunnar. Og miklum hluta þjóðarinnar finst áreiðanlega fátt um alla boðun trúarbragðanna. Í þá átt eru þeir yfirleitt ákveðnastir, sem mesta mentun hafa fengið. En reynsla landa vorra í Vesturheimi sýnir áþreifanlega, að alþýða manna er í þessu efni líkt skapi farin eins og „lærðir“ menn. Ekki er nema lítið brot af Vestur-Íslendingum, sem sinnir kirkjulegri starfsemi þar minstu vitund. Og þeir eru margir, sem veita henni ríka og ákveðna mótspyrnu.

Svo er nú ástatt um þessar mundir. Og

ekki virðist mér það koma til nokkurra mála að gera þá grein fyrir þessu ástandi, að trúarþörfin sé orðin minni en áður. Er nokkur ástæða til að ætla, að verulega hugsandi menn, sem gera sér grein fyrir ófullkomleikum sínum á aðra hliðina og fullkomnunar-hugsjónum sínum á hina, hafi fremur tilfinning fyrir því nú en áður, að þeir séu sjálfum sér nógir? Eða að þessi heimur með öllu sínu matarstriti og eftirsókn eftir einskisverðum hlutum og eymd og ójöfnuði og rangsleitni sé sjálfum sér nógur? Er nokkura lifandi vitund aðgengilegra nú en nokkuru sinni áður að hugsa til þess að skilja við ástvin sinn að eilífu? Er það frá nokkuru sjónarmiði sennilegt, að þráin eftir óendanlega ríkum kærleika — líftauginni í trúarbrögðunum — sé nokkuru daufari nú, en hún hefir áður verið? Hitt virðist miklu líklegra, að trúarþörfin hafi aldrei verið jafnmikil og nú. Menningin magnar sársaukann, og reynsla mannkynsins er sú, að ekkert örfi trúarþörfina fremur en hann.

Margvísleg grein er fyrir því gerð, hvernig á því standi, að trúarbrögðin hafa kulnað, mörgu um kent. Sumir kenna um úreltum kenningum kirkjunnar. Aðrir því, að henni hafi ekki tekist að verða menningarhugsjónum þjóðanna samferða, og að hún

hafi sumpart orðið eins og utanveltu í framsókninni, sumpart fjandsamleg henni. Aðrir leita að orsökunum hjá vísindunum. Ekki svo að skilja, að gætnir vísindamenn fullyrði að jafnaði, að þeim sé kunnugt um neinar sannanir gegn trúarbrögðunum. Prófessor Huxley, einn af allra gáfuðustu og ákveðnustu andstæðingum kirkjunnar á síðari helmingi síðustu aldar, kveður jafnvel svo ríkt að orði, að frásagan í Nýja testamentinu um illa andann, sem fór í svínin, ríði ekki bág við nokkurt þekkingaratriði, svo hann viti til. En þeir, sem leita að orsökunum fyrir trúardeyfðinni og fráhvarfinu frá trúarbrögðunum hjá vísindunum, halda því fram, að engin sú þekking, er vísindi nútímans hafa fært mannkyninu, staðfesti trúarbrögðin. Og mikið af þeirri þekkingu bendi í öfuga átt.

Það væri efni í heila bók, en ekki stutta tímaritsritgerð, að rannsaka þá grein, er menn gera fyrir því, hve örðugt trúarbrögðin eiga nú aðstöðu í veröldinni. Orsakanna er sjálfsagt að leita bæði hjá kirkjunni og vísindunum. Og áhrifin eru mismunandi á einstaklingana. Suma fælir kirkjan frá sér. Suma draga vísindin frá henni — vafalaust miklu fleiri menn en þá, er gera sér nokkura vísindalega grein fyrir lífsskoðun sinni. En

ekki virðist mér neinn vafi geta á því leikið, að afstaða vísindanna til trúarbragðanna hafi haft margfalt ríkari áhrif á gáfaða og þroskaða menn yfirleitt en yfirsjónir og ófullkomleikar kirkjunnar. Og gáfuðu og þroskuðu mennirnir eru það, sem ráða sannfæring fjöldans, þegar til lengdar lætur.

Eg er alveg sannfærður um, að allur þorri þeirra alvörugefinna gáfumanna, sem horfið hafa frá trúarbrögðunum, hefir svipaða sögu að segja, eins og prófessor Georg Brandes segir af sér í æfisögu sinni í „Det ny Aarhundrede". Hann brýtur heilann fram og aftur um trúarbrögðin á stúdentaárum sínum. Og í lengstu lög heldur hann dauðahaldi í ódauðleika-vonina. Ekki getur hann með nokkuru móti hugsað sér eða sætt sig við, að öllu sé lokið með andláti líkamans. Hitt finst honum sennilegt og vonandi, að andlátið sé eins konar fæðing inn í nýjan og óendanlega æðri heim. Hann leggur þessar hugsanir og vonir fyrir kennara sinn, prófessor Bröchner. Og kennarinn sýnir honum fram á, að menn viti ekki um neitt, sem á það bendi, að einstaklingurinn haldi áfram lífi sínu eftir andlátið, svo að þessar vonir hans séu á engu bygðar. Brandes getur ekki annað en fallist á það. Og eftir er hann hefir lært að líta á trúarbrögðin frá

því sjónarmiði verða þau að reyk í huga hans.

Eg hygg, að hér séum vér komnir að aðalorsök trúarfráhvarfsins. Um Darwin er sagt, að einu sinni hafi hann verið spurður, hvernig á því stæði, að hann væri ekki kristinn maður. Hann svaraði: „Af því að kristindóminn vantar sannanir.“ Mentaður heimur tekur nú yfirleitt ekki gildar sannanirnar fyrir kristindóminum.

Því fer mjög fjarri, að eg vilji gera lítið úr hugrænum („innri“) sönnunum kristindómsins, trúarreynslu kristinna manna á öllum öldum — svo fjarri, að eg er sannfærður um, að allur þorri manna, líka allur þorri kristinna manna, gerir alt of lítið úr þeim sönnunum. Eg geng að því vísu, að þar sé um óendanlega mikilvægan og dýrmætan sanninda-auð að tefla, hvenær sem það djúp verður verulega kannað. Og þar hefi eg á mínu máli ágætustu sálarfræðinga nútímans. En auk þess, sem það er nokkurum vafa bundið, hvort verulegar hugrænar kristindómssannanir geta náð til allra manna, þó að hvorki viljinn né ályktanir skynseminnar séu því til fyrirstöðu, þá liggur það í hlutarins eðli, að þær gilda ekki andspænis þeim mönnum, sem eru fráhverfir kristinni trú. Eg á þess engan kost, að grannskoða

það, sem hvergi fer fram nema í sál einhvers annars manns. En því síður er þess nokkur kostur, að færa mér órækar sannanir fyrir því, að það, sem þar hefir gerst, og hvergi annarstaðar, sé gersamlega andstætt öllum þeim hugmyndum, sem eg geri mér um tilveruna. Fullyrði maður, sem eg annars tek trúanlegan, að eitthvað það hafi gerst í sál sinni, sem eg kannast við og samrýmist hugmyndum mínum um tilveruna, þá getur reynsla hans verið mikilsverð fyrir mig. Annars ekki. Mig vantar þá öll skilyrði til að gera mér grein fyrir henni.

Fyrir því verður kristin kirkja að taka til alt annara sannana, þegar hún snýr sér að þeim mönnum, sem eru trúrbrögðunum fráhverfir. Hún verður að leggja alt aðra undirstöðu. Og sú undirstaða er sögulegs eðlis. Kirkjan verður að sanna, að viðburðir hafi gerst, sem beri þess vitni, að trúarbrögðin séu alt annað en heilaspuni. Eg geng að því vísu, að menn verði mér sammála um, að þungamiðja þeirra sannana sé upprisa Jesú Krists frá dauðum. „Sé Kristur ekki upprisinn, er trú yðar ónýt“, sagði Páll postuli. Og hið sama segir kristin kirkja yfirleitt enn í dag.

Því verður nú naumast neitað, að væri upprisa Krists einhver algengur viðburður

eða samsvaraði hún öðrum stórviðburðum mannkynssögunnar, þá mundu sannanirnar fyrir henni teknar gildar. Postularnir, mennirnir, sem Kristur á að hafa birzt eftir andlátið, gera upprisu hans að þungamiðjunni í kenningu sinni. Sannfæringin um það, að þeir hafi séð meistara sinn eftir andlát hans, gerir þá að nýjum mönnum, og fyrir þá sannfæring eru þeir þess albúnir að leggja alla tímanlega velferð og líf sitt í sölurnar. Og Páll postuli nafngreinir, rúmum 20 árum eftir að atburðurinn á að hafa gerst, marga menn, sem hafi séð hann upprisinn, og tekur það jafnframt fram, að meir en 500 menn hafi séð hann í einu, og að flestir þeirra séu á lífi, þegar hann ritar þetta. Síðast allra segir Páll, að hann hafi birzt sér. Það nær alls engri átt að hugsa sér að postularnir hafi farið með vísvitandi ósannindi um þetta stórmál. Og líklegt er það ekki heldur, að hér sé eingöngu um skynvillur og hviksögur að tefla. En hvers vegna taka menn þetta þá ekki trúanlegt?

Svarið mun verða eitthvað í þessa átt hjá öllum þorra þeirra manna, sem annaðhvort efast um upprisu Krists eða hafna henni algjörlega: Upprisa Krists er ekki neinn algengur viðburður, og hún samsvarar ekki heldur neinum öðrum viðburðum mann-

kynssögunnar. Hún er gersamlega einstæður viðburður. Og hún er ekki eingöngu einstæð. Hún fer líka í öfuga átt við alla aðra reynslu mannkynsins. Fyrir því þurfum vér miklu ríkari sannanir fyrir henni en öðrum viðburðum, sem oss er ætlað að leggja trúnað á. Og nú vill svo slysalega til, að frásagnir Nýja testamentisins um þennan einstæða merkisviðburð eru mjög varhugaverðar. Ætla mætti, að kapp væri á það lagt, að segja nákvæmlega rétt frá því, er menn vissu um annan eins viðburð, sem ætlað var að gjörbreyta lífsskoðun mannkynsins og verða hyrningarsteinn undir allra-æðstu og dýrmætustu vonum mannanna. En einu rithöfundarnir, sem frá þessu stórmáli skýra — langmesta viðburði mannkynssögunnar, svo framarlega sem hann hefir í raun og veru gerst — hafa ekki hugmynd um neina sögulega nákvæmni og því síður um neinar vísindalegar athuganir. Enginn þeirra skýrir eins frá þeirri vitneskju, er menn hafi fengið um viðburðinn.

Matteusar guðspjall segir, að tvær konur hafi farið að sjá legstaðinn, þegar lýsti af fyrsta degi vikunnar. Þá hafi orðið mikill landskjálfti, engill hafi komið frá himni, velt steininum frá gröfinni og sezt á hann. Við þessa sýn hafi varðmennirnir orðið svo

hræddir, að þeir hafi verið sem örendir. Engillinn hafi þá yrt á konurnar og sagt þeim meðal annars, að Kristur mundi fara á undan lærisveinum sínum til Galíleu, og þ a r mundu þeir sjá hann. Konurnar hafi svo hlaupið burt, til þess að flytja lærisveinunum þessa fregn. En á leiðinni til lærisveinanna hafi Jesús komið á móti þeim og sagt hið sama, sem engillinn hafði sagt, að í Galíleu skyldu „bræður“ hans fá að sjá hann. Lærisveinarnir hafi því næst farið til Galíleu og hitt Jesúm þar. Af Matteusi verður ekki ráðið, að hann hafi birzt neinum í Jerúsalem, öðrum en þessum konum. Hafi hann birzt lærisveinum sínum í Jerúsalem, verður ekki annað sagt, en að frásögn Matteusar sé mjög ónákvæm og beinlínis villandi.

Markúsar guðspjall segir, að konurnar hafi verið þrjár. Það getur ekkert um landskjálftann né felmt varðmannanna. Konurnar eru að tala um það, hver muni velta fyrir þær steininum frá gröfinni, svo að þær geti smurt líkið. En þegar þær litu þangað, sáu þær, að steininum hafði verið velt burt, gengu þá inn í gröfina og sáu engilinn sitja inni í henni. Hann segir þeim, eins og í Matteusar guðspjalli, að lærisveinarnir muni fá að sjá Jesúm í Galíleu. Konurnar segja engum frá þessu; þær eru svo hræddar. Þá

lætur Jesús eina þeirra sjá sig, Maríu frá Magdölum, en ekki fleiri konur, að því er séð verður. Því næst birtist hann í „annarlegri mynd“, tveimur lærisveinum sínum, sem voru á gangi, „og ætluðu út á landsbygðina“. Síðan lét hann 11 lærisveinana sjá sig, þegar þeir sátu undir borðum. Ekki er getið um, hvar það hafi verið; en af því, sem á undan er komið, orðum engilsins, virðist mega ráða, að það hafi verið í Galíleu. Þegar Jesús hafi lokið tali sínu við þá, varð hann uppnuminn til himins.

Eftir Lúkasar guðspjalli hafa konurnar verið margar: þrjár konur þær, er með Jesú höfðu komið úr Galíleu, og nokkurar aðrar konur með þeim. Þær verða einskis landskjálfta varar, svo að frá sé skýrt, og steininum hefir verið velt frá gröfinni, þegar þær koma þangað. Þær fara inn í gröfina, og finna líkið þar ekki. En meðan þær voru að furða sig á þessu, sjá þær, að tveir menn standa hjá þeim í skínandi klæðum. Þeir yrða á konurnar, en minnast ekkert á það, að lærisveinarnir eigi að fara til Galíleu, til þess að fá að sjá Jesúm. Konurnar fara til lærisveinanna og færa þeim fregnina. Ekki er einu orði á það minst, að nokkur þeirra hafi orðið nokkurs vör á leiðinni. Eftir þessari frásögn birtist Jesús fyrst tveim

lærisveinum sínum, sem eru á leið frá Jerúsalem til Emaus, sjálfsagt þeim sömu, sem Markús segir, að hafi ætlað út á landsbygðina. En Lúkas getur ekkert um „annarlega mynd“ á honum, heldur segir, að augu þeirra hafi verið svo haldin, að þeir þektu hann ekki. Jesús fór með þeim inn í þorpið Emaus og settist til borðs með þeim. Og meðan þeir sátu við borðið opnuðust augu þeirra, svo að þeir þektu hann. En þá hvarf hann þeim. Því næst birtist Jesús 11 lærisveinum sínum í Jerúsalem, talaði við þá og snæddi með þeim. Síðan fór hann með þá út til Betaníu og varð þar uppnuminn til himins. Ekki er með einu orði á það minst í frásögn Lúkasar, að lærisveinarnir hafi nokkuru sinni séð Jesúm í Galíleu, og hafi svo verið, þá er þessi frásögn stórkostlega ónákvæm og beinlínis röng.

Jóhannesar guðspjalli segist enn annan veg frá. Það getur ekki um nema eina konu, sem komið hafi til grafarinnar um morguninn, Maríu frá Magdölum. Þegar hún kemur þangað, sér hún, að steinninn hefir verið tekinn burt. Hún hleypur þá til tveggja lærisveinanna, verður einskis vör á leiðinni, og segir þeim, að líkið hafi verið tekið burt úr gröfinni, og hún viti ekki hvað af því sé orðið. Lærisveinarnir fara að forvitnast

um þetta, sjá, að líkaminn er horfinn og ekki annað eftir í gröfinni en dúkar, sem sveipað hefir verið utan um líkið. Þegar lærisveinarnir eru farnir heim til sín, stendur María eftir hjá gröfinni og gægist inn í hana. Þá sér hún tvo hvítklædda engla, annan til höfða, hinn til fóta, þar sem Jesús hafði legið. Rétt á eftir verður henni litið aftur fyrir sig. Sér hún þá Jesúm standa þar, og heldur fyrst, að það sé grasgarðsvörðurinn, en þekkir hann svo, þegar hann fer að yrða á hana. Að kveldi hins sama dags kemur hann að luktum dyrum inn til lærisveina sinna og sýnir þeim hendur sínar og síðu. Tómas er ekki viðstaddur og véfengir þetta, þegar hinir lærisveinarnir fara að segja honum frá því. Jesús birtist þeim þá aftur á sama hátt eftir 8 daga og lætur Tómas skoða vandlega hendur sínar og síðu. Auk þess segir Jóhs. guðspjall, að hann hafi gert mörg önnur teikn í augsýn lærisveina sinna, þau, er ekki séu rituð í guðspjallinu, og eftir sambandinu virðist svo, sem hann hafi gert þau í Jerúsalem, í sama skiftið, sem hann lét Tómas skoða sig. Að lokum segir Jóhannesar guðspjall frá því, að hann hafi birzt sjö lærisveinum sínum í Galíleu, við Tíberíasvatn, og tekur það fram berum orðum, að

það hafi verið í þriðja sinni, sem hann birtist lærisveinum sínum eftir upprisuna.

Þá er loks vitnisburður Páls postula í fyrra Korintubréfinu. Hann er alt annan veg en frásagnir guðspjallanna. Eftir hans ummælum virðist svo, sem Kefas (Pétur) eigi að hafa séð Jesúm eftir upprisuna fyrstur manna, þar á eftir „þeir tólf“; þá 500 manns, allir í einu; þá Jakob; þá postularnir allir. Páll fer auðsjáanlega eftir alt öðrum upprisu-frásögnum en höfundar guðspjallanna.

Þessi eru sönnunargögnin, sem kristin kirkja hefir fram að færa gegn þeim mönnum, sem ekki trúa upprisu Krists. Þeir taka þau ekki gild. Svo sundurleitar og lauslegar frásagnir um jafn-einstæðan viðburð, sem á að hafa gerst fyrir nær 20 öldum, taka þeir ekki trúanlegan. Þeir benda á það, að við þennan viðburð hafi engum nákvæmum athugunum verið beitt og engin rannsókn skarpskygnra og óhlutdrægra manna hafi farið fram um það, hvers menn hafi í raun og veru orðið vísari; mennirnir, sem upphaflega hafi verið einir til frásagna, hafi verið fáfróðir menn og ímyndunarafl þeirra að líkindum í afarmikilli æsing; og svo viti enginn um það — enginn geti einu sinni farið nærri um það — hverja grein mennirnir hafi í

raun og veru fyrir því gert, hvað fyrir sig hafa borið; og loks hafi þessir menn, auk alls annars, verið uppi á þeim tímum, er trúnaður var lagður á alls konar kynja-viðburði; á þeim tímum, er menn þóttust jafnvel vera sjónarvottar að því, að illir andar væru reknir út af mönnum og látnir fara í skynlausar skepnur. Þeir menn, er ekki taka upprisu Krists trúanlega, kannast við það, að postularnir hafi verið sannfærðir um hana; en þeir segjast ekki eiga þess neinn kost, að rannsaka sönnunargildi þess, er hafi sannfært postulana. Þeir kannast við það, að það sé kynlegt, að postularnir skuli hafa fengið jafn-óbifanlega sannfæring fyrir þessu, ef það hefði ekki verið annað en misskilningur og tál. En þeir halda því fram, að upprisan sjálf sé enn kynlegri og ótrúlegri.

Hvort sem það er nú sanngjarnt eða ekki, að taka hart á þessum ályktunum trúarveikra eða trúlausra manna, þá er ekki til neins að gera það. Svona álykta menn, hvort sem það er lagt út vel eða illa. Og mér fyrir mitt leyti finst alls ekki sanngjarnt að lá þetta. Eg get ekki með nokkuru móti séð, að kirkjan geti krafist þess af nokkurum manni, að hann taki þessi sönnunargögn hennar gild. Hún samsinnir yfirleitt þeirri

staðhæfing andstæðinga sinna, að upprisa Krists sé gersamlega einstæður viðburður. Hún verður þá líka við það að kannast, að fyrir henni þurfi ríkari sannanir en fyrir algengum viðburðum.

Allra-sízt fæ eg skilið það, að mótmælendakirkjan hafi nokkurn rétt til þess að krefjast þess, að menn taki gildar sannanirnar fyrir upprisu Krists. Yfirleitt tekur hún ekki trúanleg „kraftaverkin“, sem gerst hafa í kaþólskri kirkju; að svo miklu leyti sem mótmælendur afneita þeim ekki afdráttarlaust, láta þeir þeirra að engu getið og nota þau á engan hátt til stuðnings lífsskoðun sinni. Nú er sannleikurinn sá, að fyrir mörgum „kraftaverkum“ í kaþólskri kirkju eru svo ríkar sannanir, að þeim verður alls ekki jafnað saman við sannanirnar fyrir upprisu Krists. Mörgum Íslendingum þykir þetta að líkindum furðulegt, og ef til vill ótrúlegt. Hér á landi eru menn alment gersamlega ófróðir um það, sem gerst hefir í kaþólskri kirkju, og gera sér í hugarlund, að það, sem hún hefir að bjóða umfram prótestantiskan rétttrúnað, sé ekki annað en hégiljur og hindurvitni. En því fer svo fjarri, að fyrir mörgum „kraftaverkum“ hennar eru svo ramefldar sannanir, sem framast verður á kosið.

Rétt til dæmis ætla eg að benda á „kraftaverk“ þau, er sagt er að hafi gerst í Frakklandi á gröf Paris ábóta, Jansenistans nafnfræga. Eg fer eftir frásögn skozka heimspekingsins Davíðs Hume í ritgerð hans um kraftaverk („Of Miracles“). Ekki er hætt við, að sá rithöfundur geri of mikið úr sönnunum fyrir kraftaverkum, því að í þessum kapítula bókar sinnar er hann einmitt að leita við að sanna það, að engin kraftaverk hafi nokkuru sinni komið fyrir í heiminum.

Alment var fullyrt, að sjúkir fengju lækning, heyrnarlausir heyrn og blindir sýn á þessari helgu gröf. Mörg af þessum kraftaverkum segir Hume, að viðstöðulaust hafi verið sönnuð frammi fyrir dómurum, sem enginn hafi grunað um hlutdrægni, og að áreiðanlegir og nafnkendir vottar hafi borið þeim vitni; og þetta hafi gerst á þeim tímum, er mentun var mikil, og á ágætasta sjónarsviði, sem þá hafi verið til í veröldinni. Frá kraftaverkunum var skýrt á prenti. Jesúítar, sem voru hálærðir menn, gerðu sér alt far um að hnekkja vitnisburðunum, því að þeir áttu mjög í höggi við Jansenista; og þeir höfðu valdstjórnina á sínu bandi. Samt tókst þeim aldrei að hnekkja kraftaverka-vitnisburðunum, né gera grein fyrir, í hverju

veilan væri fólgin. „Hvar finnum vér annan eins atvikafjölda, er allur stefnir að því að staðfesta einn vitnisburð?“ segir Hume. Hann gerir grein fyrir því, hvernig ýmsum af sönnununum hafi verið háttað, og hann sér engan veg til þess að fá þeim haggað.

Samt tekur hann ekki viðburðina trúanlega, afneitar þeim afdráttarlaust, vegna þess, að þeir séu alveg ótrúlegir, að þeir séu þess eðlis, að skynsamir menn eigi ekki að trúa þeim. Eg geri ráð fyrir, að það sé af sömu ástæðu — ef ástæðu skyldi kalla — að prótestantar véfengja þau kraftaverk kaþólsku kirkjunnar, sem ríkar sannanir eru fyrir, að gerst hafi. Eg fæ ekki séð, að þeir, sem álykta svo, hafi nokkurn rétt til að lá öðrum mönnum, sem véfengja mesta undrið, furðulegasta viðburðinn, sem frá er skýrt, upprisu Krists frá dauðum.

Vitaskuld er þessi ástæða Humes alveg fráleit. Reynsla mannkynsins ætti að vera búin að kenna því það, að um fleira er að tefla í náttúrunnar ríki en það, sem á þeim og þeim tímum hefir þótt trúlegt. Enginn má gera sér í hugarlund, að það sé fáfróð alþýða ein, sem véfengt hefir það, er reynst hefir áreiðanlegt. Helztu vísindamenn veraldarinnar hafa gert það alveg eins. Þeir hafa véfengt, að unt væri að dáleiða menn. Þeir

hafa véfengt, að til væru loftsteinar. Þeir hafa véfengt, að unt væri að leggja ritsíma í sjó. Þeir hafa véfengt,að unt væri að láta gufuvagna fara eftir járnbrautum. Þeir hafa barist gegn þessu hnúum og hnefum, og ótal mörgu öðru, sem reynst hefir áreiðanlegt, og fært ógrynnin öll af „vísinda"-sönnunum fyrir því, að þeim gæti ekki skjátlast. Og hverjum mundi fyrir 100 árum — og þótt miklu skemur væri leitað aftur í tímann — hafa þótt það trúlegt, að unt væri að taka ljósmyndir af því, sem er innan í ósærðum mannslíkama, eða að menn lékju sér að því að senda hugsanir sínar frá vesturströnd Englands til Reykjavíkur eftir engri annari braut en lausu loftinu? Það er áreiðanlega bezt að treysta sem minst þeirri ástæðu, að viðburðirnir séu ótrúlegir, þegar ríkar sannanir eru fyrir því, að þeir hafi í raun og veru gerst.

Hitt er annað mál, að ekki er nema eðlilegt og skynsamlegt, að menn véfengi þá viðburði, sem eru alveg einstæðir í reynslu mannkynsins, ef ekki er unt að færa ríkar sannanir fyrir þeim. Nú er svo ástatt um aðalviðburð kristninnar, upprisu Krists frá dauðum, eins og áður hefir verið vikið að, að sannanirnar fyrir honum eru ekki svo ríkar, að þær fullnægi efagjörnum mönn-

um, af því að viðburðurinn er talinn einstæður, ekki að eins af þeim, sem rengja hann, heldur og af kristnum mönnum langflestum. Hér veltur sannfæringin áreiðanlega fyrir mörgum, mörgum miljónum manna um allan siðaðan heim á þessu, hvort upprisa Krists er í raun og veru einstæður viðburður, eða hvort færa má órækar sannanir fyrir því, að sams konar viðburðir séu að gerast á vorum dögum. Fáist engar sannanir, er styðji trúna á upprisu Krists, eru óneitanlega mjög miklar horfur á því, að sú trú líði undir lok, áður en afar-langt líður, eftir þeirri stefnu, sem mannsandinn hefir tekið á síðari tímum. Reynsluvísindin virðast vera að gagntaka hann svo, að það verður innan skamms gagnstætt eðli hans að byggja sínar æðstu og dýrmætustu vonir á ósönnuðu máli. Og trúarþörfin leitar sér þá fullnægju á nýjum brautum. En fari svo, að órækar sannanir fáist fyrir því, að nákvæmlega sams konar viðburðir gerist enn eins og þeir, sem skýrt er frá síðast í guðspjöllunum — að andar framliðinna manna geti enn tekið á sig gerfi, sem ekki verður greint frá mannlegum líkama — þá fer að verða í meira lagi óaðgengilegt fyrir skynsama og gætna menn að afneita þungamiðju-viðburði kristins heims. Þá fer ekki að verða þörf

á jafn-ríkum og jafn-nákvæmum sönnunum fyrir upprisu Krists eins og annars.

Þessarar sannanir fullyrða spíritistar, að þeir hafi fundið. Ekki fáfróðir, trúaræstir alþýðumenn á útkjálka menningarheimsins, heldur menn af öllum stéttum, en einkum vel mentaðir menn, víðsvegar um heiminn, og þar á meðal nokkurir af ágætustu vísindamönnum í sjálfum menningar-míðdeplum veraldarinnar. Þeir segjast hafa horft á anda framliðinna manna taka á sig mannlegan líkama. Það er meira en 30 ár, síðan er fyrst var farið að fullyrða þetta. Og það er meira en 30 ár, síðan er fyrsti vísindamaðurinn tók sér fyrir hendur að rannsaka þetta. Og hann sagði, að það væri alveg satt.

Maðurinn er prófessor William Crookes í Lundúnum. Hann var þá þegar einn af frægustu eðlisfræðingum og efnafræðingum Norðurálfunnar. Og honum var síðar veitt aðalstign fyrir vísindastörf sín og gerður að forseta hins konunglega brezka vísindafélags, eins af vandfýsnustu félögum heimsins. Hann tók á heimili sitt 15 ára skólastúlku, Florence Cook að nafni, sem sagt var, að væri þeim eiginleik búin, að andar framliðinna manna gætu tekið á sig mannlegan líkama í návist hennar. Hún hafði ekki ann-

að meðferðis heim til hans, en ofurlítinn fataböggul, sem hann skoðaði vandlega. Hún var á heimili hans tímum saman, og hennar var stöðugt nákvæmlega gætt. Hann er ekki einn til frásagnar um það, er fyrir hann bar, því að hann bauð fjölda manns að vera viðstöddum kveld eftir kveld, og sumir þeirra eru nafnkendir vísindamenn. Þeir sögðu allir sömu söguna. Hann tjaldaði milli tveggja herbergja í húsi sínu og lét stúlkuna liggja eina á gólfinu í annari stofunni, meðan á tilraununum stóð. Hún leið í ómegin, og þegar hún hafði mist meðvitundina, kom, kveld eftir kveld, út undan tjaldinu, fram í stofuna, kvenvera, sem nefndi sig Katie King og kvaðst hafa lifað á Englandi á 17. öld. Í fyrstu gat hún ekki látið sjá sig nema í daufu ljósi,af því að skært ljós hefði truflandi og sundurleysandi áhrif. En henni fór það fram, að hún gat staðist bjart rafljós. Hún gekk innan um stofuna og talaði við þá, sem viðstaddir voru. Einu sinni tók hún í höndina á einum þeirra. Hann fann, að engin bein voru í hendinni og hafði orð á því við hana. Hún brosti og tók í hendurnar á öllum hinum. Þá rétti hún þeim manni höndina, sem á þetta hafði minst. Beinin voru þá komin. Hún klipti hvað eftir annað stór göt á kjólinn sinn, hristi hann svo, og

þá var hann jafn-góður. Hún lét klippa af sér hárið og það óx aftur samstundis, svo að það varð jafn-mikið og áður. Og inni í stofunni, þar sem fólkið var, frammi fyrir því öllu, leystist hún sundur, eins og vaxbrúða við glaðan eld. Fyrst þurkaðist andlitsfallið út. Augun sukku inn í augnatóftirnar, nefið hvarf, ennið virtist híga aftur á bak inn í höfuðið. Þá hurfu útlimirnir og líkaminn hrundi eins og varða. Höfuðið eitt sást því næst eftir á gólfdúknum. Að lokum sást ekki annað en nokkuð af hvítum slæðum, unz þær hurfu líka, eins og þeim hefði verið kipt burt ofan frá. Prófessor Crookes mældi Katie oft; hún var ekki jafn-há öll kveldin, en ávalt mikið hærri en Florence Cook. Hann taldi æðaslögin og hjartaslögin og hlustaði lungun í þeim báðum. Þeim var mjög misjafnt farið um þetta alt. Og hann tók fjölda af ljósmyndum af Katie. Á sumum þeira sést Florence Cook hjá henni.

Þetta er ofurlítið ágrip af því, er bar fyrir William Crookes, heimilisfólk hans og gesti, árin 1873—74. Þessi fyrirbrigði á heimili hans eru ekki einstæð. Vitni er borið um mörg sams konar fyrirbrigði, áður en Florence Cook kom til Crookes. Og mikið á að hafa gerst af þeim síðan. Þau gerast

mörg víðsvegar um heiminn á hverju ári. Nú síðast, sumarið 1905, hafa verið mikil brögð að þeim, bæði í Norðurálfu og Vesturheimi, eftir frásögn sjónarvotta, sem hefir fundist hliðum himnaríkis vera lokið upp fyrir sér svo rækilega, að þeim verði aldrei lokað framar. Og þessi holdtekju-fyrirbrigði í heild sinni eru ekki heldur einstæð. Þau standa í sambandi við ógrynnin öll af öðrum fyrirbrigðum, sem eru með öðru móti, en benda jafn-skýrt út yfir gröf og dauða.

Margar tilraunir hafa verið gerðar til skýringar á þessum fyrirbrigðum í því skyni að hnekkja sönnunargildi þeirra. Sumir hafa gizkað á, að þessi 15 ára skólastúlka, sem Crookes tók heim í hús sitt, hafi leikið allan þennan leik. Öðrum þykir það ekki sem sennilegast, þar sem fólkið sá þær báðar í einu og ljósmynd náðist af þeim báðum á sömu plötunni. Sumir halda að Katie King hafi verið einhver vinstúlka Florence Cook, sem svona hafi leikið á Crookes og gesti hans, alt af komist inn í stofurnar, líklegast inn um gluggana, nákvæmlega á þeim tímum, er Crookes þóknaðist að fást við tilraunir sínar. Aðrir segja, að þá hafi að minsta kosti fleiri en ein vinstúlkan hlotið að vera

þarna á ferðinni, fyrst aðkomukonan reyndist misjafnlega há. Og að þær stallsystur hafi þá hlotið að vera óvenjulega slungnar, eða Crookes og gestir hans óvenjulega miklir aular. Enn gera sumir sér í hugarlund, að þetta stúlkubarn hafi verið sá fyrirtaks-dáleiðari, að hún hafi meðvitundarlaus getað látið Crookes og gesti hans alla dreyma sama drauminn vakandi. Aftur segja aðrir, að vísindin þekki ekki slíkt dáleiðslumagn. Og enn síður sé mönnum kunnugt um hæfileika til að dáleiða ljósmyndaplötur. Þá eru enn til þeir menn, sem hyggja, að Katie King hafi verið einhver hluti af persónu Florence Cook, hafi getað orðið viðskila við hinn hlutann, talað við menn og gert öll þau kynjaverk, sem Crookes og gestir hans sáu. En þá eru aðrir, sem líta svo á, að þegar ágizkanirnar séu komnar svo langt, þá fari þær ekki að verða neitt sennilegri en hitt, að Katie King hafi í raun og veru verið sú, sem hún sagðist vera. Og að öllu athuguðu verði einmitt það sennilegasta tilgátan.

Hvernig sem menn nú líta á þessar skoðanir og getgátur, virðist mér, að engum skynsömum manni, sem athugar málið vandlega, geti dulist það, að hér er um mikið að tefla fyrir kristna kirkju. Reynist fyr-

irbrigði spíritismans, með allri þeirri vandlegu athugun, sem fram fer á þeim nú á tímum, ekki annað en blekking og tál, þá fer, svo að vjer ekki tökum djúpt í árinni, að verða til nokkuð mikils mælst, að menn leggi trúnað á ónákvæmar og lauslegar frásagnir um alveg sams konar fyrirbrigði, sem eiga að hafa gerst fyrir nær því 20 öldum. Eða verði sú niðurstaðan eftir allar rannsóknirnar, að þessi nútíðar fyrirbrigði stafi eingöngu frá dularöflum með lifandi mönnum, hverja trygging, eða réttara sagt hver líkindi hafa þá skynsamir menn fyrir því, að fyrirbrigðum Nýja testamentisins hafi ekki verið eins háttað? En verði sú raunin á, að mentaður heimur sannfærist um, að fyrirbrigðin stafi þaðan, sem þau þykjast stafa, þá hefir kristin kirkja óneitanlega fengið þann stuðning, sem að haldi kemur. Margt í kenningum sínum kann hún að þurfa að endurskoða. En þungamiðja trúarbragðanna stendur þá óhögguð. Þá fer svo, sem F. W. H. Myers spáir, að eftir 100 ár neitar enginn skynsamur maður upprisu Krists, þar sem horfurnar hafi verið þær, að eftir 100 ár mundi enginn skynsamur maður trúa henni.

Mesta furðan — enn meiri furða en öll

dularfull fyrirbrigði — er sú, að kirkjan skuli ekki hafa getað áttað sig á þessu, að hún skuli hafa óttast og barist gegn því að fá gildar sannanir til stuðnings sínum eigin staðhæfingum.

---

# Máttur mannsandans.

Þrjú erindi flutt í Reykjavík 1909.

---

## I.

Við höfum öll lesið eða heyrt sögurnar af Þorsteini karlssyni og Ullarvindli og öðrum kotungssonum, sem alist höfðu upp í mestu fátækt og volæði, en eignuðust að lokum kongsdótturina, og hálft ríkið meðan konugurinn lifði, en alt eftir hans dag. Slíkar sögur eru til með öllum þjóðum. Frásagnirnar eru nokkuð mismunandi. Stundum hafa karlssynirnir fengið einhverja dýrgripi frá foreldrum sínum, þótt fátækir hafi verið, og með þeim dýrgripum hefir þeim tekist að fleyta sér áfram upp í metorð og auð og völd, eins og í íslenzku sögunum, sem eg hefi nefnt. Stundum eru engir líkamlegir hlutir til í fyrstu, sem nokkurs er vert um, menningarleysi og eymd æskunnar jafnvel svo mikið, að unglingurinn situr allan daginn í öskustó og hefst ekkert annað að en að róta í öskunni. En hann er

gæddur undragáfu athyglinnar. Hann tekur eftir tækifærunum, sem beðið hafa öld eftir öld eftir því, að einhver liti við sér. Og fyrir bragðið hefir hann, þegar minst varir, varpað af sér öskulörfunum, og birtist sem glæsilegur riddari í purpura og gullskrúði og vinnur þrautirnar, sem fyrir þá menn eru lagðar, er öðlast vilja mestu gæfuna. Og frásagnirnar eru með ýmsum öðrum hætti. En aðalhugsunin er hin sama í þeim öllum hjá öllum þjóðum.

Mannsandanum hefir auðsjáanlega þótt gaman að því að fást við þetta æfintýri og búa það margvíslegum búningi. Og það er ekkert undarlegt, því að svo má líta á, að minsta kosti frá annari hliðinni, sem þetta sé æfintýrið um hann sjálfan.

Við gerum okkur sjaldnast grein þess í daglegu lífi, hve óumræðilegur kotungur og smælingi mannsandinn sjálfsagt hefir verið í fyrstu á þessari jörð. Við vitum það að sönnu, að menn hafa hugsað sér hann upphaflega í sakleysis og sælu-ástandi, í vitundarsambandi við sjálfan höfund tilverunnar. Og við vitum, að þetta er enn verið að kenna börnunum. En mér er óhætt að fullyrða það—sem mörgum ykkar er sjálfsagt meira og minna ljóst — að þekking nútíðarmanna á liðnum tímum gerir sögusagnirnar um

upphaflegt sælu-ástand mannanna á þessari jörð alt annað en trúlegar. Þeim er ekki trúað lengur, af því að mönnum er orðið það ljóst, að þær eru sprottnar af vanþekking.

Við vitum ekkert um uppsprettu lífsins. Við vitum ekkert, hvort það á eingöngu rætur sínar að rekja til þessarar jarðar. Við höfum enga ástæðu til að ætla það. Við höfum miklu fremur ástæðu til að ætla, að sumra rótanna sé að leita óendanlega miklu lengra, og að því mun eg eitthvað ofurlítið víkja síðar. En eftir þekkingu nútímans getum við ekki með nokkuru móti hugsað okkur annað, en að hér á jörðunni hafi upphaf mannlífsins eða mannkynsins — eða mannsandans, sem í þessu sambandi verður það sama — verið mjög lítilfjörlegt eftir okkar mælikvarða. Við getum ekki hugsað okkur annað, en að mennirnir eigi rót sína að rekja til langtum óæðri dýra en þeir eru sjálfir — jafnvel alla leið út í sjóinn, eftir því sem sumir halda. Við getum ekki hugsað okkur annað, en að forfeður okkar hafi, fyrst eftir að nokkurt töluvert mannsmót var þó á þá komið, verið æði líkir öðrum dýrum að andlegu atgerfi. Mannsandinn hefir lagt út í lífið hér á jörðunni margfalt meiri smælingi en Ullarvindill

Íslendinga, eða Askeladden Norðmanna eða smaladrengur Þjóðverja, sem allir eignuðust kongsdótturina og allir urðu kongar sjálfir.

En kotungurinn hefir komist vel áfram. Það væri fásinna að neita því, hvað óánægðir sem menn kunna að vera með mannlífið. Forfeður okkar í sjónum hefðu minst getað hugsað sér af því, sem úr eftirkomendum þeirra hefir orðið — þótt ekki væri af annari ástæðu, þá af þeirri, að þeir hafa ekkert getað hugsað. Mannsandinn hefir lært að hugsa mörgum þúsundum ára áður en vér höfum nokkurar sögur af honum. Og út frá hugsununum hefir máttur hans birzt.

Okkur finst að jafnaði ekki mikið um það, sem við sjáum vera að gerast umhverfis okkur. Okkur þykir, til dæmis að taka, ekki mikið í það varið, að sjá kveiktan eld. Mönnunum lærðist að fara með eldinn, gera hann að vini sínum og þjóni, í stað þess sem hann hafði áður verið drottinn þeirra og óvinur, löngu áður en við höfum sögur af þeim. Það hefir sjálfsagt verið einhver merkilegasta uppgötvun mannsandans. Frá henni stafar að langmestu leyti vald hans á náttúrunni. Við getum naumast hugsað okkur, að eldlausum hefði mönnunum orðið nokkurrar verulegrar menningar auðið.

Forngrikkjum var þetta svo ljóst, að þeir bjuggu til sögu um það, að eldurinn hefði verið sóttur til guðanna. Og guðirnir urðu því svo reiðir, að mennirnir skyldu hugsa sér svo hátt að eignast eldinn, að þeir lögðu óumræðilegar pyndingar á manninn, sem eldinum hafði náð.

Okkur þykir ekki mikið varið í það að sjá skrifað blað eða prentaða bók. Við hugsum ekki að jafnaði um það, að hvorttveggja er ávöxtur af þeirri óhemju-uppgötvun mannsandans að geyma hugsanirnar, varðveita þær ár eftir ár, öld eftir öld.

Þegar við að öðru leytinu reynum að gera okkur ljóst, hvílíkur kotungur mannsandinn hlýtur að hafa verið í fyrstu á þessari jörð, og að hinu leytinu rennum augunum þótt ekki sé lengra aftur í tímann en til síðustu aldar, og athugum afreksverk mannsandans á þeim 100 árunum, þá væri ekki óeðlilegt, að okkur lægi við að sundla. Eg þarf ekki annað en að benda á nokkurar af helztu uppgötvununum, sem allri alþýðu manna er kunnugt um, sumpart af reynslu sinni í daglegu lífi, sumpart af allra-einföldustu fræðibókum eða viðtali við sér fróðari menn — járnbrautirnar og gufuskipin, sem hafa umturnað ferðalögum

manna um jörðina; ritsíma, talsíma og þráðlaus loftskeyti, sem valdið hafa bylting í flutningi hugsananna um heiminn; gasljós og rafljós; ljósmyndunina, sem varðveitir hina ytri mynd líkamanna að sínu leyti eins og prentlistin varðveitir hugsanirnar; hljóðritann (fónografinn), sem varðveitir eða geymir hljóðið að sínu leyti eins og ljósmyndirnar varðveita myndir líkamans; Röntgensgeislana, sem fara gegnum þau efni, er menn vissu ekki áður að neinir ljósgeislar kæmust gegnum; ljósbrotskönnunina (spectralanalysis), sem aukið hefir svo þekking vora á alheiminum, að vér með henni getum komist að efnasamsetning stjarnanna, og jafnvel að tilveru og snúningshraða sumra þeirra hnatta, sem eru oss með öllu ósýnilegir; svæfingarlyfin, sem girða fyrir sársauka við stórkostlegustu holskurði; bakteríufræðina og notkun rotvarnarlyfja; sannanirnar fyrir ísöldinni og aldurhæð mannkynsins. Alt er þetta dásamlegur vottur um mátt mannsandans, ásamt mörgu öðru stórmerkilegu, sem hann hefir komist að á síðustu öldinni.

Og ekki eru listirnar að sínu leyti ómerkilegri, öll sú fegurð og alt það hugsjóna-

afl, sem þar hefir komið fram. Né heldur þær siðferðilegu hugsjónir, sem mannsandinn hefir framleitt. Þegar eg hugsa um þann frumbýlingsskap mannsandans, er hver höndin hefir að sjálfsögðu verið uppi á móti annari, og ekkert hefir verið um annað hugsað en að sjá sjálfum sér borgið, þá finst mér ekkert af afreksverkum mannsandans í vísindum og listum vera jafn-dásamlegt eins og sú hugsjón hans, að mennirnir séu í raun og veru allir eitt, og að æðstu gæfunnar sé að leita í sjálfsfórn kærleikans. Það gerir ekkert til í þessu sambandi, að mönnunum hefir gengið illa að lifa eftir þessari hugsjón. Mannsandinn hefir komið auga á hana, og getur aldrei mist sjónar af henni.

Mannsandinn hefir komist vel áfram. En umtalsefni mitt er ekki, hvað mikið honum hefir orðið ágengt, hve mikill máttur hans hefir reynst. Um það fræða allir skólarnir að meira eða minna leyti. Og eg ætla ekki að þessu sinni að gera að aðalumtalsefni við ykkur neitt af því, sem skólarnir hér á landi eru að fræða menn um, svo að mér sé kunnugt. Umtalsefni mitt verður það, hvort ekki séu ástæður til að ætla, að mannsandinn muni — ekki komast miklu lengra en hann hefir enn komist, um það efast auð-

vitað enginn maður, heldur, — hvort hann muni ekki komast miklu lengra eftir öðrum brautum, en hann hefir að jafnaði verið á. Eða, svo að eg orði þetta annan veg, hvort ekki séu ástæður til að ætla, að mannsandinn sé gæddur öflum eða mætti, sem hann geti notað og sé alt annan veg farið en þeim mætti, sem oss er kunnugt um, að hingað til hafi fleytt honum áfram.

Eg held því fram, að vér höfum ástæður til þess. Eg get ekki gert grein fyrir þeim öllum á þeim þremum kveldum, sem eg hefi hugsað mér að tala um efnið. Og eg get ekki heldur gert ítarlega grein þeirra fáu, sem eg minnist á. Efnið er svo mikið, að til þess að gera því full skil, þyrfti langa bók. En með þeim bendingum, sem eg ætla að koma með, vona eg, að mér auðnist að færa ykkur heim sanninn um það, að málstaður þeirra, sem hugsa, að mannkynið eigi dýrlega framtíð í vændum, sé ekki á sandi reistur.

Fyrsta ástæðan, sem eg ætla þá að nefna, er hugsana-flutningurinn, sem nefndur hefir verið á útlendum tungum telepatia. Eg mintist áðan á „flutning hugsananna“. En í raun og veru var það rangmæli nema í óeiginlegum skilningi. Það er

ekki hugsanirnar sjálfar, sem fluttar eru að öllum jafnaði. Þegar við tölum við mann eða lesum bók, þá eru það ekki hugsanirnar sjálfar, sem fyrir okkur verða, heldur tákn, sem við höfum komið okkur saman um, að skuli merkja hugsanirnar. Ef við skiljum ekki tunguna, sem maðurinn talar, eða bókin er rituð á, þá fáum við engar hugsanir, af því að við getum ekki ráðið táknin. Og jafnframt hefir mannkynið öld eftir öld gengið að því vísu, að hugurinn gæti ekki orðið fyrir neinum áhrifum utan að, aðra leið en gegnum skilningarvitin.

En á síðasta mannsaldrinum þykjast menn vera að komast að raun um það, að mannsandinn sé gæddur þeirri gáfu, að geta látið hugsanirnar sjálfar flytjast úr einum hug í annan, án þess að fara skilningarvitaleiðina. Menn vita ekkert, hvernig þetta gerist. Menn vita að eins, að það gerist með einhverjum hætti. Menn hafa orðið þess varir, að þetta fyrirbrigði gerist sjálfkrafa. Og menn hafa líka fengið það með tilraunum.

Sálarrannsóknafélagið brezka hefir safnað miklum fjölda af sjálfkrafa fyrirbrigðum, sem það heimfærir til þessa flokks. Allmörg þeirra virðist mér vafasamt, að eigi fremur þar heima en í öðrum fyrirbrigðaflokkum. Eg verð að sætta mig við það að

koma að eins með tvö dæmi til skýringarauka. Eg vel þau sem einföldust.

Sögumaður að fyrra dæminu er Sir John Drummond Hay, sem mörg ár var sendiherra Breta í Marocco og hafði aðsetur í Tangier. Hann segir svo frá, að árið 1879 hafi sonur hans, Robert Drummond Hay, verið konsúll í Mogodor, um 300 enskar mílur fyrir sunnan Tangier, og dvalist þar með fjölskyldu sinni. Atburðurinn gerðist í febrúar. Nýlega höfðu komið góðar fréttir af syni hans, og sjálfur var Sir John við góða heilsu. Um kl. 1 eina nóttina vaknaði hann af værum svefni við það, að hann heyrði glögt rödd tengdadóttur sinnar í Mogodor. Hún sagði eins og í miklum vandræðum: „Ó, eg vildi að pabbi vissi, að Robert er veikur.“ Ljós logaði á lampa í herberginu. Hann settist upp í rúminu og hlustaði, en þar var enginn nema konan hans, sem svaf vært. Hann hlustaði nokkur augnablik, bjóst við að heyra fótatak utan herbergisins, en alt var hljótt. Þá lagðist hann út af aftur og þakkaði guði fyrir, að þetta hefði ekki verið annað en skynvilla. En jafnskjótt sem hann lokaði augunum, heyrði hann sömu röddina og sömu orðin. Hann vakti þá konu sína og sagði henni, hvað fyrir sig hefði borið, fór á fætur og inn í skrifstofu sína og

skrifaði atburðinn í dagbók sína. Morguninn eftir sagði hann dóttur sinni frá atburðinum, og kvað sér ant um að fá fréttir frá Mogodor, þó að hann tæki annars ekki mark á draumum. Fám dögum síðar kom bréf frá tengdadóttur hans um það, að sonur hans lægi hættulega veikur í taugaveiki. Í bréfinu var tekið fram, að hann hefði haft óráð nóttina, sem Sir John heyrði röddina. Sir John skrifaði þá tengdadóttur sinni, hvað fyrir sig hefði borið. Hún svaraði aftur, að sér hefði verið órótt út af því að sjá mann sinn svona veikan, og að þetta skyldi bera að höndum í ókunnu landi, fjarri öllu þeirra fólki, og að hún hefði um nóttina, hvað eftir annað, sagt nákvæmlega sömu orðin, sem Sir John hafði heyrt. — Auk Sir Johns hafa kona hans, dóttir og tengdadóttir skrifað undir frásögnina.

Hina söguna segir ensk kona, sem heitir Mrs. Caroline Barber, og prófessor Barrett við Dublin-háskólann hefir komið henni inn í vísindarit. Atvikið er einstaklega smávægilegt, en það sýnir hugsana-flutninginn fyrirtaks vel.

Konan kom heim úr búðum og settist tafarlaust að miðdegisverði með börnum sínum, þegar hún kom heim. Yngsta barnið við borðið var tveggja ára og sex vikna

gömul stúlka. Þegar þau eru ný-farin að borða, lítur barnið framan í hana; þá minnist konan atviks, sem gerst hafði um daginn, og ætlar að fara að segja: „Mamma sá svartan, stóran hund í einni búð, með hrokkið hár". Í sama bili kemur eitthvað fyrir, sem dregur athygli hennar frá þessu, svo að hún segir ekki orðin. Eitthvað tveimur mínútum síðar segir barnið: „Mamma sá stóran hund í einni búð." Móðirin verður steinhissa. „Já, eg sá hann," segir hún, „en hvernig veizt þú það?" „Með skrítilegt hár," sagði barnið, einstaklega rólega, en sinti ekkert spurningunni. „Hvernig var hann litur, Evelyn?" sagði einn bróðir barnsins. „Var hann svartur?" „Já," sagði barnið.

Konan segir, að það hafi verið blátt áfram óhugsandi, að barnið hefði getað fengið neina bendingu um hundinn með venjulegum hætti. Enginn hafði verið með henni, þegar hún sá hundinn. Öll börnin höfðu verið heima í húsinu, og húsið var úti á landi, fjórar enskar mílur frá bænum, sem búðirnar voru í. Konan hafði sezt að borðinu tafarlaust, þegar hún kom heim. Og hún mundi jafnvel ekki eftir atvikinu, fyr en á því augnabliki, er barnið leit framan í hana.

Eftir að safnað hafði verið miklum sæg af

sögum í sömu áttina eins og þessum, sem eg hefi nú sagt ykkur til skýringarauka, var eftir tilstofnun brezka Sálarrannsóknafélagsins, gerður fjöldi af tilraunum til þess að fá sams konar fyrirbrigði. Einkum er frá þeim skýrt í 11 fyrstu árgöngum af skýrslum (Proceedings) félagsins.

Eg verð auðvitað að láta mér nægja, að drepa á örfá dæmi.

Enskur vísindamaður heitir Malcolm Guthrie. Hann er talinn fyrirtaks nákvæmur í athugunum sínum. Hann gerði tilraunir með eina vinkonu sína, reyndi að senda myndir inn í huga hennar. Honum segist svo frá:

„Frummyndirnar voru flestar teiknaðar í öðru herbergi en því, er hugsana-viðtakandi sat í. Þær fáu, sem teiknaðar voru í sama herberginu, voru gerðar meðan konan var með bindi fyrir augunum, nokkuð frá henni, og þannig til hagað, að hún gat ekki með nokkuru móti séð þær, né heldur gat neinn annar séð þær, þó að tilraun hefði verið til þess gerð. Meðan á því stóð að senda hugsanina, horfði sá er sendi stöðugt og steinþegjandi á myndina; hún lá á trégrind, sem var milli þeirra; hugsana-viðtakandi sat fyrir aftan grindina, beint á móti þeim er sendi, með bindi um augun og hreyfingarlaus.

Hugsana-sendir hætti ekki að horfa á myndina, né heldur var bindið tekið frá augunum á hugsana-viðtakanda, fyr en konan sagðist undir það búin að teikna það, er komið hefði í hug hennar, og venjulega stóð á sendingunni frá hálfri mínútu til tveggja eða þriggja mínútna.“ Því næst gerir Guthrie grein þess nákvæmlega, hve ókleift konunni hefði verið að sjá myndina, áður en hún bjó til sína mynd.

Árangurinn má sjá á myndunum. [Talan 1 stendur við frummyndirnar, en 2 við þær myndir, er viðtakandi teiknaði. Auðvitað voru þær upphaflega svartar á hvítum grunni, þó að þær séu hér sýndar hvítar á dökkum grunni].

Einn af nafnkendustu háskólakennurum í Cambridge, prófessor Sidgvick, gerði, í samvinnu við nokkura aðra, tilraunir, sem eg skal að eins drepa á. Hann skiftir þeim eftir því, hvort hugsana-sendir og hugsanaviðtakandi voru í sama herberginu eða ekki. Annar hugsaði sér tiltekna hluti; hinn átti að taka við þeim hugsunum. 55 tilraunir voru gerðar við mennina, sinn í hvoru herbergi, og af þeim tókust ekki nema 2; 44 sinnum kom rangur hlutur í huga viðtakanda, en 9 sinnum kom alls ekkert. En 71 sinni var reynt með þá í sama her-

b e r g i n u, og þá tókst tilraunin 31 sinni, 27 sinnum kom rangt í hugann, og 13 sinnum ekkert. Svo að þær tilraunir, sem vel tókust, voru eins og 43 af hundraði, sem öllum kemur saman um, að sé miklu meira en svo, að þar geti verið um tilviljun að tefla, ekki sízt þegar höfð er hliðsjón á því, hvernig valinu á hlutunum var háttað.

Eg verð að minnast á stóreinkennilegar tilraunir, sem þeir gerðu í samvinnu enski sálarfræðingurinn F. W. H. Myers og frönsku læknarnir dr. Gibert og dr. Pierre Janet. Þær voru tvenns konar: aðrar fóru í þá átt að gera m a n n s f i n g u r t i l f i n n i n g a r l a u s a n með hugsana-flutningi; hinar stefndu að því að dáleiða með sama hætti. Svo að þið sjáið, að í hvorutveggja tilraununum var verkefnið tvöfalt: 1. að koma hugsunum úr einum hug í annan, án þess að nota skilningarvita-leiðina; 2. að fá hugsunina, sem fluzt hafði, til þess að hafa tilætluð áhrif á líkamann.

Um tilraunirnar til þess að gera fingurinn tilfinningarlausan skal eg geta þessa: Maðurinn, sem tilraunin var gerð við, var alt af vakandi. Hann sat við borð og lagði hendurnar fram á það. Á borðinu var reist upp spjald, svo stórt, að hann sá ekki mennina,

sem bak við spjaldið voru. Á spjaldinu voru göt, sem hann stakk fingrunum gegnum. Hinumegin við spjaldið voru mennirnir, sem tilraunirnar gerðu. Einn þeirra hugsaði sér, að nú skyldi maðurinn, sem við borðið sat, verða fyrir þessum áhrifum, sem eg sagði áðan. Stundum voru hinir að tala við hugsana-viðtakanda um alt önnur efni, meðan á tilrauninni stóð. Tilraunirnar voru 107. Þar af mistókust 40, 4 tókust að nokkuru leyti, en 63 tókust að fullu.

Þá voru tilraunirnar til að dáleiða með hugsana-flutningi engu ómerkari. Þær voru gerðar við konu, sem nefnd er frú B. Venjulega var hún dáleidd með því að halda í höndina á henni. Dávaldur þurfti ekki að horfa framan í hana, en hann varð að vilja það, að hún sofnaði — annars sofnaði hún ekki. Og við frekari tilraunir kom það í ljós, að ekki þurfti annað en viljann. Dr. Janet fór að svæfa hana, ef hann sat nálægt henni, þegar hann vildi, en ekki nema hann ásetti sér það. Dr. Gibert reyndi því næst að svæfa hana með viljanum einum úr næsta herbergi. Konan vissi ekkert af honum, en sofnaði. Dr. Janet var hjá henni, þegar þessi tilraun var gerð. Nú mætti ætla, að hún hefði sofnað af návist hans, af því að hann hafði verið vanur að svæfa

hana. En sönnun fékst fyrir því, að svo var ekki. Þegar hún var sofnuð, anzaði hún aldrei neinum öðrum en þeim, sem hafði svæft hana, heyrði ekki til neins annars. Nú anzaði hún engum öðrum en dr. Gibert.

Þar á eftir reyndi dr. Gibert að svæfa hana í hálfrar mílu fjarlægð, en tekst það ekki. Dr. Janet finnur hana vakandi og svæfir hana. Þegar konan er sofnuð, segir hún: „Eg vissi mjög vel, að dr. Gibert var að reyna að svæfa mig, en þegar eg fann það, náði eg mér í kalt vatn og stakk höndunum niður í það. Eg vil ekki láta svæfa mig svona; mér er skapraun að því, og eg verð þá svo aulaleg.“ Það sannaðist að hún hafði stungið höndunum niður í vatn á þeirri stund, er dr. Gibert hafði verið að reyna að svæfa hana.

Sex dögum síðar gerir dr. Gibert sömu tilraunina; og þá tekst hún. Dr. Janet er hjá konunni. Þegar hún er sofnuð, segir hún: „Hvernig stendur á því, að dr. Gibert er að svæfa mig heiman að frá sér? Eg hafði ekki tíma til að stinga höndunum niður í vatnsskálina.“ Auðséð var, að dr. Gibert hafði í raun og vera svæft hana, því að dr. Janet gat ekki vakið hana. Til þess varð að senda eftir dr. Gibert.

Tuttugu og fimm tilraunir voru gerðar

með konuna, svipaðar þessum, sem eg hefi minst á, en sumar samt með nokkuð öðru móti. Þær stefndu allar að því að fá hugsana-flutninginn sannaðan, en önnur fyrirbrigði ofin inn í hann. Af þessum 25 tilraunum mistókust 6, en 19 tókust að fullu.

Dæmin, sem eg hefi fært til, eru fá· Það yrði alt of langt mál að segja frá þeim mörgum. En eg vona, að af þeim, sem eg hefi vikið að, verði mönnum ljóst, við hvað er átt, þegar talað er um hugsana-flutning eða telepatíu. Og að þið hafið jafnframt fengið ofurlitlar bendingar um það, hvað menn hafa fyrir sig að bera, þegar þessari hlið á mætti mannsandans er haldið fram, og hvernig menn hafa farið að því að komast um raun um hana. Hugsana-flutningnum er haldið fram af mjög íhaldssömum vísindamönnum, sem ekki staðhæfa neitt, fyrr en eftir vandlegar rannsóknir.

Og þegar við nú íhugum þau dæmi, sem eg hefi nú minst á, — a ð Sir John Drummond Hay getur orðið fyrir áhrifum af því, sem samstundis gerist í 300 mílna fjarlægð; a ð barnið getur fengið það inn í hugann, sem móðir þess ætlaði að segja því, en sagði því ekki; a ð unt er með tilrunum að koma myndum úr einum hug í annan,

án þess að skilningarvitin séu neitt notuð; að unt er með hugsuninni einni að gera líkamshluta annars manns tilfinningarlausan; og að unt er að dáleiða menn með viljanum einum, og það í fjarlægð — þá fara ekki að verða neitt ótrúlegar frásagnirnar, sem getið hefir verið um í blöðum í Reykjavík, að það komi fyrir, að lifandi menn láti aðra lifandi menn skrifa ósjálfrátt, og um atburði, sem riturunum er ókunnugt um.

Við hverfum nú frá hugsana-flutningnum að sinni, og lítum á aðra hlið á mætti mannsandans. Síðar komum við að því, hverjar ályktanir fróðum mönnum þykir skynsamlegt að draga af þessum fyrirbrigðum og fleirum, sem eg mun minnast á. En svo langt get eg ekki komist í kveld.

Við komum þá næst að þeim hæfileika, sem nefndur er fjarsýni. Hæfileikinn er sá að geta séð það, sem gerist eða er í mikilli eða lítilli fjarlægð, án þess að líkamleg sjónarfæri séu til þess notuð. Í hugsanaflutningnum skynjar maður, hvað gerist í öðrum mannshuga. Í fjarsýninni skynjar maður líkamlega hluti, án þess að beita skilningarvitunum. Og sú skynjun virðist vera samstæð sjóninni, því að mönnum finst þeir sjá það, sem þeir skynja.

Allar þjóðir eiga kynstrin öll af sögum

um fjarsýnina, ekki sízt við Íslendingar. Hér á landi virðist þessi hæfileiki mjög oft hafa gert vart við sig. En hann hefir verið bældur niður af fáfræði fólksins. Hæfileikanum er tekið með vonzku og háði, þegar eitthvað ber á honum. Eða sögum um hann er skipað á bekk í þjóðsögum, innan um nátttröll og martröll og kölska og aðrar óvættir og býsnir. Eg bendi ykkur t. d. á tvær smásögur í þjóðsögum Odds Björnssonar. Báðar sögurnar hafa núlifandi menn sagt um sjálfa sig, og önnur sagan er staðfest af tveimur vitnum.

## Fjarsýni.

Þegar eg [Helgi Jónsson á Felli á Langanesströnd] var rétt orðinn fullorðinn, var eg vinnumaður á Ljósalandi í Vopnafirði, og annar maður til, sem Stefán hét; hann fór síðar til Ameríku, Við vorum góðir vinir og nákunnugir. Um veturinn fór eg eitt sinn inn í Selárdal, og gisti á Hróaldsstöðum á heimleiðinni. Þar átti Stefán vinur minn unnustu. Um morguninn kallaði stúlka þessi mig á eintal, og gengum við dálítið afsíðis frá bænum. Var það erindið, að hún bað mig að skila fyrir sig uppsögn til Stefáns. Eg neitaði að færa honum svo illar fréttir, og skildum við svo að því. Þegar eg kom heim, sátu allir inni. og tóku glaðlega kveðju minni, nema Stefán; hann var áhyggjufullur mjög og dapur. Lítilli stundu síðar kallaði hann á mig fram í skála, fór ofan í kistu sína og fór að gefa mér þar brennivín með sér. Spurði hann mig þá að því, hvað eg og stúlkan sín hefðum verið að tala saman fyrir

utan bæinn á Hróaldsstöðum í morgun; eg bar á móti, að við hefðum nokkuð talað þar saman, en hann bað mig að segja sér ekkert af því, því að hann hefði séð varirnar á okkur bærast, en ekkert vissi hann, hvað við hefðum sagt. Komst eg svo ekki undan að segja honum hið sanna.

## Kaffiskjóðan.

Einu sinni, þegar Ari Jónsson frá Strjúgsá, sá er samdi leikinn Sigríði Eyjafjarðarsól, bjó í Víðirgerði í Eyjafirði, fór hann í kaupstað. Þegar hann kom heim, varð hann þess var, að hann hafði týnt skjóðu, með tveimur pundum af hvoru, kaffi og sykri. Þetta þótti mikið mein heima, því kaffilaust var og Ari fátækur í þá daga, þótt hann auðgaðist síðar. Tíu ára gömul stúlka var þar á bænum, Guðný að nafni, Sveinsdóttir. Hún heyrði talað um skjóðuna og hugsaði mikið um, að gaman væri að finna hana fyrir Rósu húsfreyju.

Nú var hálfur mánuður liðinn frá þessum atburði og hætt að minnast á hann. Þá var það eitt kvöld, er Guðný var háttuð, að henni fanst hún sjá skjóðuna liggja upp við þúfu á einum stað, sem hún þekti, skamt þar frá. Hún gat varla sofið um nóttina, og um morguninn bað hún móður sína, Signýju, að lofa sér að sækja kaffiskjóðuna; hún vissi hvar hún væri. Móðir hennar bannaði henni heimskurugl þetta, og við það varð að sitja. Næsta kvöld fór á sömu leið, Guðný sá skjóðuna svo greinilega, og þriðja kvöldið eins. Daginn eftir gat móðir hennar ekki aftrað henni, enda sagði húsfreyja, að bezt væri að lofa henni að fara, og sagðist skyldi gefa henni sætt kaffi og lummur, kæmi hún með skjóðuna.

Nú hljóp Guðný eins og hún vissi að leiðir lágu, þar til hún kom í Páls-lág, sem kölluð er, þar út og niður

undir þjóðveginum. Hún hljóp ofan lágina, þangað til henni fanst sem hvíslað væri að sér: „Þú ert komin of langt.“ Þá sneri hún við uppeftir; og er hún hefir gengið lítinn spöl, verður fyrir henni skjóðan og hún þekkir alt, nákvæmlega eins og fyrir hana bar.

Það má nærri geta að hún var glöð, þegar hún kom heim með fundinn, og fólkið varð heldur en ekki hissa.

Guðný Sveinsdóttir er enn á lífi og á heima á Hjalteyri. Hún hefir sagt mér söguna, og fullyrðir, að hún hafi verið glaðvakandi, þegar hún sá skjóðuna. Einnið hafa þau hjón, Ari og Rósa, sagt mér söguna og ber þeim saman við frásögn Guðnýjar.

Þið sjáið, að þetta á að engu skylt við þjóðsögur. Þjóðin og þjóðtrúin hefir hér enga hönd á lagt. Þetta fer engra á milli, er komið frá fyrstu hendi. Við getum rengt sögumenn, ef okkur þykir ástæða til, alveg eins og við getum rengt alt, sem ekki hafa verið færðar fullar sönnur að, en höfum að hinu leytinu mikla ástæðu til að ætla, að sögurnar séu sannar, af því sem við vitum um málið úr öðrum áttum. Og í sama heftinu, sem flytur okkur þessar sögur, sem eiga heima í vísindaritum, er sagt frá nátttröllum, sem sækja sér mann til að éta, kölska, sem gerist vinnumaður til þess að ná í bóndadóttur, en sekkur niður í jörðina, þegar hann er kúgaður til að lesa píningarsögu Krists, og Húsavíkur-Jóni, sem hvorki er hleypt inn í himnaríki né helvíti, fær sér ofurlítinn eld-

köggul hjá fjandanum og stofnar nokkurs konar hjáleigu í holu fyrir norðan og neðan helvíti. Þið sjáið, hve villandi þetta er fyrir almenning, og hve ótilhlýðilega enn er farið hér á landi með vitneskju um stórmerkan hæfileika mannsandans, þegar sú vitneskja ber að dyrum hjá okkur.

Nú eru vísindamenn í öðrum löndum, þeir er láta sér ant um rannsókn sálarlífsins, farnir að gefa þessum hæfileika mikinn gaum. Við tilraunir hefir hann einkum komið fram í dáleiðslunum. Í því ástandi mannsins virðist algengast, að hann geti notið sín, þó að hann komi líka þrásinnis fyrir í vöku og í almennum svefni. Þær fáu sögur, sem eg ætla að segja ykkur af honum, tek eg allar úr strangvísindalegum ritum.

Maður hét de Morgan. Hann var stórgáfaður maður, merkur rithöfundur, prófessor við háskólann í London, og lagði einkum stund á stærðfræði og hugsunarfræði. Kona hans var líka ágætlega gáfuð, fékst við vísindastörf og ritaði bækur. Meðal annars fékst sú kona við dáleiðingar, og þau hjón bæði, til lækninga. Og eitt kvöld sem oftar er frú de Morgan að fást við flogaveika stúlku með þeim hætti, dóttur fátækrar daglaunakonu, sem hún að lokum læknaði að fullu.

Þetta kvöld var prófessorinn boðinn til

miðdegisverðar í hús eitt í London, um mílu vegar frá heimili hans. Kona hans hafði þá aldrei inn í það hús komið. Hann fór þaðan kl. 10½, og kom heim til sín einum stundarfjórðungi síðar. Þegar hann kemur inn, segir konan hans: „Við höfum verið að elta þig.“ Hún kveðst hafa sagt stúlkunni dáleiddri að finna hann í því húsi, þar sem hún átti von á honum. Það hafi gerst fáum mínútum eftir 10. Móðir stúlkunnar var viðstödd, og þegar hún heyrir nafnið á strætinu, segir hún, að dóttir sín geti ekki ratað þangað; hún hafi aldrei komist svo langt þá leiðina.

En samstundis segist stúlkan vera komin þangað. „Berðu að dyrum“, sagði frúin. „Eg get það ekki“, sagði stúlkan; „við verðum að komast inn um hliðið“. (Þetta var rétt, húsið stóð inni í garði, sem er fátítt í London; frúin vissi ekkert um það). Henni fanst þær komast inn um hliðið, og hún var látin berja að dyrum. Hún sagðist heyra mannamál uppi á lofti og henni var sagt, að fara þangað upp. Hún hefir orð á því, að þetta sé skrítið hús; þarna séu þrennar dyr og lýsir þeim. Alt var þetta rétt. Þá er henni sagt að fara inn í herbergið, þar sem hún heyri mannamálið, og þá segir hún: „Nú sé eg Mr. de Morgan, en hann er í fallegum

frakka, ekki í síða frakkanum, sem hann er í hér heima; og hann er að tala við gamlan mann, og þarna eru dömur. Þetta var rétt að öðru leyti en því, að hinn maðurinn var ekki gamall. „Og nú“, segir hún, „kemur dama til þeirra, og fer að tala við Mr. de Morgan og gamla manninn, og Mr. de Morgan bendir á yður, og gamli maðurinn horfir á mig“. „Nú vildi svo til,“ segir prófessor de Morgan í skýrslu sinni um þetta, „að á þessari stund var eg að tala við húsbóndann um dáleiðslur. Eg mintist á það, sem konan mín var þá að gera, eða sagðist vera að gera, við stúlkubarnið, og hann sagði: „ó, konan mín verður að heyra þetta“. Hann kallaði þá á hana, og hún kom til okkar, eins og stúlkubarnið sagði“.

Stúlkan hélt þá áfram að lýsa herberginu, sagði, að í því væru tvö fortepíanó. Eitt píanó var þar, og skrautlegt skápborð, sem var svo gert, að eðlilegt var, að barninu fyndist það líkt píanó. Hún sagði, að þar væru tvenns konar gluggatjöld, hvít og rauð, og skrítilega fest upp (sem hún lýsti nákvæmlega rétt), og að vín, vatn og kex væri á borðinu. „Nú vissi konan mín,“ segir prófessor de Morgan, „að við höfðum átt að borða miðdegisverð kl. 6½, og gekk að því vísu, að ekkert gæti verið annað en kaffi

á borðinu." „Þú hlýtur að ætla að segja k a f f i," sagði hún. Stúlkan sat við sinn keip: „Vín, vatn og kex," sagði hún. Konan mín var enn sannfærð um, að kaffi hlyti það að vera, reyndi að flækja hana með öllu móti og koma henni til að segja k a f f i. En telpan sagði altaf: ‚Vín, vatn og kex.' Og það var líka bókstaflega rétt." Frúin hefir auðsjáanlega misskilið hana. Það sem Englendingar alment skilja við ‚vín og kex' (glass of wine and a biscuit), er, eins og prófessorinn tekur líka fram í skýrslu sinni, heil máltíð, vín, smurt brauð, kökur o. s. frv. Frúin hefir haldið„ að hún ætti við þetta, og ekki getað hugsað sér þ a ð á borðinu, þar sem fólkið var nýbúið að borða miðdegisverð. Þetta var ekki heldur á borðinu, heldur nákvæmlega það, sem telpan sagði: vín, vatn og kex.

„Þetta gerðist kl. 10,20, og mér var sagt það kl. 10¾," segir prófessorinn. „Þegar eg heyrði, frá hverju átti að fara að segja mér, sagði eg ekki annað en þetta: „Segið þið mér það alt, og eg ætla ekki að segja nokkurt orð.' Og eg get fullyrt það, að meðan á frásögninni stóð, varaðist eg að láta n o k k u r a s a m s t ö f u fara út af vörum mínum. Til dæmis er það, að þegar farið var að segja mér frá víninu og vatninu og kex-

inu, þá var konan mín alveg sannfærð um, að þetta hefði hlotið að vera kaffi, sagði mér, hvernig telpan hefði setið við sinn keip, og fjölyrti um þetta sem skekkju, og sagði mér sams konar dæmi þess, að fjarsýnir menn hefðu séð alt rétt nema eithvað eitt. Eg hlustaði á það alt, án þess að taka neitt fram í. Eg gæti unnið eið að því, að þetta gerðist, eins og eg hefi lýst því, 20 mínútur eftir 10, og að mér var sagt það, eins og skýrt er frá hér að framan, kl. 10¾. Eg athugaði gluggatjöldin daginn eftir, því að eg hafði ekki tekið eftir þeim."

Sagan, sem eg ætla næst að segja ykkur, er frá manni, sem heitir A. W. Dobbie. Hann fékst við dáleiðslu-tilraunir, bókaði nákvæmlega alt, sem gerðist við þær tilraunir og skýrði Sálarrannsóknafélaginu brezka frá því. Stjórn þess mat hann einkar mikils.

Dobbie var að fást við að dáleiða stúlku eina. Honum gekk ágætlega með hana, og læknaði hana af tveimur kvillum, sem hún hafði. Hann gat látið alla tilfinning hverfa úr limum hennar og pikkaði hana djúpt með nálum, án þess að hún fyndi nokkurn sársauka af því. Einu sinni kom honum til hugar að reyna, hvort hún væri ekki fjarsýn. „Og það var mér mikill fögnuður, að þessi dá-

samlegi hæfileiki kom fram hjá henni,“ segir Mr. Dobbie.

Nú skal eg lesa ykkur skýrslu hans um aðra tilraunina, sem hann gerði með hana í þessa átt, 12. apríl 1884. Fjórir menn voru viðstaddir. Einn þeirra skrifaði svörin jafnóðum.

„Faðir hennar var um þetta leyti 50 mílur burtu, en við vissum ekki nákvæmlega hvar, svo að eg lagði fyrir hana þessa spurningu: „Getið þér fundið föður yðar nú?“ Fyrst kvaðst hún ekki geta séð hann, en eftir eina eða tvær mínútur sagði hún: „Ó, já, nú get eg séð hann, Mr. Dobbie. — „Hvar er hann?“ — „Hann situr við stórt borð í stóru berbergi, og margt fólk er að fara inn og út.“ — „Hvað er hann að gera?“ — „Skrifa bréf, og fyrir framan hann er bók.“ — „Hverjum er hann að skrifa?“ — „Blaðinu.“ Nú þagnaði hún og sagði hlæjandi: „Hann er áreiðanlega að skrifa A. B.“ [Þeir stafir standa í prentuðu skýrslunni, sem nafnið á blaðinu.] „Þér voruð að tala um bók. Getið þér sagt mér, hvaða bók það er?“ — „Hún er með gyltum stöfum.“ — „Getið þér lesið þá, eða sagt mér nafnið á höfundinum?“ Hún las eða bar fram seinlega: „W. L. W.“ [nefndi að fullu ættarnafn höfund-

arins]. Hún svaraði því næst nokkurum spurningum um húsgögn í herberginu, og þá sagði eg við hana: „Er yður það nokkur fyrirhöfn eða örðugleiki að ferðast svona?“ — „Já, dálítið; eg verð að hugsa.“

„Eg stóð nú fyrir aftan hana, hélt á hálfri krónu, enskri, í hendinni, og spurði hana, hvort hún gæti sagt mér, á hverju eg héldi. „Það er shilling,“ svaraði hún. Svo virðist, sem henni væri auðveldara að sjá það, sem gerðist í margra mílna fjarlægð en það, sem gerðist í herberginu.

„Faðir hennar kom heim nálægt viku síðar, og varð steinhissa, þegar kona hans og fjölskylda sagði honum, hvað gerst hefði þetta tiltekna kveld. Áður hafði hann enga trú haft á fjarsýni; nú kannaðist hann við það hreinskilnislega, að fjarsýna stúlkan mín hefði farið nákvæmlega rétt með alt. Hann sagði okkur líka, að bókin, sem hún hafði minst á, væri ný, og að hann hefði keypt hana, eftir að hann fór að heiman, svo að dóttur hans hefði ekki með nokkuru móti verið unt að gizka á það, að sú bók væri fyrir framan hann. Eg get bætt því við, að bréfið kom á tilætluðum tíma í blaðinu; og eg hefi séð og handfjallað bókina.“

Svipaðar sögur hefir Sálarrannsóknafé-

lagið brezka fengið frá margháttuðum merkismönnum, sem gert hafa tilraunir í þessa átt, biskupum, læknum o. s. frv. Eg hefi ekki tíma til að skýra frá þeim tilraunum frekara. En eg ætla að segja ykkur eina sögu enn úr skýrslum félagsins. Fyrirbrigðin eru reyndar þar svo margbrotin, að nokkur vafi getur á því leikið, hvar henni eigi að skipa á bekk. En efni hennar er svo stórmerkilegt, og sannanirnar að henni eru svo ramlegar, að eg get ekki fengið af mér að hlaupa yfir hana. Hvernig sem á hana er litið, virðist mér hún sýna ómótmælanlega eftirtektarverðar hliðar á mætti mannsandans. Og þegar eg skipa henni í fjarsýna-flokkinn, fer eg að dæmi engilsaxneskra vísindamanna, sem um hana hafa ritað. Sagan hefir verið nákvæmlega rannsökuð og staðfest af eitthvað 25 vottum. Hún er svona:

Í Massachusettsríkinu í Bandaríkjunum er bær, sem heitir Natick, og er á stærð við Reykjavík. Þar átti heima kona, sem mist hafði mann sinn og gifst aftur. Hún átti börn eftir fyrri manninn, þar á meðal 2 drengi. Einn föstudag var móðurinnar von heim með járnbrautarlest úr einhverju ferðalagi, og þessir drengir lögðu af stað til járnbrautarstöðvarinnar til þess að taka á móti henni. Eftir það sá enginn þá

lifandi. Þegar móðir þeirra kom heim, bjóst hún við, að þeir mundu koma bráðlega. En þeir komu ekki. Þetta var á föstudegi. Stjúpi þeirra var ekki heima. Daginn eftir gengu vinir móðurinnar í að leita þeirra. Þar á meðal var slætt vatn, sem er vestan við bæinn, þó að engum þætti líklegt, að þeir hefðu þangað farið. En drengirnir fundust ekki. Þá var að lokum tekið það ráð, þó að enginn virðist hafa haft trú á, að það væri til nokkurs, að senda til Boston, finna þar einhverja skygna manneskju og reyna, hvort hún kynni að geta séð, hvað af drengjunum væri orðið. Boston er stærsta borgin í Massachusetts, með eitthvað ½ miljón íbúa. Vinkona móðurinnar tók að sér ferðina.

Hún kom til Boston um kl. 12. Henni hafði verið sagt að spyrjast fyrir í skrifstofu blaðs, sem hét „Banner of Light“ og þar spurði hún, hvort menn gætu vísað sér á nokkura áreiðanlega skygna manneskju. Henni var vísað á konu, en hún komst ekki að hjá henni. Maðurinn, sem kom til dyra, vísaði henni á aðra skygna konu. Þar gat hún ekki heldur komist að, en henni var vísað til þriðju konunnar, sem hét Mrs. York. Þegar hún kom þangað, var kl. orðin um 3. Gestur var að fara, þegar hún hringdi dyrabjöllunni. Mrs. York lauk sjálf upp hurð-

inni. Aðkomukonan bað um að mega fá að tala við hana. Mrs. York sagðist ekki geta það fyr en daginn eftir. Aðkomukonan sagði, að það yrði of seint. Mrs. York vísaði henni þá inn í stofu; sjálf sagðist hún ætla að ganga út dálitla stund, og lofaði að tala við hana, þegar hún kæmi aftur.

„Þessi voru einu orðin, sem hún mælti við mig,“ segir aðkomukonan í skýrslu sinni, sem prentuð er í ritum brezka Sálarrannsóknafélagsins, „og eg er þess fullvís, að hún vissi alls ekkert um mig, hvaðan eg kom, né í hverjum erindum. Eg sagði ekkert við hana umfram það, sem eg hefi þegar sagt, og eg hafði aldrei heyrt getið um Mrs. York áður, og hún þekti engan í Natick. Hún var að heiman um 15 mínútur, kom þá aftur inn í stofuna, gekk tafarlaust að arninum og sneri bakinu að mér. Eg sagði ekki nokkurt orð, en hún mælti: ‚Þeir fóru austur áður en þeir fóru vestur.‘ (Járnbrautarstöðin er í austur frá húsinu, sem móðir þeirra átti heima í, en vatnið í vestur.) ‚Þeir sáu eldinn,‘ sagði hún því næst, ‚og þá fóru þeir til vatnisins.‘ (Síðar sannaðist það, að þennan dag, síðdegis á föstudaginn, hafði kjarr verið brent nálægt vatninu; bálið hefir dregið drengina þangað vestur eftir.) Hún fór þá að lýsa nausti og væri gat á hliðinni á því, og

sagði: ‚Þeir fóru inn um gatið á hliðinni.‘ Hún lýsti bátnum, sagði, að hann væri mjór og svartmálaður, og sagði: ‚Ó, hamingjan hjálpi mér, það var aldrei til þess ætlast, að í bátinn færu fleiri en einn í einu.‘ Hún sagði, að þeir hefðu komið honum dálítinn spöl, yngri bróðirinn hefði dottið útbyrðis fyr, og eldri bróðirinn hefði reynt að bjarga honum. ‚Það er sandbleyta þar sem þeir eru, og þeir komast ekki upp að yfirborðinu,‘ sagði hún líka. ‚Þeir eru ekki í aðalvatninu heldur í grynningum, sem samtengja aðalvatnið, og þeir eru nálægt bakkanum, og ef ekki væri um þetta leyti árs (í marz), þá gætuð þið nærri því vaðið út til þeirra og dregið þá upp.‘ Hún talaði um áhuga borgaranna á að reyna að finna þá, og sagði: ‚Þeir finna þá ekki; þeir leita of langt frá bakkanum; þeir eru vinstra megin við naustið, fáein fet frá landi‘. Þá sagði eg: ‚Séu þeir í vatninu, þá finnast þeir, áður en eg kemst heim.‘ ‚Nei‘, sagði hún, ‚þeir finnast ekki, áður en þér komist það; þér verðið að fara og segja þeim, hvar þeir eru, og þá finnast þeir 5 mínútum eftir að þér komið að vatninu.‘ Hún lét mig lofa sér því að fara með þeim til vatnsins. ‚Drengirnir eru mjög nálægt hvor öðrum,‘

sagði hún; ‚þegar annar er fundinn, munuð þið finna hinn mjög skyndilega‘.“

Konan kom aftur á járnbrautarstöðina í Natick kl. 5. Þar var mannfjöldi saman kominn. Konan var spurð, hvers hún hefði orðið vísari. „Hafið þið ekki fundið þá enn?“ spurði konan. Þeir kváðu nei við. Hún sagði þeim, hvað Mrs. York hefði sagt, og fór með þeim vestur að vatninu. Menn litu inn í naustið, og komust að raun um, að langur og mjór bátur, allur svartmálaður, sem þar átti að vera, var horfinn. Báturinn var ekki ætlaður nema einum manni, eins og Mrs. York hafði sagt, og ekki talið hættulaust tveim mönnum að vera í honum. Konan segist ekkert hafa vitað um þennan bát, þegar hún var stödd hjá Mrs. York, og aldrei séð bát líkan honum, né heldur hafi hún haft neina hugmynd um gatið á naustinu, svo að vitneskjuna um þetta hafi Mrs. York ekki getað fengið úr sínum huga. Báturinn fanst fáum dögum síðar í vík nokkuð frá naustinu. —

Þegar nú konan komst að raun um, að Mrs. York hafði sagt rétt frá um bátinn og gatið á naustinu, þá fór hún að halda, að hitt gæti reynst rétt líka; en eftir því sem hún komst næst, trúði enginn annar í hópnum

fregnum hennar. Hún stóð á bakkanum og sagði fyrir, en tveir bátar létu frá landi, og mennirnir voru með verkfærum til að leita í vatninu. Eftir 3—4 áratog kallar einn maðurinn, segist hafa náð í eitthvað. Mennirnir hætta að róa, og lík eldra drengsins var dregið upp úr vatninu. Og rétt á eftir náðist hitt líkið. Frá því er komið var að vatninu og þangað til líkin fundust, höfðu ekki liðið fullar 10 mínútur. Sandbleyta var þar sem þau fundust, eins og Mrs. York hafði sagt.

Mrs. York hafði raðað bókum á borðið, til þess að sýna afstöðuna frá naustinu „og sú lýsing var svo nákvæm,“ segir konan, „að hver maður hefði getað gengið rakleiðis að líkunum.

Eins og eg benti ykkur á áðan, er hér um fleira að tefla en fjarsýni eina. Mrs. York veit, í hverjum erindum konan er komin, án þess að fá vitneskju um það á neinn venjulegan hátt. Og hún sér ekki að eins það, sem samstundis er að sjá. Hún sér líka liðna viðburði.

Nú ætla eg að ljúka máli mínu með því að segja ykkur lauslega frá tveimur tilraunum, sem gerðar voru hér í Reykjavík 29. og 30. okt. 1906. Tilraunirnar voru gerðar við Guðmund Kamban skáld, sem þá var skólapiltur, og tilraunirnar gerði síra Har. Níels-

son heima hjá sér. Við fyrri tilraunina var tveimur klútum bundið fast fyrir augun á Kamban, hátt upp á enni og niður fyrir nefið, svo fast reyrt, að far sást eftir. Þá valdi síra H. bók á máli, sem Kamban þekti engan staf í, hebresku, tók hana ofan úr hillu, þegar búið var að binda fyrir augun. Til þess að tryggja sig gegn hugsana-flutningi var valin bók, sem síra Har. hafði ekki lesið. Þá var hlaðið upp bunka af 14 bókum. Bókin, sem valin hafði verið, var fyrir neðan miðju, 10. bókin að ofan. Því næst þreifaði K. um bunkann, með hægri hendinni, án þess að snúa andlitinu að honum, finnur þá bókina, sem valin hafði verið, og skrifar: „Bls. 133.“ Þreifar aftur. Skrifar: „2. lína, eg sé ekki betur en við hana standi talan 13. Fyrsta orðið eru 3 stafir.“ Þreifar enn. Þá skrifar hann hebreskt orð með þrem stöfum, og bætir við á blaðið: „Þeir eru eitthvað vitlaust skrifaðir upp, en það gerir ekkert.“

Þegar nú bókinni var flett upp, reyndist það rétt, að framan við 2. línu á bls. 133 stendur talan 13, og fyrsta orðið þar er með þrem stöfum, en ekki það orð, sem skrifað hafði verið. En við töluna 18, nokkrum línum neðar á blaðsíðunni, stendur orðið, sem skrifað hafði verið, eins og vilst hafi ver-

ið á tölunum 13 og 18, þegar fram í tilraunina sótti. Hebreska orðið var rétt skrifað að öðru leyti en því, að örlítið merki neðan við orðið var skakt skrifað.

Þessi tilraun virtist ganga mjög nærri G. K. Þá var lögð hebresk bók á borðið — bindið ekki tekið frá augunum — drepið fingri einhverstaðar á blaðsíðuna af handahófi, og beðið um að skrifað sé orðið næsta fyrir neðan fingurinn. Orðið var skrifað tafarlaust. 10 aðrar tilraunir voru gerðar á sama hátt með bækur á ýmsum tungumálum, og þær tókust allar. Síra Haraldur leit aldrei á bókina, til þess að um hugsana-flutning gæti ekki verið að tefla, en horfði stöðugt á G. K. til þess að gæta þess, að ekkert væri við bindinu hreyft.

Við síðari tilraunina var ekki í fyrstu bundið fyrir augun, en beðið um, að skrifað væri orð úr tiltekinni lokaðri bók inni í lokuðum skáp, með tréhurð. Þá er skrifað: „Bls. 432. Fyrsta línan byrjar á stórum staf. Stafirnir í fyrsta orðinu eru 5. Fyrirsagnarlína fyrir ofan lesmálið. Fyrsta orðið er Oruro, sýnist mér.“ Nú var skápurinn opnaður og bókin tekin út. Þykt lag af ryki var ofan á henni, enda hafði bókin aldrei verið tekið fram, síðan er flutt hafði verið í húsið fyrir 1½ ári. Síra Haraldur hélt, að lestur-

inn hlyti að hafa mistekist, því að bókin var ensk, og hann kannaðist ekki við orðið. En það reyndist rétt. Oruro er hérað í Bolivíu í Suður-Ameríku. Og alt annað, sem skrifað hafði verið, var rétt.

Því næst var bundið fyrir augun á G. K. og beðið um, að skrifað væri orð, sem stutt var ofan á með fingrinum, svo að lesa varð ekki að eins gegnum bindið — frá því var eins gengið og fyrra daginn — heldur og gegnum fingurinn. Bækurnar voru á ýmsum tungumálum, og í tveim þeirra, hebresku og grísku, þekti G. K. ekki stafina. Tilraunin var gerð 10 sinnum í sífellu og tókst tafarlaust hvert skiftið.

Eg get ekki skýrt nákvæmara frá þessum tilraunum í þetta sinn. Það mundi ekki gera annað en trufla skilninginn. Einhvern tíma, vona eg, að skýrt verði í útlendum ritum frá þessum tilraunum með allri þeirri nákvæmni, sem krafist er af vísindamönnum. Það er mjög auðvelt, af því að alt var skrifað samstundis, og öll skjöl áhrærandi þessar tilraunir eru vandlega geymd. Frá þessum tilraunum hefði í raun og veru átt að skýra fyrir löngu, því að þær eru í sinni röð með því allra-merkilegasta, sem kunnugt er um, að gerst hafi í nokkuru landi.

Þó að eg ætli mér ekkert að tala um spíritismann, hvorki í kveld né í þeim fyrirlestrum, sem eg ætlast til að verði áframhald af þessum, þá þykir mér ekki sæmilegt, sannleikans vegna, að leyna því, að síðustu fyrirbrigðin, sem eg hefi minst á, sýnin í Boston og lestur G. K. í lokuðum bókum o. s. frv., telja sig stafa frá framliðnum mönnum.

Þegar Mrs. York var að segja konunni frá Natick, hvar lík drengjanna væru og hvernig andlát þeirra hefði atvikast, spurði konan hana, hvernig hún vissi þetta. Mrs. York svaraði: „Faðir drengjanna sagði mér það.“ Meðal annars þess vegna tók eg það fram áðan, að vafi gæti á því leikið, hvar ætti að skipa þeirri sögu á bekk. En eg gat þess jafnframt, að vísindamenn skipuðu henni í fjarsýna-flokkinn. Þeir gera það samkvæmt þeirri einkar skynsamlegu varúðarreglu, að eigna ekki sambandi við framliðna menn, í vísindalegum ályktunum, neitt það, er eigna megi, eftir þeirri þekkingu, sem menn hafa öðlast, hæfileikum, sem maðurinn er gæddur hér í lífi. Fjarsýnin er sannað mál — að hún er til, án þess að minsta ástæða sé til þess að ætla, að framliðnir menn þurfi að vera neitt við hana riðnir. Hitt er ósannað mál, að Mrs. York hafi verið í nokkuru sambandi við föður

drengjanna. Þess vegna skipa vísindamennirnir sögunni í fjarsýna-flokkinn. En annars ræður að sjálfsögðu hver sinni skoðun um það, hvernig hann heldur að standi á þeirri merkilegu vitneskju, sem Mrs. York hafði um andlát drengjanna.

Tilrauninni með G. K. er að því leyti eins farið og sögunni um Mrs. York, að það vitsmunaafl, sem skrifaði orðin úr bókunum með hendi G. K., tjáði sig vera framliðinn mann. En eg er ekki í neinum vafa um það, að eftir þeim reglum, sem nú tíðkast meðal vísindamanna í þessum efnum, mundu þeir skipa þessu fyrirbrigði í fjarsýna-flokkinn, eins og eg hefi gert — hinir íhaldsamari þeirra að minsta kosti. Þeir mundu segja, að fyrst það sé sannað, að menn geti, undir einhverjum óþektum skilyrðum, séð gegnum holt og hæðir, þá sé ekki óskynsamlegt að álykta, að þeir geti líka, þegar svo ber undir, lesið í bókum, sem eru í sama herberginu og þeir, án þess að nota skilningarvitin. En auðvitað ræður hver sinni skoðun um það, hvort íhaldstilhneigingin sé þar rík um skör fram eða ekki. Skynsamlega og rökstudda skoðun um það geta menn ekki gert sér með öðru móti en því að fá nákvæma þekking á þeim rannsóknum, sem fram hafa farið, ekki að eins á hverju

einstöku fyrirbrigði, heldur og sálarrannsóknum nútímans í heild sinni.

Í næsta erindi langar mig til að tala um enn eina dularfulla hlið á mætti mannsandans — þá hliðina, sem ef til vill er auðveldast að sjá, hve miklu máli skiftir. Í 3. og síðasta erindinu mun eg meðal annars víkja ofurlítið að því, hverjar ályktanir fræðimenn veraldarinnar eru að draga af þessari vitneskju.

En áður en eg kveð ykkur í kveld, get eg ekki stilt mig um að taka það fram, að mér finst það beinlínis rangt af fræðimönnum þessa lands, að þeir skuli hafa haldið leyndri fyrir alþýðu manna þeirri vitneskju, sem eg er að tala um þessi kveldin — jafnfróðleiksfús og alþýða manna áreiðanlega er, og jafn-mikilsvert efni og hér er á ferðinni.

## II.

Nú langar mig til þess að minnast á þá hlið á mætti mannsandans, sem kemur fram í l æ k n i n g u m með alt öðrum hætti en þeim, sem venjulegur er. En þar verð eg að slá þann varnagla, ekki síður en um kveldið, að ekki getur verið um það

að tefla, að gera ítarlega grein fyrir því mikla máli, á þeirri einu klukkustund, sem mér er ætluð. Hlutverk mitt verður að sjálfsögðu miklu fremur að vekja athygli ykkar á þessu mikla máli, en að veita nákvæma fræðslu.

Eg þarf auðvitað ekki að taka það fram við ykkur, að mannkynið hefir um löngu liðnar aldir gert sér í hugarlund, að menn væru stundum læknaðir af sjúkdómum sínum með andlegum krafti eingöngu. Ekki þarf annað en að renna huganum til Nýja testamentisins og frásagnanna þar, um máttarverk Krists og postula hans, sem voru nær því eingöngu lækningar. Þar er það jafnvel eftir Kristi haft, að lærisveinar hans muni gera meiri máttarverk en hann gerði. Eftir frásögnum Nýja testamentisins virðist kristin kirkja að mjög miklu leyti hafa verið grundvölluð með þessum máttarverkum. Þau voru í augum lýðsins tákn og sönnun þess að mennirnir, sem fagnaðarerindið fluttu, stæðu í sambandi við himneskt vald.

Okkur prótestöntum hefir yfirleitt verið kent það, að dagar máttarverkanna séu um garð gengnir. Þau hafi áreiðanlega gerst í upphafi kristninnar, en nú séu þau alveg hætt að gerast, af því að guð þurfi þeirra

ekki lengur. Eg skal kannast við það hreinskilnislega, að eg hefi aldrei skilið neitt í þeirri rökfærslu. Máttarverkin eiga að hafa verið alveg ómissandi á dögum Nýja testamentisins, til þess að kristna mennina. Það á að vera óumræðilega mikilsvert fyrir tíma og eilífð, að mennirnir séu kristnir. Enn er ekki nema tiltölulega lítið brot af heiminum kristið að nafninu, og margfalt minna verður brotið, ef farið er að grenslast eftir því, hve margir séu kristnir í raun og veru. Kristniboðinu miðar í raun og veru sama sem ekkert áfram. Um margar aldir hafa engar horfur verið á því, að öll veröldin yrði nokkurn tíma kristin í þeim skilningi, sem alment er í það lagður. Allar staðhæfingar trúboðanna í gagnstæða átt eru bersýnilega skrum og hugarburður einn. Hvers vegna ætti guð þá ekki eins að þurfa að halda á máttarverkunum nú, eins og nokkuru sinni áður?

Katólska kirjan hefir líka aldrei litið svona á málið. Og menn verða að muna eftir því, að þó að hún sé fámenn hér á landi, þá er hún ekki að eins lang-elzta heldur og lang-fjölmennasta og með ýmsum hætti lang-öflugasta deild kristninnar. Hún hefir alt af haldið því fram, að máttarverkin gerist, einkum andlegar lækningar.

Ekki þurfið þið annað en að lesa Sturlungu og Biskupasögurnar og Ólafs sögu helga til þess að ganga úr skugga um, hvernig litið var á það mál á miðöldunum. Og meðal annars af frásögnunum um kraftaverkin í Lourdes sjáið þið það, að katólsk kirkja gerir sér enn í hugarlund, að menn geti fengið lækningu með öðru móti en venjulegum lyfjum, umbindingum, holdskurðum, breyttu matarhæfi, hreinu lofti og öðrum þeim skynsamlegum ráðum, sem við fáum hjá læknunum okkar. Lourdes er, eins og þið vitið, bær á Suður-Frakklandi. Árið 1858 fullyrti 14 ára gömul stúlka, að María guðsmóðir hefði birzt sér þar við lind, sem nú er orðin nafnfræg um allan heim. Utan um þessa lind er nú sprottin upp heil borg með kirkjum, kapellum, klaustrum, gistihöllum o. s. frv. Fullyrt er, að mikill fjöldi sjúklinga hafi fengið þar aftur heilsu sína með dularfullum hætti. Pílagrímarnir, sem þangað koma árlega, eru um ½ miljón að tölu. Auðvitað rengja það margir, að María mey sé nokkuð við þær lækningar riðin. En eg veit ekki til þess, að nokkur skynsamur maður, sem nokkuð hefir kynt sér málið, neiti því nú orðið, að lækningar fari þar fram með öðrum hætti en alment gerist, og það á sjúklingum, sem ekki hafa getað

fengið bót meina sinna hjá almennum læknum.

Sannleikurinn er sá, að svo mikil brögð eru orðin að sannfæringunni um þessar lækningar, að jafnvel svo íhaldsamt félag manna eins og biskupakirkjan enska er farin að ruggast til. Biskupinn í London hefir nýlega sent prestum í biskupsdæmi sínu umburðarbréf um það að reyna að hjálpa sjúklingum í sóknum sínum með bænahaldi og handaálagning, eins og gert var fyrir löngu í kristninni. Honum lízt sýnilega ekki vel á það, að menn, sem utan kirkjunnar standa, vinni þau verk, sem ekki verður séð, að séu í neinum verulegum atriðum frábrugðin kraftaverkum Nýja testamentisins, en að kirkjan komi þar hvergi nærri. Enda er það ekki óskiljanlegt, að sumum kunni að finnast einhverju skringiljósi brugðið yfir kirkjuna með þeim hætti.

Eg mintist í síðasta erindi mínu á það, að menn menn hefðu reynt lækningar með dáleiðslum. Eg veit ekki til þess, að nokkur skynberandi maður efist um, að þær lækningar gerist í raun og veru. Og þó að aðferðin við þær og kenningarnar um þær séu nokkuð mismunandi, þá er það víst, að lækningarnar eru mjög oft í engu öðru fólgnar en því, að koma inn í hugann þeirri

sannfæring, að sjúklingurinn geti læknast, og öflugum vilja til að verða heill. Dáleiðingin er þá í engu öðru skyni gerð en því, að koma manninum í það ástand, að auðveldara verði að vekja þessa sannfæring og þennan vilja. Og því næst beitir mannsandinn þeim mætti, sem honum er áskapaður, en venjulega fær ekki að njóta sín, og læknar líkamann.

Eg ætla þá að segja ykkur ofurlítið af þeim lækningum, sem valdið hafa svo afarmiklu umtali með stórþjóðunum undanfarin ár. Og eg ætla að byrja á manni, sem andaðist í síðastl. janúarmánuði, 79 ára gamall, og mjög mikið hefir verið talað um, ekki sízt á þessu ári, í stórblöðum heimsins. Hann er alveg ókunnur þeim mönnum hér á landi, sem ekki lesa útlend blöð. Og þess vegna ætla eg að segja ykkur ofurlítið frá því, hvers konar maður hann var.

Hann var prestur í grísk-katólsku kirkjunni á Rússlandi, hét Jón Ilsytch Sergeieff, og átti heima í Krónstað. Í augum Rússa var hann miklu meiri maður en Tolstoi greifi. Sagt er, að rússneskir alþýðumenn eigi mjög örðugt með að átta sig á því, að hann hafi látist eins og aðrir menn. Sumir eiga að sögn von á því, að

hann komi bráðum aftur, og aðrir fullyrða, að hann hafi farið til himins í eldlegum vagni eins og Elías spámaður.

Foreldrar hans voru fátækir og mentunarlausir alþýðumenn í Archangel. Hann þótti ekki gáfaður drengur, en komst í kirkjuskóla í Archangel, og þar bar svo mikið á andlegu lífi hjá honum, að hann var sendur í prestaskóla í Pétursborg. Þegar hann hafði lokið námi þar, varð hann prestur í Krónstað. Þar var hann til dauðadags. Hann vildi ekki láta færa sig upp eftir metorðastiga kirkjunnar. En Rússar litu og líta á hann sem helgan mann.

Honum hefir verið líkt við Franciskus af Assisi, einn af elskulegustu guðsmönnum rómversk-katólsku kirkjunnar, og við Booth, höfðingja Hjálpræðishersins, einn af mestu guðsmönnum mótmælenda. Ekki stofnaði hann samt neina munkreglu, eins og Franciskus, né neinn Hjálpræðisher. En hann var altaf bláfátækur maður, þó að ógrynni fjár færu um hjá honum.

Einn af merkustu og nafnkendustu blaðamönnum Englendinga heitir dr. Dillon. Hann er einn af þeim Englendingum, sem nákunnugastir eru í öðrum löndum, enda hefir hann farið nálega um allan heim. Og orð hans eru hvarvetna mikils metin. Hann

lýsir þessum rússneska presti meðal annars á þessa leið:

„Hvar sem síra Jón kom, þar var hjálp á ferðinni, fjárstyrkur, ágætar ráðleggingar, huggandi bænir, uppörfunar-orð, sem vöktu hugrekki og lífsafl sálarinnar. Afarmikil andleg öfl lágu fólgin undir hinu hrikalega gerfi prestsins frá Archangel. Hann hafði lag á því að kveikja eldheita ást á náunganum í brjóstum tilheyrenda sinna með orðum og eftirdæmi, oft með dularfullum innra mætti, sem kom hjörtum manna til að titra og fékk sannarlegum dásemdum framgengt. Fólk kom, hlustaði, trúði og lét koma sér til að líkja eftir honum. Peningar fóru að berast að honum í smáskömtum, í lækjum, í stórfljótum. Frá öllum pörtum keisararíkisins fóru karlar og konur pílagrímsferðir til hins helga prests til þess að fá manndygð sína styrkta eða sorgir sínar sefaðar. Ríkisfólkið sendi eftir honum, þegar lindir allra jarðneskra vona voru þornaðar, og oft varð síra Jón að fara þúsundir mílna til þess að færa mönnum hjálp í raunum sínum eða vekja hjá þeim hugrekki til þess að bera þær. Síðan í Napoleons-stríðunum hefir enginn rússneskur maður í nokkurri stöðu átt annari eins ástsæld að fagna eins og Jón Sergeieff. Frá Riga til Vladivostokks, frá

Archangel til Sebastopol þektu menn hann vel og litu á hann sem góðan mann, og á sumum stöðum var hann dýrkaður eins og guðdómlegur maður. Allir þektu síra Jón, og nafni hans var samtengt eins og einhvers konar heilagt ákall, sem gat lokið upp hliðum himnaríkis og látið blessun streyma yfir mennina. Eg hefi verið kunnugur þessum merkilega manni um meira en fjórðung aldar. Eg hefi hitt hann í ýmsum hlutum ríkisins, þar sem margvíslega hefir ástatt verið, borgaralega og stjórnarfarslega, og mér hefir æfinlega fundist afarmikið um óeigingirni hans, hið sterka traust hans á forsjón guðs og þá brennandi löngun, sem hann bar í brjósti, til þess að hjálpa öllum, sem þjáðust á sál eða líkama“.

Annar enskur, merkur blaðamaður, Dobson, lýsti hátíð þeirri, sem haldin var, þegar síra Jón hafði verið prestur 35 ár. Hann kemst þar meðal annars svo að orði:

„Þeir sem trúa á síra Jón — og þeir eru óteljandi — telja ekki tíma kraftaverkanna um garð genginn. Fólk þyrpist utan um hann hvenær sem hann fer út af hinu fátæklega heimili sínu, og það gleðst, ef það getur að eins snortið faldinn á yfirlætislausum klæðum hans. Alt líf síra Jóns hefir verið óslitin sjálfsfórnar og kærleiksathöfn og kristileg

starfsemi með snauðum mönnum, sjúkum og þurfandi. Ekki hefir hann heldur synjað efnuðum mönnum og auðugum um návist sína né fyrirbænir; þeir hafa sent til hans úr öllum landshlutum, þegar öll önnur hjálp hefir brugðist. Og það hefir aldrei orðið árangurslaust. Ógrynni fjár hafa farið um hjá honum til snauðra manna í öllum áttum, en hann er sjálfur fátækur maður, og lifnaðarhættir hans eru svo óbrotnir, að lengra verður ekki jafnað. Svo mikill mannfjöldi situr um gufubáta og járnbrautarlestir, sem hann tekur sér far með, að lögreglan verður að gæta þess, að hann verði ekki troðinn undir. Hátíðin, sem haldin var honum til sæmdar í Krónstað, úti í eyju, sem er mjög örðugt og óþægilegt að komast að á vetrum, var sótt af miklum mannfjölda, ríkum og fátækum, sem brutust yfir ísinn á flóanum, og komu frá Pétursborg og annarstaðar að. Þrjátíu prestar tóku þátt í guðsþjónustugjörðinni í kirkjunni við þetta tækifæri, og sendinefndir komu frá ýmsum góðgerðafélögum og öðrum félögum, þar á meðal frá einu beiningamannafélagi, og færðu prestinum silfurbundnar biblíur og helgar myndir að gjöf“.

Af þessu getið þið væntanlega nokkuð

ráðið, hvers konar maður síra Jón var. Nú skal eg minnast á fáeinar lækningasögur, sem af honum eru sagðar.

Fursti einn í Pétursborg átti dóttur, sem legið hafði í rúminu fjóra mánuði, var máttlaus í fótunum. Síra Jón var sóttur. Margir menn voru viðstaddir. Hann gerði bæn sína með þeim öllum, snart því næst stúlkuna og sagði við hana: „Trúðu og stattu á fætur!“ Og hún trúði, stóð upp, gekk yfir herbergið og varð alheil.

Önnur sagan er þessi: Í októbermánuði 1889 lögðust í einu tvö börn sama mannsins í barnaveiki í Moskva. Alt var tafarlaust gert, sem unt var; en veikin magnaðist skyndilega. Læknar gengu á ráðstefnu og réðu af að gera barkaskurð á börnunum. Foreldrarnir urðu mjög óttaslegin, sendu símskeyti til síra Jóns norður í Krónstað, og báðu um fyrirbænir hans. Hann fékk símskeytið um morguninn og lagðist þegar á bæn. Skurðinn átti að gera kl. 2 sama daginn. En kl. 9 um morguninn (nákvæmlega á þeirri stund, sem síra Jón var að biðjast fyrir norður í Krónstað, eitthvað 500 enskar mílur burtu) tók læknirinn, sem gætti barnanna, eftir því, að þeim var að batna, og batinn var nú jafn-hraðfara eins og sýkin hafði verið áður. Læknarnir hittust á tilætluðum

tíma, til þess að gera skurðinn, en komust þá að raun um, að börnunum hafði batnað svo mikið, að ekki var þörf á að hafast neitt að. Eftir þrjá til fjóra daga var þeim batnað að fullu.

Þriðja sagan er tekin úr dagbók prestsins sjálfs. Við fáum þar skygnst inn í þessa einkennilega barnslegu sál. En annars mun eg síðar víkja að því, hverjum augum prestúrinn hefir sjálfur litið á þessar dularfullu lækningar.

Maður nokkur var veikur af bólgu í innýflunum, og honum var ekki hugað líf. Læknar höfðu ekkert getað linað þjáningarnar. Að morgni hins 9. dags, eftir að hann lagðist, þjónustaði presturinn hann. Þá albatnaði honum samdægurs. „Hann meðtók hið heilaga sakramenti“, segir presturinn, „með öruggri trú. Eg bað drottin að lækna hann. ‚Drottinn, sagði eg, lækna þú þjón þinn af þessum sjúkleika. Hann er góðs maklegur; veittu honum því þetta. Hann elskar presta þína og sendir þeim gjafir‘. Síðar um daginn segist hann hafa beðist fyrir í kirkju sinni með þessum orðum: ‚Drottinn, þú sem ert líf vort! Þér er jafn-auðvelt að lækna sérhvern sjúkdóm eins og mér er að hugsa um lækningu. Þér er jafn-auðvelt að reisa hvern mann frá dauðum eins og mér er að

hugsa um það, að upprisa frá dauðum sé möguleg. Lækna þú þá þjón þinn, Basil, af þessum sára sjúkdómi, og láttu hann ekki deyja; láttu ekki konu hans og börn verða gefin grátinum á vald'. Og drottinn heyrði náðarsamlega bæn mína og líknaði honum, þó að hann væri alveg við dauðans dyr. Dýrð sé þínu almætti og miskunnsemi, ó drottinn, fyrir það, að þú hefir virzt að bænheyra mig."

Svo virðist, bæði af þessari sögu og öðrum sögum í dagbók prestsins, sem ekki sé nokkur skuggi af efasemdum nútíðarmanna í hans sál. Trú hans er alveg sama eðlis og barnstrúin, óbifanleg sannfæring um það, að guð sé ekki að eins svo máttugur, að hann geti gert alt, hvað sem líður öllum lögum náttúrunnar, heldur líka svo góður faðir, að hann geri alt, sem góð börn biðja hann um, og svo sanngjarn að láta menn njóta þess, ef þeir eru prestunum góðir. Vafalaust stafar mannsins óvenjulega mikli andlegi máttur að einhverju mjög miklu leyti frá því, hvað hugurinn er gersamlega heill og óskiftur.

Eg kem nú að kynlegustu og síðustu sögunni, sem eg sé mér fært að segja ykkur af þessum presti, í þetta sinn. Dr. Dillon segir hana í æfisögu síra Jóns, sem hann ritaði

í eitt stórblaðið í Lundúnum í fyrra vetur. Hann segir, að þessi saga sé ein af þeim sögum af prestinum, sem áreiðanlegust vitneskja hafi fengist um.

Í þorpi einu var fyrir nokkurum árum verið að vígja nýja kirkju, og eftir vígsluna var höfðingjum, sem komið höfðu frá Pétursborg og Moskva, boðið til miðdegisverðar. Síra Jón var einn gestanna, og hann virtist alveg yfirkominn af þreytu. Alt í einu koma þrír bændur inn í stofuna og leiða milli sín konu. Hún þjáðist af verstu tegund þeirrar veiki, sem kölluð er „klassisk hysteria“, og ekki er talið að læknuð verði með neinum hugaráhrifum. Um 10 ár hafði hún aldrei getað verið til altaris. Maðurinn hennar hafði skilið við hana. Hún fékk ofsaleg köst, og þau voru tíð; andlitið afmyndaðist, líkaminn kengbognaði, svo að iljarnar rákust í hnakkann, og hún veltist fram og aftur, eins og hún væri haldin af illum öndum, segir dr. Dillon. Bændafólkið var ekki í neinum vafa um það, að sjúkdómur hennar væri djöflum að kenna. Sóknarprestur hennar hafði líka reynt að reka þá út, en bænahald gerði ekki annað en ilt verra.

Venjulega var rödd síra Jóns mjúk og laðandi. Nú var hún hvell og glymjandi.

Hann ávarpaði bændurna þrjá, sem héldu konunni. „Sleppið þið henni!“ sagði hann. Þeir sögðu, að ef þeir sleptu henni, þá dytti hún um koll. „Eg skipa ykkur að sleppa henni“, sagði hann. Þeir félagar hrukku þá aftur á bak, en konan skjögraði á gólfinu.

„Líttu á mig!“ sagði presturinn. Sjúklingurinn reyndi að festa augun á honum, en henni tókst það ekki. Hún átti örðugt með að standa. Lögreglustjórinn í þorpinu flissaði og sagði í hálfum hljóðum: „Það er líkast því, sem þessi sýning eigi að byrja með kraftaverki“.

Prestur tók aftur til máls í enn hvellari róm: „Eg skipa þér að líta í augun á mér!“ Smámsaman varð líkami konunnar stöðugri og augnaráð hennar fastara. Að lokum festi hún augun á andlitið á prestinum; það bifaðist ekki og var eins og innblásið.

„Gerðu krossmarkið fyrir þér“, skipaði prestur. — „Eg get það ekki“, sagði hún.

Nú var eins og mikill styrkur færðist skyndilega í líkama síra Jóns. Svo var að sjá, sem eldur brynni úr augum hans, og hann hrópaði með svo mikilli raust, að allir viðstaddir fengu hjartaslátt: „Farðu, í nafni drottins guðs, farðu!“ Þá kvað við í salnum ömurlegt, djöfullegt öskur, svo að hrollur

fór um alla, sem viðstaddir voru. Af vörum konunnar heyrðust orðin: „Eg er að fara“.

Nokkurir gestirnir grétu hátt af geðshræring, þar á meðal lögreglustjórinn, sem flissað hafði. Presturinn sagði þá: „Gerðu krossmarkið fyrir þér“. Sjúklingurinn gerir eina eða tvær tilraunir til þess og tekst það, og leggur því næst, án þess að segja nokkurt orð, höfuðið á öxlina á prestinum.

Allir viðstaddir urðu yfirkomnir af geðshræring. Þeir fundu, að þeir höfðu verið vottar að fyrirbrigði, sem tók fram venjulegum viðburðum lífsins.

Eftir stutta stund ávarpaði síra Jón sjúklinginn: „Þú ert alheilbrigð,“ sagði hann, „guð mun blessa þig með börnum; far þú í friði“. Eftir þetta bar ekkert á konunni, hún var stöðugt ágætlega heilsugóð; maðurinn hennar sneri aftur heim til hennar, og hún eignaðist börn, eins og síra Jón hafði spáð.

Ef sögurnar um þennan rússneska prest væru einstæðar nú á dögum, svo að hvergi gerðist neitt svipað í siðuðum heimi, þá kynni að vera ástæða til að ætla, að eitthvað væri bogið við þær. Auðvitað er enginn vafi sagður á því, að rússneska þjóðin yfirleitt sé sannfærð um það, að þessi prestur hennar hafi gert aragrúa af máttarverkum. En

á Rússlandi er mikið um fáfræði og hjátrú. Væri þjóðin þar ein til frásagna, mundi mörgum þykja ástæða til að efast.

En hún er ekki ein til frásagna. Síður en svo.

Afarfjölmennur flokkur manna eða kirkjudeild, sem unnið hefir stórvirki í Englandi og Ameríku, er nefnd Christian Scientists, eða kristnir náttúrufræðingar. Þeir eru mjög frægir fyrir andlegar lækningar.

Í mjög merku og vönduðu amerísku tímariti, sem heitir A r e n a, stóð í nóv. í fyrra ritgjörð um lækningar þessara manna, eftir ritsjórann. Hann skýrir þar frá því, að lækninganefnd þeirra í New York hafi skrásett 11,244 sjúklinga, sem þeir hafi læknað í New York-ríkinu. Sumir þeirra höfðu læknarnir fullyrt, að hefðu þjáðst af krabbameini, berklum í lungum, nýrnaveiki o. s. frv. Sérstaklega vekur hann athygli á vitnisburði ensks, mikilsmetins læknis, sem heitir dr. Wilding. Faðir hans hafði um mörg ár þjáðst af innvortis sjúkdómi, og hafði fengið lækningu að fullu hjá þessum kristnu náttúrufræðingum svo nefndu á fáum dögum. Dr. Wilding kunni þessu hið versta og var afarmikið mótsnúinn þessum mönnum, sem hann taldi skottulækna af versta tæi. En dóttir hans var á hraðri ferð ofan í gröf-

ina af berklum í báðum mjöðmunum og í lungunum. Hana læknuðu kristnu náttúrufræðingarnir að fullu. Þá fór lækninn að gruna, að þetta kynni að vera þess vert, að því væri veitt einhver athygli.

Svo að læknirinn lét þá fara að reyna við ýmsa af sjúklingum sjálfs hans. Meðal þeirra var ungur maður, sem um tvö ár hafði haft veikindi í hnénu. Læknarnir höfðu komist að þeirri niðurstöðu, að óhjákvæmilegt væri að taka bein burt. En kristnu náttúrufræðingarnir læknuðu hann að fullu á svipstundu.

Annar sjúklingur læknisins var kona og hafði meira en sex ár þjáðst af sjúkdómi í hjartanu, og henni var alt af að versna. Nærri hafði legið, að síðasta kastið færi með hana. Henni var ekið í handkerru, hvert sem hún fór, þegar kristins náttúrufræðings var vitjað til hennar. Daginn eftir að hann kom gat hún gengið að strangri vinnu frá morgni til kvelds, og hefir ekki síðan kent sér nokkurs meins.

Þriðji sjúklingur hans hafði um 8 ár verið alveg máttlaus í fótunum og að nokkuru leyti í handleggjunum, en 20 ára gamall var sjúkdómurinn. Hún var allæknuð á tveimur eða þremur dögum.

Slíkar sögur segir lærður og merkur læknir, sem í upphafi er mótsnúinn þessum

tilraunum. Eg ætla líka að minnast á vitnisburð annars læknis, sem getið er um í þessari Arena-ritgerð. Hann heitir dr. Edmund F. Burton, og var kennari við læknaskóla í Chicago, en varð að fara þaðan, því að hann var yfirkominn af tæringu í lungunum. Menn hugðu honum ekki líf, maginn var hættur að geta melt nokkurn mat, og taugakerfið virtist alveg bilað. Hann lá meðvitundarlaus tvo sólarhringa, og læknar, sem komu til hans, og báru saman ráð sín um hann, töldu óhugsandi annað en að hann ætti mjög skamt eftir ólifað. Kristinn náttúrufræðingur var sóttur til hans og var hjá honum þrjár klukkustundir. Daginn eftir var hann orðinn svo hress, að hann gat ekið í mótorvagni og stýrt honum sjálfur tvær klukkustundir, án þess að þreytast nokkuð. Innan 10 daga var honum batnað að fullu, og síðan hefir hann verið við beztu heilsu.

Kona hans fékk engu ómerkilegri lækningu. Hún handleggsbrotnaði og olboginn skektist í liðnum. Tveir læknar athuguðu þetta vandlega, auk eiginmanns hennar. Hún vildi láta hina kristnu náttúrufræðinga eiga við sig, og eftir 30 kl.st. voru engin merki eftir meiðslið, hvorki brotið né liðskekkjuna.

Ameríska tímaritið segir enn fremur frá

konu í Los Angeles. Hún hafði krabbamein í maganum. Og tvær hjúkrunarkonur í spítalanum, sem hún lá í, töldu hana andaða. Yfirhjúkrunarkonan gerði bróður hennar viðvart um það. Hann trúði því ekki, náði í kristinn náttúrufræðing, og eftir fáeina daga fór hún alheil út úr spítalanum.

Lækningin gerist ekki æfinlega tafarlaust. Í þessari Arena-ritgerð er sagt frá konu, sem nokkura daga hafði ekki getað nærst á neinu né sofnað nokkurn dúr. Þrír af þessum mönnum fengust við hana. Henni virtist verða ljettara og þjáningarnar voru ekki eins miklar. En á þriðju nótt eftir lækningar-tilraunina virtist konan deyja, og yfirhjúkrunarkonan skrásetti andlátið. Þá lagði bróðir hennar hendurnar á höfuðið á henni og nefndi hana með nafni. Hún lauk þá upp augunum, andaði eðlilega, og sofnaði því næst, fyrsta skiftið eftir að hún hafði komið í spítalann. Eftir fáa daga var hún alheil.

Þetta er sýnishorn af þeim sögum, sem merkismenn segja í merkustu tímaritum af þessum kynja-mönnum. Því miður er mér ekki jafn-kunnugt um vísindalegar rannsóknir þessara lækninga eins og t. d. um rannsóknir á hugsana-flutningnum og fjarsýninni. En hitt er mér kunnugt um, að

þessum lækningum trúa afdráttarlaust sumir af efagjörnustu vísindamönnum heimsins, sem hafa kynt sér málið. Eg skal rétt til dæmis nefna Mr. Podmore, sem manna harðast hefir barist gegn spíritismanum, eins og þeim er kunnugt, er lesið hafa sögu spíritismans eftir hann, sem til er hér í landsbókasafninu. Hann hefir fundið sig knúðan til þess að lýsa yfir þeirri sannfæring sinni, að tákn og stórmerki kristnu náttúrufræðinganna svo nefndu séu svo mörg og svo sönnuð, að um það mál verði ekki lengur deilt.

Eg ætla nú, áður en eg fer lengra, að víkja ofurlítið að því, hvernig þessir kynjamenn, sem eg hefi minst á, síra Jón hinn rússneski og kristnu náttúrufræðingarnir, líta á tilveruna og lækningar sínar. Í sumum atriðum eru kenningar þeirra gagnólíkar, aftur í öðrum atriðum furðu líkar. Um sjúkdómana segir síra Jón, að þeir séu refsingar Guðs fyrir syndirnar; „þeir hreinsa oss, þeir sætta oss við guð og leiða oss aftur að kærleika hans.“ .... „Með því að leggja sjúkdóma á líkama vorn bælir drottinn niður hinn gamla, synduga, holdlega mann, í því skyni að styrkja hinn nýja mann, sem vér höfum veikt með verkum holdsins — ofáti, ómensku, skemtunum, og

margvíslegum syndsamlegum böndum og ástríðum. Fyrir því verðum vér að taka öllum sjúkdómum með þakklæti.“ Heilbrigðin er stundum í hans augum mesta hætta fyrir siðferðislíf mannsins. Um þetta efni hugsa kristnu náttúrufræðingarnir alveg þveröfugt, eins og eg mun víkja að síðar.

Fyrir mannástar-hugarfari sínu, sem sjálfsagt hefir verið afltaugin í lífi hans og sterkasti þátturinn í hans máttugu trú, gerir hann þessa grein:

„Munið, hvað maðurinn er. Hann er ímynd guðs, barn guðs, erfingi ríkisins, limur á Kristi. Fyrir því verðum vér að meta hvern mann mikils, þó að sár syndarinnar séu á sál hans. Veitið djöfullegum truflunum, sundurgreiningum og fjandskap enga athygli. Segið hvað eftir annað: Alt er — eitt. Segið: Vér erum eitt.“

„Alt er blekking, nema sannur kærleikur,“ segir hann enn fremur. „Ef vinur þinn sýnir þér kulda, ruddaskap, óvild, ósvífni, þá segðu við sjálfan þig, að þetta sé ekki annað en blekking óvinarins. Ef þú truflast af óvildarhug út af kulda og ósvífni vinar þíns, þá segðu við sjálfan þig: Þetta er ekki annað en blekking hjá mér; en sannleikurinn er sá, að eg elska vin minn, þrátt fyrir alt, og eg vil ekki sjá neitt ilt hjá honum; það

er ekki annað en blekking djöfulsins, og sú blekking er líka í mér.“

Ef einhver hefði spurt hann, hvernig hann færi að lækna, mundi hann hafa svarað, að hann læknaði alls ekkert — það gerði guð, með þeim meðulum, sem hann hefði sjálfur valið til þess — bæninni, sakramentunum, ákalli heilagra manna og notkun heilagra mynda. En sýnilega er bænin og trúin þungamiðjan hjá honum. Í dagbók hans eru allskýrar bendingar um það, hvernig hann hefir beðið.

„Meðan þú biðst fyrir,“ segir hann, „skaltu trúa staðfastlega og muna eftir því, að hver hugsun þín og hvert orð þitt getur áreiðanlega komist í framkvæmd, því að guði er enginn hlutur ómáttugur. .... Alt er þeim fært, sem trúir.“

„Aðalatriðið í bæninni er lifandi, ljós trú á drottin; hugsaðu þér hann skýrt frammi fyrir þér, og hið innra með þér — og biddu svo Jesúm Krist í heilögum anda um hvað sem þú girnist, og þú munt fá það. Biddu blátt áfram, án minsta efa — þá mun guð verða þér alt, og framkvæma á einu augabragði mikla og dásamlega hluti.“

„Þegar þú ert beðinn að biðja um það, að einhverjum verði bjargað frá líkamlegum dauða, til dæmis frá druknun, frá and-

láti af einhverjum veikindum, af eldi, eða af einhverju öðru slysi, þá skaltu mæla með trú þeirra, sem hafa beðið þig að gera þetta, og segja hið innra með sjálfum þér: Blessuð sé trú þín; drottinn virðist, samkvæmt trú þinni, að veita mínum lítilfjörlega, veika mætti fyllingu og auki hann mér trúna."

„Þegar eg biðst fyrir, þá trúi eg því fastlega: 1) að guð einn sé til og fylli alt, og að hann sé þess vegna við mína hægri hönd; 2) að eg sé ímynd hans; 3) að hann sé hyldýpi miskunnseminnar, lind allrar líknar, og að hann hafi sjálfur gefið mér vald til að biðja sig."

„Heit, tárug bæn hreinsar mennina ekki að eins af syndum, heldur læknar hún líka líkamlegan veikleika og kvilla; hún endurnýjar alla veru mannsins, og lætur hann eins og fæðast af nýju. (Eg tala um þetta af reynslu)."

„Trúin er lykillinn að fjárhirzlu guðs. Hún býr í einföldum, blíðum, elskandi hjörtum. Allir hlutir eru færir þeim, sem trúir. Trúin er andlegur munnur; því betur sem honum er lokið upp, því sterkari verður straumur hinna guðdómlegu linda inn í hann; haldið þessum munni vel opnum; látið ekki varir yðar harðlokast af efasemdum og vantrú; ef þið haldið þeim harðlok-

uðum með efasemdum og vantrú, þá er fjársjóðum guðs blessunar lokað fyrir ykkur. Því afdráttarlausar, því hjartanlegar sem þið trúið á almætti guðs, því ríkulegar opnast hjarta guðs fyrir ykkur. Hvað sem þið girnist, þegar þið biðjið, þá trúið því, að þið munið öðlast það, og þið munuð fá það.“

Eg vona, að þið sjáið á þessum smágreinum, sem tíndar eru hér og þar úr dagbók prestsins, og öðru, sem eg hefi nú minst á, að innan um nokkuð miðaldalegar og meira eða minna barnalegar hugmyndir um synd og djöful og sjúkdóma og sakramenti og helgar myndir og presta kirkjunnar verður þetta mergurinn málsins hjá honum: Við eigum að gera okkur það fullljóst, a ð maðurinn er í sínu insta eðli í afarnánu og órjúfanlegu sambandi við guð; a ð mennirnir eru þar af leiðandi allir eitt, og eiga að virða og elska hver annan; a ð alt, sem er ljótt og syndsamlegt og andstæðilegt guði, er ekki annað en blekking og vitleysa; a ð sambandið við guð eflist með bæn og trú; og a ð sé bænin nógu heit og trúin nógu örugg, þá verði manninum ekkert ofvaxið, af því að guð sjálfur búi í honum.

Hvað sem menn nú segja um þessa lífsskoðun, þá gerir þessi rússneski prestur dá-

samleg máttarverk með henni, af því að sannfæringin er með öllu afdráttarlaus.

Nú komum við að því, hvernig kristnu náttúrufræðingarnir svo nefndu gera grein fyrir sínu máli.

Allir menn eru skapaðir í guðs mynd, segja þeir, skapaðir fullkomnir, alvitrir, almáttugir, heilagir, heilbrigðir og alveg lausir við allar raunir og öll vandræði þessa dauðlega heims. En mannshugurinn hefir einhvern veginn komist út á þá glapstigu að draga myrkva yfir þessa guðdómlegu skepnu, manninn, svo að menn gera sér ekki grein þess, að maðurinn er eingöngu guðs ættar, heldur ímynda sér, að hann þjáist af synd, sjúkdómum, fjármála-örðugleikum og öllu því margvíslega böli, sem mannkynið stynur undir.

Til þess að losna við alla þessa mæðu, þarf ekkert annað en að gera sér ljósa grein þess, að maðurinn er sama sem guð, og að skilja það, að í hinum verulega heimi er ekkert böl til, engin synd, engin sorg, engin mæða af neinu tæi, heldur er þetta eingöngu til í þeim sjónhverfingaheimi, sem hugurinn hefir búið til, og hann er jafn-óverulegur eins og martröð. Ekki þarf annað til þess að losna við martröð en að vakna. Til þess

að losna við alla mæðu og ófullkomleika, sem þjá mennina, þarf ekkert annað en vakna til þeirrar viðurkenningar, að maðurinn sé barn guðs, eigi þátt í fullkomleika hins guðlega eðlisfars. Þegar maðurinn er kominn svo langt, þá hefir hann ekki að eins losnað við martröðina sjálfa, heldur hefir hann líka öðlast hæfileika til þess að losa aðra menn við þá martröð, sem gerir líf þeirra herfilegt. Öllum mönnum má líkja við vatnsþró, sem er í sambandi við þá aðallind guðdómslegs máttar, sem síast gegnum alheiminn. Okkar þró ætti að vera barmafull af guðdómlegum mætti. Og við þurfum ekki annað en að snúa krananum frá; þá streymir inn í hana vatn lífsins úr aðallindinni. Og mennirnir, sem þjást, geta drukkið af því og lifað sælir og síheilbrigðir.

Og þeir geta, eins og eg sagði áðan, hjálpað öðrum til þess. Þeir fylla huga sinn með hugsuninni um kærleik guðs og um það, hve alheimur hans sé fullkominn, þeir setja sér lifandi fyrir sjónir, að þjáningin, sem fyrir framan mann er, sé alls engin til, og þá verður hún engin — af því að ekkert þarf annað en að gera sér nógu ljóst, að hún sé ekkert annað en blekking.

Þessir menn eru mjög andvígir kenningum síra Jóns hins rússneska og svo margra

annara, um að þrautir og vandræði og heilsuleysi geti verið sendiboðar guðs til mannssálarinnar. Þetta er í augum þeirra illar blekkingar og ekkert annað og mannkynið á að reka það alt á burt, og getur gert það.

Eg geng að því vísu, að mörgum okkar þyki þessi lífsskoðun að sumu leyti kynleg, ekki að eins dularfull og óskiljanleg, heldur líka fjarstæða. Mér finst hún vera það. En við megum ekki gleyma því, að með þessari lífsskoðun gera sumir þeir menn, sem hana aðhyllast, hin furðulegustu máttarverk — sennilega af því, að þeir eru nógu óbifanlega sannfærðir um, að hún sé rétt.

Hjá miklu fleiri flokkum manna gerast lækningafyrirbrigði um þessar mundir, sams konar og þau, sem eg hefi minst á, utan við alla almenna læknislist, og óháð henni með öllu. Til dæmis að taka er eitt félag, sem kennir sig við „Emmanuel“, og hefir náð miklum tökum í Englandi og Ameríku. Þeir menn segja, að enginn læknir sé til nema Jesús Kristur og hann vinni þau máttarverk, sem í því félagi eru unnin. Og fullyrt er af mjög merkum mönnum, að þau séu afar-furðuleg, banvænir sjúkdómar læknaðir, eins og krabbamein, gert við ólæknandi beinbrot, svo að maðurinn verður

alheill að kalla má á svipstundu o. s. frv. — alt með andlegum mætti eingǫngu.

Kenningarnar um það, hvernig þetta gerist, eru í einu orði sagt mjög margvíslegar — svo margvíslegar, að eg fæ ekki séð, að árangurinn sé neitt undir þeim kominn. Svo virðist, sem alls konar menn geti læknað með andans mætti einum, geti læknað sjálfa sig og aðra, ef þeir eru gæddir þeirri náðargáfu, að geta verið nægilega sannfærðir um, að lækningin muni koma.

Öll þau fyrirbrigði, sem eg hefi minst á, eiga sammerkt að því, að einbeittur vilji virðist eiga einhvern stórmikinn þátt í þeim. Allir þessir lækningamenn beita vitanlega öllum sínum viljakrafti á það, að fá því framgengt, sem þeir vonast og sækjast eftir. Og þó að skilninginn bresti andspænis þessum miklu undrum, og við vitum ekkert, hvernig þau gerast, þá er þó eins og okkur finnist, að við höfum á einhverjum snaga að hanga, meðan við getum heimfært þessa atburði undir áhrif frá viljanum. En enginn getur kynt sér mikið þetta mál, án þess að reka sig á þau fyrirbrigði, þar sem sá snaginn bilar að meira eða minna leyti. Og þá er eins og við berumst í lausu lofti, berumst jafnvel út úr kenningum lækn-

ingamannanna sjálfra — að eg nú ekki tali um getgátur vísindamannanna.

Svo er um söguna, sem eg ætla nú að segja ykkur ágrip af. Hún verður síðasta sagan, sem eg segi ykkur í kveld. Eg ætla að áræða að segja ykkur hana eins fyrir því, þó að einhver kynni að geta ætlað, að framliðnir menn stæðu að einhverju leyti í sambandi við atburðina, — sem eg að mínu leyti legg engan dóm á, af þeirri einföldu ástæðu, að eg veit ekkert um það, hvort svo hefir verið.

Eg segi söguna af því, að hún er svo afarmerkileg, og af því að hún er óyggjandi sönn. Einn af nafnkendustu vísindamönnum Frakka segir hana, Camille Flammarion, í franska blaðinu Matin, og hann segist hafa með höndum öll skjölin, sem sanni hana tvímælalaust. Ágrip af henni er þetta:

28 ára gömul stúlka hafði komið sér fyrir hjá frændkonu sinni til hjúkrunar. Hún var berklaveik. Bróðir hennar hafði dáið 8 ára úr berklaveiki. Móðir hennar hafði dáið úr sömu veiki. Í apríl 1905 lagðist stúlkan. Þrír læknar stunduðu hana og rituðu sjúkdómslýsingu hver um sig. Þeim ber öllum saman um þessi atriði:

1. Stúlkan er alveg tilfinningarlaus í fótunum og getur ekkert hreyft þá.

2. Kviðurinn er mikið uppbelgdur. Stúlkan finnur mikið til, þegar hún sækir andann djúpt.

3. Andardrátturinn er veiklaður beggja megin, einkum samt vinstra megin, og þar heyrist skrölt og marr, þegar hún er hlustuð.

4. Óvenjuleg viðkvæmni við hrygginn og hann er boginn út.

5. Máttleysið í fótunum stafar af því að mænan er skemd; þvagteppa; berklar í lungum.

Af þessu stafar: Mjög mikið magnleysi, lystarleysi, þrálátt harðlífi, svefnleysi á nóttum með hitasótt, sem ekki hefir tekist að bæta neitt úr, tíð blóðspýja og yfirlið.

Þetta er ástandið fyrstu dagana í marzmánuði 1907, eftir sjálfstæðum skýrslum þriggja læknanna, og sú skýrsla var staðfest af fjórða lækninum. Þeir töldu með öllu vonlaust um hana.

Við þessa yfirlits-skýrslu bætir Flammarion lýsingu á heilbrigðisástandi hennar 28. febrúar 1907: „Sjúklingurinn liggur hreyfingarlaus í rúminu. Enn getur hún hreyft handleggina, en gerir það svo sjaldan, sem unt er. Hún getur snúið höfðinu ofurlítið til hægri; en sé hún reist upp, veltur

höfuðið máttlaust út af á aðra hvora hliðina. Sjúklingnum er ómögulegt að sitja uppi í rúminu, hryggurinn hefir alls engan mátt; hvað lítið sem það er reynt, líður hún í ómegin. Kviðurinn mikið uppbelgdur. Fæturnir óhreyfanlegir.“

Svona er ástatt um stúlkuna, þegar við henni tekur maður, sem heitir Emile Magnin. Hann fæst við dáleiðslur og svo nefndar magnetiskar lækningar. Þær eiga að vera í því fólgnar, að eitthvert efni með lækningakrafti streymi út frá höndum læknisins inn í líkama sjúklingsins.

Stúlkan segir honum þá frá sýn, sem hún hafi séð 18. sept. síðastl. kl. 2 um morguninn. Hún liggur vakandi og alt í einu slokn-ar á lampanum hennar. Hún kveikir þegar aftur og sér, að nóg olía er á honum. Samt sloknar aftur á honum. Þá heyrir hún rödd, sem segir:

„Þolirðu að reynt sé við þig?“

Stúlkan játar því.

Þá sér hún fallega, nokkuð langa hönd, sem heldur á dálitlu blysi, svo að bjart verður í herberginu. Og uppi yfir sér les hún þessi orð: „8. maí kemstu aftur á fætur.“ Sjónin hvarf þá hægt og hægt. Nokkur augnablik verður aldimt í herberginu. Þá lifnar ljósið á lampanum sjálfkrafa. Tvær

konur sögðu Magnin, að stúlkan hefði þegar sagt sér frá þessari sýn.

Eg fer fljótt yfir söguna. Magnin tekst að láta stúlkuna sofa ofurlítið. Og kviðurinn fer að lagast.

Þegar stúlkan vaknar 8. marz, segist hún sjá við hliðina á sér fallega konu, er Magnin segir, að hafi verið ímynd konu, sem stóð honum nærri, og vel geti verið, að hann hafi ósjálfrátt verið að hugsa um hana. Stúlkan fellur í leiðslu. Nokkurar mínútur er eins og hún ætli að kafna, handleggir og hendur teygjast eins og í krampa, og hann heyrir sagt með veikri rödd: „Hjálpaðu mér, hjálpaðu mér.“ Hann strýkur sjúklinginn um barkakýlið og kringum hjartað, og segir: „Hérna er kraftur, sem eg gef yður.“ Þá heyrir hann, að hún segir skýrara:

„Hjálpaðu mér til þess að komast niður í þessa litlu ....“.

Eftir nokkurar sekúndur dregur hún þungt andann, andlitið afmyndast, höfuðið snýst á ýmsar hliðar, sjúklingurinn reynir að setjast upp. Magnin hjálpar henni til að setjast upp í rúminu og — nú situr hún keiprétt.

Magnin verður hissa og kemst við. „Ef það er þú,“ segir hann, „sem hefir fengið

sjúklinginn til að setjast upp, þá getur þú sjálfsagt líka látið hana ganga.“ Og ofan úr rúminu fer hún, og gengur tvisvar fram og aftur um herbergið.

Upp frá þessu fór stúlkunni að smábatna. 17. marz segir þessi dularfulli gestur:

„Hún finnur til sársauka, þangað til tilfinningin verður aftur komin í fæturna.“ — „Hvenær verður það?“ segir Magnin. — „Tilfinningin kemur aftur í 10 ctm. á dag. Hún verður komin aftur að fullu miðvikudaginn 27. marz.“

Magnin mælir þegar fótinn og fær 102 ctm., svo það stendur hér um bil heima, að skifta þessu svona á 10 daga. Hann spyr, hvenær stúlkan verði albata. Honum er sagt, að það verði 15. maí. — „Hvaða vikudagur er það?“ spyr Magnin. — „Miðvikudagur,“ er svarað tafarlaust. Hann lítur í almanak. Þetta stendur heima.

Á sögunni verður ekki séð, hvort stúlkan hafi farið á fætur 10. maí. En 15. maí er hún albata.

Nú ætla eg að lofa ykkur að heyra, hvað Flammarion segir um þetta:

„Án þess að fara nákvæmlega út í einstök atriði þessarar dásamlegu lækningar, getum vér nú spurt sjálfa oss, hvernig eigi að skýra þetta,“ segir hann.

„Auðsætt er, að hr. Magnin hefir haft áhrif á stúlkuna. Ólag hafði komist á taugakerfi hennar — hún var trúuð og þess albúin að taka á móti loforðinu um lækning. Læknirinn er sjálfur sannfærður um, að lækning geti gerst. Hann gengur að þessu með líf og sál. Trúin flytur fjöll.

„Að þessu leyti er þessi lækning ekki ný.

„En við sjáum jafnframt, að hér kemur fram merkilegt afl sálarinnar. Við getum ekki annað en spurt: Hvers eðlis er hin persónan, sem kom hér svo miklu góðu til leiðar? Hún er myndin af manneskju, sem hr. Magnin hefir elskað og geymir í sál sinni; og þessa mynd sér og finnur sjúklingurinn. Allar röksemdir sálarfræðinnar um skynvillur, móðursýki, hugsana-innblástur o. s. frv., velta hér um sig sjálfar. Við getum fallist á það, að sjúk, stórskemd líffæri geti komist í samt lag. Sjáum við ekki daglega sár læknast af sjálfu sér? Náttúran er fyrsti og bezti lækirinn. En hér kemur til sögunnar önnur persóna, hugsandi vera, sem virðist hafa þekking á mannlegum líffærum, kann ráð til þess að koma því í lag, sem gengið er úr lagi, reisir við vesalan líkama, sem er nærri því hruninn og orðinn að einni rúst, og segir fyrir fram, hvað gerast muni. Þetta líkist því, sem fyrir okk-

ur ber í draumum. En engin af lærdómskenningum vísindamanna kemur með neina skýringu á þessu.

„Þetta er hugnæmasta atriði þessarar lækningar. Staðreynd er staðreynd, og við hana verðum við að kannast, hvort sem unt er að skýra hana eða ekki. En hér erum við komnir út í dýpsta leyndardómshyl. Við eigum að þakka það samvizkusamri athugun óháðs og reynds lærdómsmanns, að þessir atburðir líffræðinnar eru nú geymdir sem dýrmætt sönnunarskjal handa vísindunum.“

Meira segir Flammarion ekki. Hann gefst alveg upp við að skýra þetta. Það geri eg líka. Og það gerum við sjálfsagt öll.

En hvernig sem við reynum að gera okkur grein þessa — eða hvort sem við reynum að gera okkur nokkura grein þess eða enga — þá getur okkur ekki dulist það, að hér, eins og í öllum þessum undursamlegu lækningum, kemur máttur mannsandans fram með dýrlegum hætti. Það er æfinlega dýrlegt, að útrýma meinum mannanna, létta af þeim sjúkdómsbölinu — eitt af því allra dýrlegasta, sem til er í þessum heimi. Hvenær sem eitthvert nýtt ráð finst til þess, þykir mönnunum afar-mikils um það vert, sem von er. Og nú er það sannað, að manns-

andinn hefir til þess margfalt meiri mátt en menn hafa alment gert sér í hugarlund. Óhugsandi virðist annað en að það breyti með tímanum mannlífinu að stórum mun.

Og eg sé ekki, að það geri neinn verulegan mun, þó að mannsandinn verði stundum eða æfinlega að leita lengra en til sjálfs sín í því efni. Eg sé ekki, að það geri neitt til, þó að hann verði að fá kraftinn frá guði, eins og síra Jón hinn rússneski hyggur, eða frá Jesú Kristi, eins og Emmanúels-mennirnir segja, eða úr frumlind alheimsmáttarins, eins og kristnu náttúrufræðingarnir mundu komast að orði, eða frá einhverjum milliliðum milli guðdómsins og mannsins, eins og enn aðrir halda — ef mannsandinn er gæddur þeirri náðargáfu að geta sótt máttinn þangað, sem nóg er til af honum.

Og það virðist sannað mál, að mannsandinn sé svo dásamlega gerður.

## III.

Eg talaði síðast um mátt mannsandans til þess að lækna mein líkamans. Efnið er náskylt í kveld. Eg ætla, áður en eg vík að ofurlitlum niðurlags-skýringum á þessu efni, sem eg hefi boðið ykkur, að fara nokkurum

orðum um mátt mannsandans til þess að lækna mein sálarinnar.

Eg geri ráð fyrir, að einhverjir ykkar muni hugsa sem svo: Meiri fjarstæða getur ekki hugsast en sú, að tala um að lækna mein sálarinnar á þessari jörð. Þessari tilveru er svo háttað, að hjá þeim verður ekki komist. Þeirri mótbáru svara eg ekki öðru að svo stöddu en því, að þeir menn hafa verið til, á mörgum öldum að minsta kosti, og þeir menn eru til fjölda margir nú, sem telja sig hafa fengið þá lækningu.

Eg geri líka ráð fyrir, að ýmsir ykkar segi: Þetta er það, sem trúarbrögðin eiga að gera. Eg þræti ekkert um það; eg er því alveg sammála. En eg spyr: Gera trúarbrögðin þetta að jafnaði? Lifum við ekki öll að meira og minna leyti í vansæluástandi? Finnum við ekki öll til þess, að við erum að meira eða minna leyti í ósamræmi við lífið? Eru ekki hugir mannanna oft og tíðum fullir af áhyggjum og kvíða og sorg og reiði og ýmsu öðru, sem við vitum, að ekki ætti þar að vera og veldur þjáning og vansælu? Og finnum við ekki, að við erum að meira eða minna leyti í ósamræmi við okkur sjálf? Tökum við ekki öll undir hið fornkveðna, að við höfum viljann til hins góða, en ekki kraft til að framkvæma það, að við gerum

ekki hið góða, sem við viljum, heldur hið vonda, sem við viljum ekki? Og er ekki hugurinn út af því hjá mörgum manninum sísár og sísjúkur þrátt fyrir trúarbrögðin?

Enn fremur get eg hugsað mér, að einhverjir segi: Þetta á siðmenningin að gera. Hún ein getur læknað mein mannanna. Og hún gerir það líka með tímanum — ef þau eru ekki ólæknandi. Því svara eg á þá leið, að eg veit ekki til þess, að neinn maður hafi fært neinar sönnur að því, að siðmenningin hafi aukið sálarfrið mannanna. Hún hefir aukið þægindi þeirra og nautnir. En við vitum ekkert um það, nema hún hafi aukið löngunina eftir þægindum og nautnum meira en að tiltölu við fullnægjuna. Hún hefir aukið efni, innihald mannlífsins. En hún hefir fylt hugi mannanna vandamálum, sem þeir ráða ekkert við. Hún hefir dregið úr harðneskjunni í orðum og athöfnum, og fært mönnunum margvíslega líkn í raunum þeirra. En hún hefir líka vafalaust aukið viðkvæmnina við andlegum og líkamlegum þjáningum.

Ef við hugsum okkur sæluna fólgna í friði sálarinnar — og eg veit ekki í hverju öðru hún ætti fremur að vera fólgin — þá virðist mér í meira lagi vafasamt, að þeir menn, sem lengst eru komnir í menningunni, sem

vér nefnum svo, séu yfirleitt vitund sælli en hinir, sem skemst eru komnir. Svo óumræðilega mikilsverð sem hin veraldlega menning hefir verið að öðru leyti, og svo ómótmælanlegt sem það er, að hún hefir hafið mannlífið upp á æðra stig, hygg eg ekki, að gildar sannanir verði að því færðar, að hún hafi stefnt að því að gera mennina sæla.

Aldrei hefir þetta verið ljósara mönnum en nú á tímum, enda óánægjan með lífið líklegast aldrei jafn-rík um margar aldir í hinum efstu lögum vitsmunanna og menningarinnar, eins og á nokkurum undanförnum áratugum.

Og nú er vakin afar-öflug hreyfing í heiminum til þess að bæta einmitt úr því, hve menningunni er áfátt að þessu leyti. Bandaríkjamenn hafa vakið hana. Þeir eru vitanlega allra þjóða friðlausastir eftir að koma hugsjónum sínum í framkvæmd, þegar þeir hafa komið auga á þær — þó að sá gífurlegi misskilningur hafi komist inn hjá mörgum Norðurálfumönnum, þar á meðal hjá mörgum Íslendingum, að Bandaríkjamenn hugsi ekki um annað en peninga. Kristnu náttúrufræðingarnir svo nefndu, sem eg mintist á síðast, eru ein deild í þeim mikla her, sem fyrir málinu berst. Annars er

starfsemi mannanna auðkend með ýmsum orðum, svo sem Religion of Healthy-Mindedness (trúarbrögð hugarheilbrigðinnar), New Thought (nýhyggja), Mind Cure (hugarlækningar) o. fl. Allar deildirnar hafa ekki að eins trú á andlegum lækningum á meinum líkamans, með þeim hætti, sem eg sagði ykkur frá síðast, heldur fullyrða þær og allar, af óbrigðulli reynslu, sem mennirnir þykjast hafa fengið, að mannsandinn sé gæddur þeim mætti, að veita mönnunum stöðuga ánægju, sálarfriðinn, sæluna — þegar þessa heims.

Nú skal eg lofa ykkur að heyra ofurlítið af því, sem einn af postulum þessarar hreyfingar, maður, sem heitir Horace Fletcher, segir um reynslu sjálfs sín í einni af bókum sínum. Hann var að tala við vin sinn um það vald, sem Japanar hefðu á sjálfum sér og hefðu öðlast með því að fara eftir fyrirmælum Búdda-trúarinnar.

„Þér verðið fyrst að losna við alla reiði og allan kvíða,“ sagði vinur hans. — „En er það ekki ókleift?“ sagði Fletcher. — „Nei,“ sagði vinur hans; „Jöpunum tekst það; og þá ættum við líka að geta það.“

„Á leiðinni heim aftur,“ segir Fletcher, „gat eg um ekkert annað hugsað en þessi

orð: „losna við, losna við.“ Og hugsunin hlýtur að hafa haft vald á mér meðan eg svaf, því að jafnskjótt sem eg vissi af mér um morguninn, kom sama hugsunin aftur. Sé það kleift að losna við reiðina og kvíðann, hvers vegna er þá nauðsynlegt að dragast með þetta? Eg fann, hvað þetta var skynsamlegt og samsinti því með sjálfum mér. Barnið hafði gert þá uppgötvun, að það gat gengið. Nú þótti því fyrirlitlegt að skríða.

„Krabbameins-blettir kvíðans og reiðinnar hurfu af mér frá því augnabliki, er eg hafði gert mér grein þess, að unt væri að losna við þá. Þeir höfðu látið særast á braut með þeirri uppgötvun, hvað þeir voru vanmáttugir. Frá þeirri stund hefir lífið verið alt annan veg ásýndum í mínum augum.

„Þó að mér væri frá því augnabliki ljóst, að unt er og æskilegt að vera laus við þær ástríður, sem mæða manninn, þá þurfti eg nokkura mánuði til þess að finna mig algerlega öruggan í hinu nýja ástandi mínu. En hvað eftir annað hefir síðan komið hið venjulega tilefni til kvíða og reiði, og eg hefi hvorugs orðið minstu vitund var. Fyrir því er eg hættur að hafa beyg af þessu eða gjalda nokkurn varhuga við því, og mig stórfurðar á því, hve þrek mitt og sálarafl

hefir aukist, hve mikinn styrk eg hefi fengið til þess að taka öllu, sem að höndum ber, og hve tilhneiging mín er rík til þess að elska og meta alt mikils.“

Fletcher segir enn fremur, að gremjan og skapraunin, sem hann hafi haft af því að vera samvistum við suma menn, hafi horfið með öllu. „Öll veröldin er alt í einu orðin góð í mínum augum. Það er eins og ekki hafi lengur áhrif á mig aðrir geislar en þeir, sem koma koma frá því sem gott er.“ Og til dæmis um hið nýja hugar-ástand sitt segir hann frá því smáatviki, að einu sinni sem oftar ætlar hann að ferðast með járnbrautarlest. Honum ríður á að komast þetta og hann hlakkar til þess. En hann verður að horfa á lestina leggja af stað án hans, af því að farangur hans er ekki kominn á járnbrautarstöðina. En hann finnur ekki til minstu skapraunar eða óþolinmæði. Þjónn kom frá gistihúsinu másandi og blásandi með faranguriun, rétt þegar járnbrautarlestin var að hverfa. Þjónninn bjóst auðsjáanlega við skömmum og fór að afsaka sig. En Fletcher sagði við hann: „Þetta gerir ekkert til; þér gátuð ekki við því gert; við reynum aftur á morgum. Hérna er borgunin; mér þykir fyrir því, hvað yður hefir orðið fyrirhafnarsamt að vinna fyrir

henni.“ „Undrunarsvipurinn, sem kom á andlitið á þjóninum fylti mig svo mikilli ánægju,“ segir Fletcher, „að hún var mér nægileg uppbót fyrir töfina, sem varð á ferð minni. Daginn eftir þá hann ekki nokkurn eyri fyrir ómak sitt, og við höfum bundið með okkur æfilanga vináttu.“

„Fyrstu vikurnar galt eg ekki varhuga við öðru en kvíðanum og reiðinni. En eg fór að taka eftir því, að aðrar ástríður, sem mæða manninn og hleypa kyrkingi í sál hans, voru líka hættar að gera vart við sig. Svo að eg fór að rekja skyldleikann, og sannfærðist að lokum um það, að þær eigi allar rót sína að rekja til þeirra tveggja ástríðna, sem eg hefi nefnt. Eg hefi nú notið frelsisins svo lengi, að eg er ekki í neinum vafa um afstöðu mína til þess. Og eg gæti ekki lengur borið í brjósti neinar þessar hugrenningar, sem stela ánægjunni og þjá mennina, hugrenningar, sem eg hlúði einu sinni að sem arfleifð mannkynsins; mér væri það jafn-fjarri skapi eins og hégómlegum spjátrungi er að fara viljandi að ösla í saurrennu.

„Einu sinni fór eg að hugsa um það, hvort þetta burtnám ástríðnanna mundi ekki valda kæruleysi og dugleysi. Mér hefir reyndin orðið alt önnur. Eg finn, að þráin eftir að

vinna eitthvað nytsamt hefir aukist svo mikið, að því er líkast, sem eg sé aftur orðinn drengur og leikþrótturinn sé kominn af nýju. Eg er eins fús á að berjast eins og nokkuru sinni áður (og mundi gera það betur en áður), ef nokkurt tilefni væri til þess. Þetta gerir mann ekki að raggeit. Það getur það ekki gert, þar sem óttinn er eitt af því, sem burt hefir verið numið. Þegar eg var lítill, stóð eg einu sinni hjá tré og eldingu laust niður í það. Þetta hafði áhrif á mig, sem eg gat aldrei losnað við, fyr en eg hafði sagt sundur með mér og kvíðanum. Síðan hefi eg orðið að sæta þrumum og eldingum undir þeim skilyrðum, sem áður mundu hafa valdið mér mikillar raunar og óþæginda, en nú hefi eg hvorugs orðið var hið minsta.

„Að því er sjálfan mig áhrærir, er eg ekki að hafa fyrir því að hugsa neitt um það að sinni, hver árangurinn kunni að verða af þessari framför. Eg er ekki í neinum vafa um það, að algerðri heilbrigði, sem kristnu náttúrufræðingarnir stefna að, muni verða unt að ná, því að eg hefi orðið þess var, að meltingu minni hefir farið stórkostlega fram. Ekki er eg heldur að eyða dýrmætum tímanum í það að búa mér til hugmynd um annað líf eða himnaríki, sem sé í vændum. Það himnaríki, sem eg hefi hið innra með

sjálfum mér, er eins laðandi eins og nokkurt það himnaríki, sem mönnum hefir verið lofað, eða eg get gert mér í hugarlund. Og eg er ásáttur með að stefna hvert sem leiðir liggja, ef reiðin og afsprengi hennar á engan þátt í neinni villu út á glapstigu“.

Rithöfundurinn, sem þetta segir, sem eg hefi nú lesið ykkur, virðist ekki hallast að neinum ákveðnum trúarbrögðum. Hann treystir á mannsandann einan til þess að losa mannkynið við þær ástríður, sem þjá það. Eða ef til vill væri réttara að segja, að þetta traust, þessi vissa, sé trúarbrögð mannsins. Og þið sjáið, hvað miklu þau hafa komið til vegar hjá honum. Og trúin er áreiðanlega hið mikla lyftiafl í sálarlífi þessara manna.

Máttarstoðin undir kenningum þeirra kemur fram í allri trúarreynslu mannanna — sú, að eðlisfar mannsins sé tvískift og sé í sambandi við tvenn hugsana-svið, annað grynnra, óæðra, hitt dýpra, göfugra, og að maðurinn geti vanið sig á að lifa að miklu leyti á hvoru sviðinu, sem hann velur. Á hinu grynnra, óæðra sviði eru holdlegar tilfinningar og hvatir og eftirlanganir sjálfselskunnar, efasemdanna og hinna ógöfugri hagsmuna mannsins. Þetta ríður, eins og þið sjáið, ekkert bág við guðfræði kristinnar

kirkju. En þar sem kristin kirkja heldur því fram, að sjálfbirgingshátturinn, auðmýktarleysið sé aðallöstur hins óæðri hluta manneðlisins, þá halda þessir menn því fram, að merki dýrsins í okkur sé óttinn. Og þetta setur svo afdráttarlaust nýjan trúarblæ á sannfæring þeirra.

„Óttinn“, segir Fletcher, „hefir gert gagn í framþróuninni, og í honum virðist vera fólgin öll sú fyrirhyggja, sem dýrin hafa; en það nær engri átt, að hann eigi að halda áfram að vera nokkur partur af hugar-útbúnaði manna, þegar þeir eru farnir að lifa siðuðu lífi. Eg sé það, að óttinn í fyrirhyggjunni, er ekki örvandi, þegar mennirnir eru orðnir svo siðaðir, að þeim er orðið eðlilegt að láta stjórnast af skylduræktinni og aðdráttaraflinu, heldur er hann veikjandi og lamandi. Jafnskjótt sem óttinn er orðinn ónauðsynlegur, verður hann beinlínis lamandi, og þá þarf að nema hann burt með öllu, eins og dautt hold er numið burt frá lifandi holdi“.

„Maðurinn fær á sig innsigli óttans, áður en hann kemst inn í þennan ytri heim“, segir annar af postulum þessara nýju hugsana; „hann er alinn upp í ótta; alt líf sitt lifir hann í ánauð hræðslunnar við sjúkdóma og dauða, og með þessum hætti verður alt hug-

arfarið hnýtt og skert og þjakað, og líkaminn verður eftir þessari skorpnu fyrirmynd. Hugsið um þær miljónir viðkvæmra og áhrifanæmra sálna með forfeðrum vorum, sem hafa verið undir áþjánar-valdi þessarar stöðugu martraðar! Er það ekki að furða að nokkur heilbrigði skuli vera til? Ekkert annað en hinn takmarkalausi guðdómlegi kærleikur, máttargnótt og lífsafl, sem stöðugt er veitt inn í okkur, þó að við verðum þess ekki varir, gæti að neinu leyti stemt stigu við öðru eins úthafi sjúkleikans".

Þegar við komum að hinni göfugri hlið á eðli mannsins, sjáum við, að munurinn er líka töluverður þar á kenningum þeirra og guðfræði kirkjunnar. Þeir hneigjast sýnilega miklu meira í algyðisáttina. Hið andlega í manninum kemur, eftir þeirra kenningum, sumpart fram í almennri vitund mannsins, sumpart fram í undirvitundinni, sem svo er nefnd, og eg mun minnast dálítið nákvæmara á, áður en eg kveð ykkur í kvöld. Og undirvitundin liggur, eftir kenningum þeirra, alla leið inn í guðdóminn, eða rennur saman við hann, er guðdómleg, er eins og vogur inn úr hinu ómælanlega úthafi guðdómsins.

Einn af nafnkendustu rithöfundum þessarar stefnu heitir Ralph Waldo

Trine. Hann hefir ritað bók, sem hefir verið afar-mikið lesin, og heitir á frummálinu „In Tune with the Infinite.* Í þessari bók gerir hann þá grein fyrir aðalatriðum lífsskoðunarinnar, sem eg skal nú lesa ykkur. Þeir, sem hlustuðu á mig síðast, hljóta að finna, að aðalatriði hennar er í raun og veru alveg sama eins og hjá kristnu náttúrufræðingunum svo nefndu:

„Hin mikla aðal-staðreynd alheimsins,“ segir Trine, „er sá andi óendanlegs lífs og máttar, sem er bak við alt og kemur fram í öllu og gegnum alt. Þessi andi óendanlegs lífs og máttar, sem er bak við alt, er það, sem eg kalla Guð. Mér stendur á sama, hvaða nafn þið kunnið að nota, hvort þið kallið hann hið Góðgjarna Ljós (sem er indversk hugsun), Forsjón, Yfirsálina, Almætti, eða hvað annað, sem ykkur kann að þykja viðfeldnast, svo lengi sem okkur kemur saman um hina miklu staðreynd sjálfa. Guð fyllir þá alheiminn einn, svo að alt er frá honum og í honum, og ekkert er utan við hann. Hann er líf okkar lífs, hann er sjálft

---

* Síðan er þetta erindi var flutt, hefir bókin verið gefin út á íslenzku, með titlinum: „Í samræmi við eilífðina“ í þýðing síra Jónasar Jónassonar.

líf okkar. Við eigum þátt í lífi guðs; og þó að sá munur sé á okkur og honum, að við erum orðnir að einstökum öndum, þar sem hann er hinn óendanlegi andi, sem innibyrgir okkur, eins og alt annað, þá er samt í insta eðli sínu líf guðs og líf mannsins alveg sama. Munurinn er enginn á eðlisfari né gæðum; munurinn er sá, hve mikið er af lífinu.

„Hin mikla aðal-staðreynd mannlegs lífs er það að verða sér þess afdráttarlaust meðvitandi, að vér og þetta óendanlega líf er eitt og sama, og að opna sjálfa okkur að fullu fyrir þessu guðlega innstreymi. Nákvæmlega að sama skapi sem við verðum okkur þess meðvitandi, að við og þetta óendanlega líf er eitt og sama, og að sama skapi sem við opnum okkur fyrir þessu guðlega innstreymi, að sama skapi gerum við starfhæfa í okkur sjálfum eiginleika og mátt hins óendanlega lífs, að sama skapi gerum við sjálfa okkur að farvegum hinna óendanlegu vitsmuna og hins óendanlega máttar. Nákvæmlega að sama skapi, sem við gerum okkur það ljóst, að við og hinn óendanlegi andi erum eitt, fáum við frið fyrir friðleysi, samræmi fyrir ósamræmi, nægtir, heilbrigði og styrkleika fyrir þjáningar og þrautir. Það að gera sér nána grein

fyrir guðdómi okkar, og því nána sambandi, sem við erum í við alheiminn, það er sama sem að tengja vélabelti okkar við aflgjafa alheimsins. Enginn þarf að vera lengur í helvíti en hann sjálfur vill; við getum lyft okkur upp í hvert himnaríki, sem við sjálfir viljum; og þegar við viljum lyfta okkur upp þann veg, þá taka öll hin æðri máttarvöld alheimsins höndum saman til þess að hjálpa okkur upp á við."

Eg verð að hverfa frá þessum mönnum tímans vegna. Eg minni ykkur að eins á það, að með þessari lífsskoðun gera ekki að eins sumir þeirra lækninga-stórmerki, sem viðurkend eru af efagjörnustu vísindamönnum, er hafa kynt sér málið, heldur telja margir þeirra sig líka hafa öðlast friðinn, sæluna, sem alt mannkynið þráir. Lækningarnar geta menn rannsakað og gengið úr skugga um. Hugarástandi mannsins er alt annan veg farið í því efni. Enginn getur s a n n - a ð, hvernig það er. Þar verður að draga ályktanir af líkum. En mikið má það vera, ef mörgum þykir það sennilegt, að dýrleg máttarverk trúarinnar fari fram í andrúmslofti vísvitandi ósanninda — ef haltir ganga, líkþráir hreinsast, daufir heyra o. s. frv. fyrir guðræknisþel og trú þeirra manna, sem fara með stórlygar um sitt eigið sálarástand.

Sannleikurinn er líka sá, að því fer mjög fjarri, að þessir menn séu þeir einu eða fyrstu, sem telja sig hafa öðlast frið sálarinnar með dularfullum hætti — þann frið og þann fögnuð, sem er æðri öllum skilningi, eins og Páll postuli kemst að orði, ástand, sem fullyrt er, að enginn geti gert sér í hugarlund, nema hann hafi reynt það sjálfur. Sumar kirkjudeildir mótmælenda hafa, að því er mér virðist, undarlega lítið haldið þeirri tegund trúarreynslunnar á lofti. Í mínum augum er óendanlega miklu meira um það vert, að einhverjum manni takist að öðlast alla þá sælu, sem hann getur tekur við, en til dæmis að taka að finna norðurheimskautið eða gera einhverja stórmerka efnafræðilega eða eðlisfræðilega uppgötvun. Reynsla mannsins, sem finnur sæluna, bendir mér á mátt mannsandans yfirleitt, til þess að gera mennina sæla, þegar skilyrðin eru fundin. Og svo mikla virðingu, sem eg legg á framfarirnar að öðru leyti, get eg ekki neitað því, að mér finst farsæld mannanna vera sú framförin, sem mundi mestu máli skifta.

En þó að sumar kirkjudeildir mótmælenda hafi verið nokkuð fátalaðar um þetta efni, vantar svo sem ekki afar-merkilegar sögur í þessa átt af mönnum, sem heyra

þeim kirkjudeildum til, sögum, sem enginn rengir mér vitanlega — þó að vísindamenn hafi lengstum gengið fram hjá þeim, eða hlaupið yfir þær sem annaðhvort óskiljanlegar eða berandi eingöngu vitni um sjúkt sálarástand, eins konar geðveiki, — þangað til sálarfræðingar nútímans eru farnir að gefa þeim gaum af miklu kappi. Sæluástandið, sem kemur fram í þeim sögum, er venjulegast í sambandi við það, sem guðfræðingarnir nefna afturhvarf eða endurfæðing, skyndilega breytingu frá vantrú í trú eða frá siðlausu hátterni í strang-siðferðislegt líferni. Eg vel eitt dæmi af mýmörgum, að eins til að gera ykkur skiljanlegt, við hvað eg á.

Maður hét Henry Alline. Hann var prédikari í Nýja Skotlandi um næstsíðustu aldamót og mesti merkismaður. Hann lýsir sálarástandi sínu um eitt skeið á þessa leið:

„Alt, sem eg sá, fanst mér vera mér byrði; mér fanst eins og jörðinni hefði verið bölvað mín vegna; öll tré, allar plöntur, allir hamrar og hólar og dalir fundust mér vera í sorgarbúningi og andvarpa undir þunga bölvunarinnar, og alt umhverfis mig fanst mér hafa gert samsæri um glötun mína. Mér fanst, að flett hefði verið ofan af synd-

um mínum, svo að allir, sem eg sá, mundu vita af þeim, og stundum lá við, að eg færi að játa hitt og annað, sem eg hélt að menn vissu; stundum fanst mér jafnvel allir vera að benda á mig sem sekasta afhrak jarðarinnar. Eg fann nú svo mikið til hégómleiks og fánýtis allra hluta hér í heimi, að eg vissi, að allri jörðinni var um megn að gera mig ánægðan, og öllu sköpunarverkinu meira að segja. Þegar eg vaknaði á morgnana, var fyrsta hugsunin þessi: Ó, mín auma sál, hvað á eg að gera, hvert á eg að fara? Og þegar eg lagðist út af, sagði eg við sjálfan mig: Ef til vill verð eg kominn til helvítis fyrir næsta morgun. Eg leit oft öfundaraugum á skynlausar skepnurnar, óskaði mér af öllu hjarta, að eg væri í þeirra sporum, svo að eg hefði engri sál að glata; og þegar eg horfði á fuglana fljúga yfir höfði mér, var hugsunin margsinnis þessi: Ó, að eg gæti flogið burt frá hættunni og mæðunni! Hvað eg skyldi vera ánægður, ef eg væri í þeirra sporum!“

Þennan veg er sálarástandi mannsins háttað. En breytingin kemur einn dag á svipstundu. Honum verður litið á slitur úr ritningunni, sem liggur á stól inni í herberginu, sem hann situr í. Hann flettir upp bókinni, hittir á 38. sálm Davíðs, og fer

að lesa. Sálmurinn fær það vald á honum, að honum finst að öll sál sín verði gagntekin, og að drottinn sjálfur sé að biðjast fyrir í honum, með honum og fyrir hann. Og efni bænarinnar er það að gefa sig sjálfan afdráttarlaust guði á vald.

„Á því augnabliki,“ segir hann, „sem eg gaf mig honum á vald til þess að gera það við mig, sem honum þóknaðist, þegar eg var orðinn fús á að láta guð drotna yfir mér eftir sinni velþóknan, brauzt endurleysandi kærleikur inn í sál mína með slíkum mætti, að mér fanst öll sál mín bráðna af kærleika; byrði sektarinnar og fyrirdæmingarinnar var farin, myrkrið var orðið að engu, hjarta mitt varð auðmjúkt og fult af þakklæti, og öll sál mín, sem fáum mínútum áður hafði stunið undir fjöllum dauðans og grátbænt einhvern óþektan guð um hjálp, var nú full af ódauðlegri ást, flaug á vængjum trúarinnar, laus úr hlekkjum dauðans og dimmunnar og hrópaði: Drottinn minn og guð minn; þú ert hellubjarg mitt og vígi mitt, skjöldur minn og háborg mín, líf mitt, gleði mín, núverandi og ævarandi hlutskifti mitt.“

Hann lýsir hugsunum sínum nokkuð frekara, og segir því næst: „Mestalla nóttina var eg í algleymings fögnuði, lofandi og

vegsamandi drottin fyrir hans örlátlegu og takmarkalausu miskunn. Þegar eg hafði verið svo lengi í þessari hrifning og þessu himneska ástandi, að svo virtist, sem mér væri farin að verða þörf á svefni, hugsaði eg mér að loka augunum fáein augnablik. Þá tók djöfullinn fram í, og sagði mér, að færi eg að sofa, mundi eg missa alt, og þegar eg vaknaði að morgninum, mundi eg komast að raun um, að þetta hefði ekki verið annað en hugarburður og blekking. Eg hrópaði tafarlaust: Ó, drottinn guð, hafi eg orðið fyrir blekkingu, þá losaðu mig við hana.

„Eg lokaði þá augunum fáeinar mínútur, og mér fanst eg hressast við að sofna. Og þegar eg vaknaði, var fyrsta spurning mín þessi: Hvar er guð minn? Og á sama augnabliki var eins og sál mín vaknaði í og með guði, og væri umvafin örmum eilífs kærleika.“

Eg verð að láta mér nægja þetta eina dæmi af sama tæi. Sögurnar eru margar, eins og eg sagði áðan. Þær lýsa allar óumræðilegu, dularfullu fagnaðarástandi. Og þó að fögnuðurinn haldi sér ekki stöðugt með sömu ákefðinni, þá fylgir hann að minsta kosti mörgum þessum mönnum að meira eða minna leyti alt lífið.

Þessar sögur lýsa allar ástandi, sem nefnt er m y s t i s k t — dulspekilegt hefir það verið lagt út á íslenzku, og sú útlegging virðist ekki vera fjarri réttu lagi. Þetta ástand virðist hafa tvö aðaleinkenni. Annað er það, að því verður ekki lýst að fullu með orðum, eftir því sem allir þeir fullyrða, sem í það hafa komist. Menn verða að reyna það sjálfir, til þess að geta fengið rétta hugmynd um það. Að því leyti virðist þetta fremur vera á tilfinninga-sviðinu en á vitsmuna-sviðinu. Enginn getur vitað, hvernig sú tilfinning er, sem hann hefir ekki sjálfur reynt. Enginn maður, sem ekki hefir söngeyra, getur gert sér hugmynd um þann unað, sem margbrotið lag getur veitt summum öðrum mönnum. Enginn maður, sem aldrei hefir verið ástfanginn, getur að fullu gert sér grein þess ástands, sem ástfangnir menn eru í. Eins er um þetta ástand, sem hér er um að tefla. En þó að ástandið virðist að þessu leyti liggja á tilfinninga-sviðinu, er eins og það sé jafnframt þekkingarástand. Það lýkur upp fyrir mönnunum nýju útsýni, birtir þeim það, er þeim finst ljós og óumræðilega dýrmætur og mikilsverður sannleikur, þó að sá sannleikur kunni að vera ógreinilegur í annara augum, þegar farið er að reyna að gera þeim grein fyrir

honum. Og venjulega halda þeir menn, sem fyrir þessu hafa orðið, alt af fast við þær hugsjónir, sem inn hjá þeim hafa komist með þessu móti, af því að þeim finst áfram þær hugsjónir vera skýlaus og óyggjandi sannleikur.

Allar sögur í þessa átt af mönnum í mótmælenda-kirkjudeildunum eiga sammerktað því, að hjá þeim öllum hefir þetta ástand komið sjálfkrafa, nema að því leyti, sem bænir kunna að hafa vakið það. Í þeim kirkjum hefir algerlega verið lagst undir höfuð að gera nokkurar tilraunir til þess að komast í nokkurt dulspeki-ástand — þangað til þessir menn, sem eg hefi ofurlítið verið að segja ykkur frá, og kendir eru við hugarheilbrigði og annað því líkt, hafa nú snúið sér að þessu máli. En annars hafa jafnan verið og eru enn í öllum hinum æðri trúarbragðadeildum heimsins, með Hindúum. Búddatrúarmönnum, Múhamedstrúarmönnum og í katólskri kirkju, menn, sem beinlínis hafa lagt stund á að rækta þessa hlið á mætti mannsandans með tilraunum.

Við Norðurálfumenn erum fróðastir um þessar tilraunir í katólskri kirkju. Eg hefi ekki tíma til þess nú að segja ykkur frá

þeirri grein, sem hinir miklu dulspekingar þeirrar kirkju, eins og t. d. Ignatius Loyola og Teresa hin helga, gera fyrir þessari stórmerkilegu reynslu sini. Tilraunirnar stefna í einu orði að því að komast í vitundarsamband við sjálfa alheimssálina, sem vér nefnum guð. Og árangurinn hefir hjá mörgum þessum dulspekingum áreiðanlega orðið:

1. Ný þekking á alheiminum, sem hefir fullnægt mönnunum sjálfum, þó að hún sé þess eðlis, að hún geti ekki fullnægt öðrum mönnum, sem ekki hafa orðið fyrir þessari reynslu — hefir fullnægt þeim svo, að hún hefir orðið að óbifanlegri vissu, sem ekkert hefir getað haggað við, hvorki röksemdir, ofsóknir, né neitt annað.
2. Heilagt líferni.
3. Sá fögnuður og friður, sem æðri er öllum skilningi.

Sálarfræðingar nútímans eru ekki í neinum vafa um það, að þau sálar-fyrirbrigði hafi gerst og gerist, sem eg hefi nú verið að minnast á. En þeir líta á þau nokkuð öðrum augum en kirkjudeildirnar hafa gert.

Þær hafa litið á slík fyrirbrigði sem kraftaverk, yfirnáttúrleg verk, sem guð sjálfur ynni með alt öðrum hætti en hann til dæmis að taka lætur sólargeisla komast gegnum gagnsæja hluti, ynni gagnstætt

náttúrulögunum, eða að minsta kosti utan við þau. Sálarfræðingar nútímans líta ekki á þessi fyrirbrigði, né nein önnur fyrirbrigði, sem nein kraftaverk í þeim skilningi. En til þess, að eg geti gert ykkur skiljanlega þá grein, sem þeir reyna að gera sér fyrir þeim, verð eg að fara nokkurum orðum um það, sem nefnt er undirvitund.

Vísindamenn gerðu þá uppgötvun fyrir rúmum 20 árum, sem talin er merkasta framför sálarfræðinnar, ekki að eins um langan, langan tíma, heldur líka jafnvel á öllum öldum, að auk hinnar almennu vitundar mannsins er í honum annað vitundarlag, aðrar endurminningar, aðrar hugsanir, aðrar tilfinningar en þær, sem hann veit af að jafnaði. Með þessari uppgötvun fengu menn það sannað, að manneðlinu er nokkuð annan veg háttað en nokkurn mann hafði áður grunað. „Um enga aðra framför, sem orðið hefir í sálarfræðinni, verður slíkt sagt,“ segir prófessor William James. Þetta vitundarlag, sem til er í manninum, en ekki gerir vart við sig að jafnaði, og fráleitt nokkurn tíma að fullu, hefir verið nefnt „undirvitund“ á íslenzku. Úr þessari undirvitund ganga stundum, að minsta kosti hjá sumum mönnum, endurminninga, hugsana og tilfinningastraumar inn í hina al-

mennu vitund. Þeir straumar geta valdið truflun í vitundarlífinu, gert mennina sjúka með ýmsum hætti. En þeir geta líka auðgað sálarlífið að stórum mun. Það fer alt eftir því, hvers eðlis þeir eru.

Eitt einfaldasta merki undirvitundarinnar kemur fram, þegar maður hefir verið dáleiddur, og honum hefir verið sagt að vinna eitthvert verk á tiltekinni stund — ef til vill eitthvað alveg óvenjulegt, sem manninum hefði ekki komið til hugar að vinna. Þegar maðurinn vaknar, hefir hann enga hugmynd um þetta. En hann vinnur verkið á þeirri stund, sem honum hefir verið sagt að vinna það, og sé verkið óvenjulegt, og sé hann spurður, hvers vegna hann sé að þessu, þá býr hann sér til einhverja átyllu. Dávaldur getur sagt honum að sjá einhverja sýn eða heyra einhverja rödd, á tiltekinni stund, og þegar stundin er komin, sér hann sýnina eða heyrir hann röddina, og hefir engan grun um, hvernig á þessu stendur. Hugsunin hefir þá geymst í undirvitundinni og kemur fram eins og vitundin hefir við henni tekið. Við rannsóknir á hysteriskum sjúklingum hefir komið fram sægur af endurminningum, utan við hina almennu vitund þeirra, sem valdið hefir skynvillum, þrautum, krampa, tilfinningarleysi og mátt-

leysi í sumum hlutum líkamans og ýmsum öðrum hysteriu-einkennum á líkama og sál. Þegar tekist hefir að ná þessum endurminningum burt, hefir sjúklingnum tafarlaust batnað.

En undirvitundin er ekki eingöngu ruslakista, og uppstreymið úr henni hefir ekki eingöngu meira og minna skaðlegar afleiðingar. Sálarfræðingar nútímans líta svo á, sem þar sé langmest af því, sem með manninum býr, og sérstaklega hið æðsta og göfugasta. Margir þeirra líta jafnvel svo á, sem undirvitund mannanna liggi alla leið inn í annan heim en þann efnisheim, sem við lifum í.

Sir Oliver Lodge, einn af hinum nafnkendustu núlifandi vísindamönnum Breta, líkir hinni almennu vitund við þann hluta af skipi, sem er niðri í sjónum, og undirvitundinni við alt annað af skipinu, og kemst svo að orði í kaflanum um undirvitundina í hinni heimsfrægu bók sinni: Man and the Universe: „Núverandi ástandi okkar má líkja við skipskrokk, sem umflotinn er af dökkum sjó, innan um margar kynlegar skepnur, og rekinn er áfram eins og af blindu afli; ef til vill þykir okkur metnaður að því, að utan á okkur safnist mikið af skeljum, svo sem til skrauts;

við gerum okkur ekki aðra grein ákvörðunarinnar en með því að reka okkur á vegginn að skipakvínni. Við höfum enga vitneskju um þilfarið, né farrýmin, né seglviðina, né seglin; við hugsum ekkert um sextantinn, né kompásinn, né skipstjórann; við berum ekkert skyn á vörðinn á siglutrénu, né sjóndeildarhringinn langt í burtu, né hluti, sem sjá má langt framundan, né hættur, sem þarf að varast, né önnur skip, sem talað er við með öðru móti en líkamlegri viðkomu; heimur sólskinsins og skýjanna, rúmsins, skynjunarinnar og vitsmunanna kemst alls ekki að þeim hlutum, sem niðri í vatninu eru.“ Þið sjáið á þessu, hve lítið hann gerir úr hinni almennu vitund í samanburði við þá hluti vitundarinnar, sem við gerum okkur ekki að jafnaði grein fyrir.

Tími vinst því miður ekki til þess að gera ykkur grein þess, sem þessi skoðun er reist á. Eg get að eins komið með fáeinar bendingar.

Til hafa verið og til eru menn, sem ekki hafa neina þekking á stærðfræði, og sumir þeirra hafa aldrei getað lært neitt í henni, en hafa samt getað, jafnvel á barnsaldri, sagt á svipstundu, hvað út ætti að koma í örðugum dæmum, án þess að, hafa hugmynd um, hvernig þeir færu að því. Einn, til dæmis að taka, sem hét Bidder, gat

umhugsunar og tafarlaust sagt, hvaða tölur gengju upp í hvað háum tölum sem hann var spurður um, svo sem að 17,861 sé = 337 × 53, og hann gat í huganum ákveðið logarithmus af hverri tölu sem var, þó að í henni væru 7 eða 8 tölustafir.

Annar hét Vito Mangiamele. Hann var smalamanns sonur frá Sikiley, og faðir hans hafði alls enga tilsögn getað látið veita honum. Af tilviljun komust menn að því, að hann gat einhvern veginn reiknað dæmi, sem ekki virtust verða reiknuð nema með töluverðri stærðfræðiþekkingu. Og þegar hann var 10 ára og 4 mánaða, var hann reyndur frammi fyrir franska akademíinu. Hann var spurður; „Hvað er kúbíkrótin af 3,796,416?“ Barnið svarað eftir nálægt ½ mínútu, að hún væri 156, sem er rétt. Næstu spurningu hefðu menn, eins og þeir gerast, svarað með því að reikna líkinguna $x^3 + 5x^2 — 42x — 40 = 0$. Barnið þurfti ekki eina mínútu til þess að svara því, að talan, sem um væri spurt, sé 5, sem er rétt. Til þess að svara þriðju spurningunni þurfti að reikna líkinguna $x^5 — 4x — 16779 = 0$. Nú þagði drengurinn 4 til 5 mínútur, og spurði þá, og var nokkurt hik á honum, hvort þetta mundi ekki vera 3. Honum var sagt, að það væri rangt, og þá kom hann eftir fáein augnablik með 7, sem

er rétt. Loks var fyrir hann lagt að draga í huganum 10. rótina af tölunni 282,475,249, og eftir skamma stund kom hann með 7, sem er rétt.

Þessir reikningar, eða hvað maður á nú að nefna það, geta ekki gerst í hinni almennu vitund. Þeir gerast í því, sem nefnt er undirvitund. Og útkoman ein streymir inn í almennu vitundina. Mennirnir vita, hvað á að koma út; en þeir vita ekki, hvernig á því stendur, að útkoman á að vera þessi, né hvernig þeir hafa fengið vitneskju um það.

Undirvitundin virðist koma allgreinilega fram hjá sumum rithöfundum og listamönnum. Eg ætla að taka til dæmis franskan leikritahöfund, sem heitir de Curel. Hann byrjar á ritum sínum með venjulegum hætti, nema ef vera skyldi að því leyti, að hann eigi örðugra með en alment gerist að komast af stað. Þá fer honum smátt og smátt að finnast eins og nokkurs konar persónur myndist hið innra með sér. Þetta eru persónur leiksins, og þær tala við hann. Hann sér þær ekki greinilega, en honum finst samt þær vera á hreyfingu á einhverju leiksviði — til dæmis í húsi eða garði — og hann sér leiksviðið líka óglögt, líkt og menn sjá í draumum. Nú finst honum ekki lengur hann vera að setja neitt saman eða

skapa, heldur sé starf sitt eingöngu bókmentaleg endurskoðun; persónurnar tala og starfa sjálfar, og þessi leikur heldur áfram hið innra með honum, þó að hann sé truflaður frá skriftunum, og eins meðan hann sefur. Stundum, þegar hann er úti á veiðum eða við eitthvert annað starf, og er ekkert að hugsa um leikinn, þá heyrir hann setningar úr þeim hlutum leiksins, sem hann er ekki farinn að fást við. Svo að undirvitundin virðist þar vera komin á undan hinni almennu vitund í leiksmíðinni. Nokkuð svipað er sagt af franska kvenhöfundinum George Sand, brezku höfundunum Charles Dickens og Robert Louis Stevenson, Norðmanninum Björnstjerne Björnson og ýmsum öðrum.

Loks ætla eg að láta mér nægja, að benda ykkur á Sókrates. Þessi mikli gáfumaður, maðurinn, sem lagði undirstöðuna að sjálfum vísindunum og siðfræðinni og talinn er ævarandi fyrirmynd heilbrigðrar skynsemi, skarprar greindar, líkamlegrar heilsuhreysti og siðferðilegs jafnvægis, lét í öllum efnum lífs síns stjórnast af vitsmunaafli, sem hann sjálfur taldi anda utan að við sig, en sálarfræðingar nútímans telja innstreymi úr undirvitund hans. Fullyrðingar hans um

þennan anda sinn voru honum gefnar að sök af óvinum hans; hann átti að dýrka aðra guði en þá, sem samborgarar hans dýrkuðu. Og hann var tekinn af lífi fyrir það, að hann var ófáanlegur til þess að taka neitt aftur, beint eða óbeint, um það mál. Þessi „andi“ Sókratesar gerði ekki annað en að vara hann við því, sem hann eða vinir hans máttu ekki gera. Þegar hann lætur ekkert á sér bæra, veit Sókrates æfinlega, að öllu er óhætt. Venjulegast eru þessar viðvaranir ekki annars eðlis en þess, að sennilegt var, að Sókrates hefði getað komist að sömu niðurstöðu við vandlegri íhugun. En fyrir kom það líka, að í þeim kom fram þekking, sem Sókrates hafði ekki getað fengið með neinum venjulegum hætti.

Einu sinni situr Tímarkus nokkur að kveldverði með honum, og stendur upp í miðju kafi. Hann ætlaði af stað til manndráps, og Sókrates gat ekkert vitað um þá fyrirhugun. Tímarkus segist verða að fara; en hann sé væntanlegur bráðum aftur, ef hann megi koma. Þá heyrir Sókrates viðvörunarröddina, og biður Tímarkus fyrir alla muni að fara ekki, segir, að andinn vari við því. Tímarkus sezt þá niður. Eftir dálitla stund stendur hann aftur upp, og segist nú verða að fara. Sókrates heyrði röddina aft-

ur, og fékk Tímarkus aftur til þess að fara ekki. Þriðja skiftið laumaðist Tímarkus burt, svo að Sókrates tók ekki eftir því, og steypti sjálfum sér í glötun.

Eg tók það áðan fram, að margir sálarfræðingar nútímans litu svo á, sem þessi undirvitund mannsins liggi alla leið inn í annan heim en þann efnisheim, sem við lifum í — með öðrum orðum, að hún geti orðið fyrir áhrifum frá öðru tilverusviði en því, sem bundið er við þennan efnisheim. Fleiri stoðir renna undir þá skoðun en þær, sem eg ætla að minnast á í kveld. Annars yrði eg að tala um aðrar hliðar á sálarrannsóknunum en þær, sem eg hefi gert að umtalsefni. En í því, sem eg hefi sagt ykkur, eru líka mikilsverðir máttarviðir undir þeirri skoðun.

Hvernig getum vér orðið fyrir þeim áhrifum, sem skilningarvitin ná ekki til? Hvernig getum vér fengið inn í oss hugsanir annara manna, án þess að þær fari skilningarvita-leiðina? Við vitum það auðvitað ekki. En við getum ekki með nokkuru móti gert oss neina grein þess, nema við hugsum oss að vitund mannsins sé að einhverju leyti óháð efnisheiminum. Sá hluti hennar er þá undirvitundin, eða einhver lög í henni, ef vér hugsum oss hana skifta, sem er lang-

sennilegast og virðist sannað með rannsóknum, sem eg get ekki gert grein fyrir nú. Undirvitundin er þá svo óháð efninu, að hún getur beint orðið fyrir áhrifum af krafti, sem er algerlega andlegur í eðli sínu, eins og hugsanirnar. Hvers vegna ættum vér þá, segja sálarfræðingarnir, að telja það óhugsandi, að hún geti orðið fyrir áhrifum af andlegum krafti, sem er allsendis óbundinn okkar efnisheimi — ef sá andlegur kraftur er til, með öðrum orðum, ef annar heimur en efnisheimurinn er til?

Nú komum við aftur að mystisku fyrirbrigðunum, sem þetta undirvitundartal spanst út af hjá mér. Þið munið eftir afturhvarfi Allines. Það gerist á einni svipstundu. Hin megnasta hugarkvöl breytist hjá honum, á einu augabragði að kalla má, í algleymisfögnuð. Sjálfur leit hann svo á, og margir trúaðir menn hafa litið svo á, sem slíkar skyndibreytingar væru kraftaverk beint frá guði, alveg utan við lög náttúrunnar, meðal annars fyrir það, hvað þær gerast með skjótri svipan. Einn af rithöfundum Ameríku talar jafnvel um slíkt afturhvarf sem meira kraftaverk en sköpun alls efnisheimsins. En í ljósi sálarrannsóknanna fær þetta alt annan blæ. Þær benda manni á, að í undirvitund mannanna hafi gerst mik-

ill, enginn veit hve langur, undirbúningur undir breytinguna, svo að skjótleikurinn sé ekki nema á yfirborðinu — að sínu leyti eins og þegar undirvitund de Curels er komin miklu lengra með leikritið en hann hefir sjálfur hugmynd um.

Og samkvæmt hinum nýju kenningum sálarfræðinnar verður það alls ekkert ótrúlegt, að mennirnir, sem lifað hafa þessar dýrlegu fagnaðarstundir, er menn eins og Alline og katólsku dulspekingarnir skýra frá, hafi í raun og veru sótt fögnuð sinn úr öðrum heimi, eins og þeir hafa jafnan haldið fram, hvort sem það hefir verið beint frá sjálfri alheimssálinni eða frá einhverjum milliliðum, sem hugsanlegt er að drottinn noti eins í hinum andlega heimi eins og efnisheiminum. En það verður ekki, eftir hinum nýja skilningi, kraftaverk fremur en önnur andleg fyrirbrigði, ekki fremur kraftaverk en hitt, sem er því alveg samstætt, að því er virðist, að mannsandinn getur sótt hugsanir beint í hug annars manns. Svo að þið sjáið, að fyrsta dularfulla hliðin á mætti mannsandans, sem eg mintist á við yður í fyrsta erindinu, hugsana-flutningurinn, dregur engan smáræðis dilk eftir sér í hugsunum sálarfræðinganna nú á tímum. Hugsana-flutn-

ingurinn lýkur upp fyrir mönnum skilningsútsýni inn á þau lönd mannlegrar reynslu, sem ekki hefir að eins verið mönnunum dularfylst, heldur og dýrmætust og fagnaðarríkust þeim, sem fyrir henni hafa orðið.

Eg gat þess í hinu fyrsta erindi mínu, að eg mundi, áður en lyki, víkja að þeim ályktunum, sem verið er að draga af þeirri vitneskju, sem eg hefi verið að skýra ykkur frá. Eins og þið heyrið, er eg nú kominn út í þær ályktanir. En eg verð að vera þar fáorður, eins og um annað, sem áhrærir þetta mikla mál, og sleppa mörgu, sem mig langar til að segja.

Einni ályktun verð eg samt að bæta við, af því að hún er yfirgripsmest þeirra allra. Flest ykkar hafa sjálfsagt heyrt nefnda efnishyggjuna, sem á útlendum tungum er nefnd materíalismi. Mér liggur við að segja, að þessi lífsskoðun hafi um nokkurn tíma verið einu trúarbrögð Vesturlandamanna, okkar Íslendinga eins og annara*.

Eg geri líka ráð fyrir, að mörg ykkar hafi heyrt, að þessum veraldar-trúarbrögðum sé að hnigna. Það er alveg satt. Þeim er að hnigna. Vísindamenn nútímans eru óðum

---

* Þessarar hugsunar er gerð nokkur grein í riti mínu „Lífi og dauða“ bls. 8—10.

að hverfa frá þeim. Og við hinir, sem ekki erum vísindamenn, erum að snúa við á eftir þeim. En hvernig stendur á því, að þeim er að hnigna. Hafa klerkar heimsins kveðið þau niður? Ekki mikið. Því fer svo fjarri, að þeir hafi fengið rönd við reist, að þeir hafa orðið fyrir nokkurn veginn eins miklum áhrifum af þessum trúarbrögðum og við hinir. Nei, það sem valdið hefir hnignun efnishyggjunnar er ekkert annað en athugun á þeim hliðum á mætti mannsandans, sem eg hefi verið að tala um við ykkur þessi kvöldin, og á öðrum hliðum hans, sem eg hefi ekki minst á. Ekkert annað hefir hnekt efnishyggjunni. Og ekkert annað hefði getað gert það.

Eg fer ekki að þessu sinni út fyrir þær hliðar, sem eg hefi ofurlítið talað um þessi kvöldin. Eg hefi bent ykkur á:

1. að mannsandinn sé gæddur þeim mætti, að geta látið hugsanirnar flytjast úr einum hug í annan, án þess að fara skilningarvitaleiðina;

2. að mannsandinn sé gæddur þeim mætti, að geta skynjað það, sem gerist eða er í meiri eða minni fjarlægð, án þess að líkamleg sjónfæri séu til þess notuð;

3. að mannsandinn sé gæddur þeim mætti, að geta læknað mein líkamans; og

4. að mannsandinn sé gæddur þeim mætti, að lækna mein hugans eða sálarinnar, að því er virðist með þeim hætti, að minsta kosti stundum, að sækja lækninguna, ánægjuna, fögnuðinn, sæluna inn á annað tilverusvið en það, sem efnisheiminum er háð.

Sé þetta alt rétt, — og sumt af því er beinlínis sannaðar staðreyndir, en sumt styðst við afarsterkar líkur, hvorttveggja, bæði sannanirnar og líkurnar, margfalt rambyggilegri en eg hefi getað sýnt ykkur þessar þrjár klukkustundir, sem eg hefi samtals við ykkur talað — sé þetta rétt, þá virðist vera bersýnilegt, að efnishyggjan er á alveg rangri leið. Tilveran hlýtur þá framar öllu öðru að vera andleg. Og líkurnar fara þá að verða í meira lagi miklar til þess, að mannsandinn hafi sjálfsagða tilveru, óháða efnisheiminum, og eins til hins, sem eg drap að eins á í upphafi fyrsta erindisins, að sumra lífsrótanna muni vera að leita miklu lengra en til þessarar jarðar, þeirra muni, með öðrum orðum, vera að leita inn á annað tilverusvið, inn í annan heim.

Svo að það er hvorki meira né minna, sem þessar athuganir á mætti mannsandans eru að gera, en að koma inn hjá mannkyninu lífsskoðun, sem er þveröfug við þá lífsskoðun, sem það nú hefir. Og þær eru að gera

hvorttveggja í senn, að staðfesta og ummynda þá lífsskoðun, sem vestrænu þjóðirnar inst í huga sínum voru farnar að telja úrelta, en öll trúarbrögð veraldarinnar hafa haldið fram með meira eða minna afli.

Eg tók það fram í uppahafi hins fyrsta erindis míns, að umtalsefni mitt þessi kvöldin yrði það, hvort ekki séu ástæður til að ætla, að mannsandinn muni komast lengra en hann hefir komist eftir öðrum brautum en hann hefir að jafnaði verið á, með öðrum orðum, hvort hann sé ekki gæddur öflum eða mætti, sem hann geti notað og sé alt annan veg farið en þeim mætti, sem oss er kunnugt um, að hingað til hafi fleytt honum áfram. Eg hefi bent ykkur á, að máttinn virðist ekki vanta. En að mjög miklu leyti eiga mennirnir eftir að læra að nota hann. Við grillum í það að sumu leyti, hvernig við förum að því að kæfa máttinn. Eg skal taka það til dæmis, að hafi hugarheilbrigði-mennirnir rétt að mæla, þegar þeir fullyrða, að reiðin og óttinn séu aðalrætur vansælunnar, þá er bersýnilegt, að við leggjum kappsamlega stund á að vera vansælir. Því að alt okkar samkepni-fyrirkomulag í atvinnumálum, stjórnmálum og öllum öðrum málum

er eins og úthugsað með það sérstaklega fyrir augum að halda við og æsa stöðugt reiðina og kvíðann.

En yfirleitt getum við sagt með sanni, að við þekkjum lítið til skilyrðanna fyrir því að færa okkur í nyt þann mátt andans, sem hér er um að tefla. Það virðist munu verða hið mesta og víðtækasta menningar-verkefni komandi kynslóða að fá vitneskju um þau skilyrði. Og þegar við hugsum um þær óhemju-framfarir, sem orðið hafa á mætti mannsandans, frá því er hann er að berjast áfram í afar-ófullkomnum líffærum, ef til vill úti í sjónum, og þangað til nú, þá þarf okkur í raun og veru ekkert að sundla við umhugsunina um framfarirnar, sem verða með uppgötvun þeirra skilyrða. Þegar þau verða að fullu fundin og mannkynið verður farið að nota sér þau, þá verður jörðin full af guðs dýrð. Og það hugsum við okkur sennilega öll, að henni sé ætlað að verða einhvern tíma.

## Draumar.

Alþýðuerindi, prentað í Skírni 1914.

---

Eins og þið öll vitið, eyða mennirnir nálægt þriðjungi æfi sinnar í svefni, sumir nokkuru meira en sem því svarar, fæstir öllu minna til jafnaðar. Það starf sálarlífsins, sem okkur er kunnugt um, að gerist í þessu ástandi, nefnum við drauma.

Á öllum öldum hefir mönnum þótt mikils vert um þetta starf sálarlífsins. Það hefir átt mikinn þátt í trúar- og hjátrúar-hugmyndum manna. Þegar mennirnir standa á barnslegu þroskastigi, hættir þeim við að telja það jafn-verulegt, sem gerist í draumum, eins og það, sem gerist í vöku, eftir því sem fullyrt er um sumar þær þjóðir, sem enn eru til og skamt eru á veg komnar. Til dæmis eru menn í draumum þráfaldlega samvistum við framliðna menn. Það hefir orðið hin mesta styrking ódauðleikatrúnni. Svefninn hafa menn nefnt „bróður dauðans“ af því, hve mönnum hefir virzt sofandi mannslíkaminn svipaður líki. En

þegar menn hafa vaknað, hafa þeir haft miklar sögur að segja um það, sem fyrir sig hafi borið í þessu ástandi, stundum í miklum fjarlægðum frá líkamanum. Þetta, meðal annars, hefir sjálfsagt orðið til þess, að menn fóru að hugsa sér, að einhver skynjandi vera væri í líkamanum, gæti farið burt úr honum í svefni, og gæti haldið áfram að lifa, þótt líkaminn tortímdist. Auðvitað hefir það og styrkt þennan skilning, að menn hafa á öllum öldum þózt komast að raun um, að stundum mætti í draumum fá vitneskju um óorðna hluti. Þá vitneskju hafa menn sett í samband við æðri verur, sem gerðu mönnum kunnugt um það, er þeir gætu ekki fengið að vita af eigin ramleik. Langoftast var, eftir því sem menn héldu, sú vitneskja ekki bein og óbrotin, heldur eins og falin í hinum og öðrum táknum. Til þess að þýða þau tákn, ráða draumana, þurfti sérstaka þekkingu og mikla vitsmuni, eða jafnvel stundum guðdómlegan innblástur. Í því efni þarf ekki annað en minnast draumanna í ritningunni og í Íslendingasögunum. Jósep verður æðstur ráðherra í Egiptalandi, af því að hann getur ráðið drauma. Og hér á landi var þeim mönnum einum trúað til draumaráðninga, sem vitrastir voru.

Vísindi þau, sem langmest hafa mótað

hugi Vesturlandaþjóðanna á síðustu öld og fylt þá þeirri lífsskoðun, sem nefnd er efnishyggja (materialismi), hafa mjög unnið að því, að menn hafi hætt að taka mark á draumum.

Ef við skygnumst eftir fróðleik um drauma í almennum fræðibókum, eins og t. d. Salmonsens store illustrerede Konversations-Lexikon, þá sjáum við, að um draumana er þar nær því eingöngu talað frá neikvæðu sjónarmiði — með öðrum orðum, okkur er þar ekki skýrt frá öðru en því, hve drauma-ástandið sé miklu ófullkomnara en vökuástandið. Okkur er skýrt frá því, sem vitanlega er rétt, hve mjög hin sjálfráða vitundarstarfsemi, athyglin, veikist, eða að hún hverfi með öllu, svo að sofandi maður getur ekki fest hugann við hugmyndirnar eða haft stjórn á hugarstefnunni, og draumarnir verða fyrir því að stökki úr einu í annað og einum hringlanda. Af þessum athygliskorti kemur það líka, eftir því sem prófessor Alfred Lehmann lítur á í bókinni, sem eg nefndi áðan, að í draumum getur stundum komið fram furðu mikið hugsjónaflug. Af sama skortinum stafar það ennfremur, hve lítið sofandi maður verður fyrir áhrifum á skilningarvitin, og hve litla

meðvitund hann hefir um sjálfan sig. Og trúin á það, að draumar geti boðað óorðna hluti, er kveðin niður með þeirri staðhæfing, að hún stafi af endurminninga-blekking. Af því að draumarnir séu svo hringlandalegir og sundurlausir, sé alt að því ókleift að muna þá nákvæmlega, og þegar eitthvað komi fyrir, sem líkist draumi, er mann hafi dreymt, þá komi sá draumur fram í minninu að meira eða minna leyti breyttur, og með þeim hætti geti virzt svo, sem drauminn hafi verið að marka.

Þann veg hafa þeir menn á draumana litið, sem mest áhrif hafa haft á hugsunarháttinn. Og af sama toga hefir það verið spunnið, sem merkur og gáfaður íslenzkur vísindamaður hefir lagt til umræðna, sem orðið hafa hér á landi um nokkura drauma í fornsögunum okkar. En eg hefi valið mér þetta umtalsefni nú, til þess að benda ykkur á, að á síðari árum hafa farið fram rannsóknir á draumum með vísindalegri nákvæmni, og að þær rannsóknir hljóta að breyta til muna skilningnum á þessari hlið á sálarlífi mannanna. Það er Sálarrannsóknafélagið brezka, (Society of Psychical Research), sem staðið hefir fyrir þeim rannsóknum. Og þeirra er gerð ágæt grein í hinni heimsfrægu bók eftir F. W. H. Myers um

Persónuleik mannsins. Höf. flokkar þar merkisdraumana af hinni mestu skarpskygni. Og eftir hans flokkaskipun fer eg með það, sem mig langar nú til að segja ykkur. Því miður get eg svo undur lítið sagt ykkur af því, sem hann segir. Hann segir 50 drauma, sem allir eru nokkuð sinn með hverju móti, sýna einhverja sérstaka hlið á draumalífinu. Eg get ekki sagt nema örfáa. En þá fáu drauma, sem eg ætla að segja ykkur, tek eg alla úr bók hans. Eg verð að sleppa sönnunum, sem færðar eru að því, að sögurnar séu sannar, verð að láta mér nægja að benda ykkur á, að engin saga hefir verið tekin í það safn nema eftir nákvæma rannsókn á því, hvort hún sé sönn — og annars að vísa til bókarinnar sjálfrar, sem nú má að minsta kosti fá á þrem tungum, ensku, frönsku og dönsku.

Myers byrjar á því, að benda mönnum á, að eftir þær rannsóknir, sem fram hafa farið, sé eitt tafarlaust bersýnilegt: að við getum ekki talað um svefninn — eins og hingað til hefir verið um hann talað — eingöngu frá neikvæðu sjónarmiði. Við getum ekki látið okkur nægja það, sem almennar fræðibækur gera, að fjölyrða eingöngu um þá vöku-hæfileika, sem vantar, hvernig skynjunin út á við dvínar,

hvernig stjórn skynseminnar hverfur. Við verðum líka að tala um svefninn frá j á - k v æ ð u sjónarmiði, líta á hann, að svo miklu leyti, sem við getum, sem ákveðna hlið á persónuleik okkar, jafnstæða vökuhliðinni. Sumt af því, sem í svefninum gerist, er alveg sérstaks eðlis; því verður ekki jafnað saman við neitt, sem fyrir okkur kemur í vökunni. Og alveg víst er það, að draumarnir eru ekki æ f i n l e g a yfirborðsruglingur liðinnar vöku-reynslu, þó að þeir séu það tíðast, heldur býr í þeim sérstakur máttur, fenginn úr einhverju því djúpi tilveru okkar, sem við náum ekki til í vöku.

Alveg sérstaks eðlis eru, til dæmis að taka, þau áhrif svefnsins, sem okkur eru öllum kunnust, hressingin, sem honum fylgir. Við höfum sennilega öll reynt það, þó að enginn viti, hvernig á því stendur, að það eitt, að við blundum allra-snöggvast, að okkur að eins hverfur hugur, það getur hrest okkur og styrkt meira en margra klukkustunda hvíld í vöku gæti gert. Eftir einnar eða tveggja sekúnda svefn getum við jafnvel litið alt öðrum augum á tilveruna en við gerðum áður. Þá er sýnilegt, að eitthvað er að gerast annað eða alt annan veg en ella, þó að við vitum ekki, hvað það er.

Venjulega höfum við, eins og ykkur er öllum kunnugt, ekkert vald á líkama okkar í svefninum. En líka kemur það fyrir suma menn, að þeir hafa margfalt meira vald á líkamanum í svefni en í vöku, geta sofandi farið um hættulega staði, sem þeir gætu ekki með nokkuru móti í vöku.

Stundum vaxa hæfileikarnir í svefni frá því sem þeir eru í vöku. Einn af helztu rithöfundum Breta á síðari hluta síðustu aldar hét Robert Louis Stevenson. Hann gerði tilraunir með drauma sína, sem engum hafa tekist jafn-vel. Honum tókst að láta sig dreyma sýnir, sem urðu að efninu í sumum beztu sögum hans. Sömuleiðis kemur það fyrir, að menn ráða í draumum gátur, sem þeir hafa verið að glíma við í vöku, og ekki getað ráðið við. Menn hafa, til dæmis að taka, uppgötvað í draumi bókfærsluvillur, sem þeir voru uppgefnir við að finna, og reiknað stærðfræðidæmi, sem þeir hafa enga hugmynd haft um í vöku, hvernig þeir ættu að reikna. Eitt dæmi um afburða-skarpskygni í draumi er svo merkilegt og einkennilegt, að eg get ekki stilt mig um að segja ykkur ágrip af sögunni. Hún er líka hentug til þess að athuga frá einni hlið, hvernig vísindamenn nútímans líta á drauma.

Dr. Hermann V. Hilprecht er prófessor í Assýríufræðum við Pensylvaníu-háskólann. Hann hefir verið samverkamaður hins nafnkunna, þýzka Austurlanda-fornfræðings, prófessors Friedrichs Delitzsch. Í marzmán. 1893 var hann að berjast við að komast fram úr letri á tveimur agatsteinabrotum, sem hann hélt, að væru úr fingurhringum einhverra fornmanna í Babýloníu. Örðugleikarnir voru miklir. Á þessum steinabrotum voru ekki eftir nema partar af stöfum. Fjöldi af slíkum brotum hafði fundist í rústum eftir Belsmusteri eitt, og af þeim höfðu menn engis orðið vísari. Og dr. Hilprecht hafði ekki einu sinni steinana sjálfa, heldur skynditeikningar, sem gerðar höfðu verið af þeim. Steinarnir voru í forngripasafni í Miklagarði. Hann gefst alveg upp við steinana, nema hvað hann þykist sjá, bæði af því, hvar þeir fundust, og af stafagerðinni, að þeir mundu vera frá tímabilinu 1700—1140 f. K. Hann er að gefa út bók um fornmenjarannsóknir þar austur frá, og prófarkirnar liggja fyrir framan hann. Þar minnist hann á þessa steina, sinn á hvorum stað í bókinni, og getur ekkert frekara með þá komist. Um miðnætti fer hann að hátta, örþreyttur eftir þessi heilabrot, og sofnar fast. Þá dreymir hann, að til sín komi hár og grannur Baby-

loníu-prestur, um fertugt, fari með sig inn í fjárhirzlu musterisins, suðaustan-megin í því, og segi sér, að steinabrotin, sem hann hafi ritað um á bls. 22 og 26, eigi saman og séu ekki úr fingurgullum, heldur standi svo á þeim, að einu sinni hafi Kurigalzu konungur (sem var uppi um 1300 f. K.) sent musteri Bels ýmsa muni úr dýrum steinum, þar á meðal áletraðan áheitis-sívalning úr agatsteini. „Þá fengum við prestarnir“, segir draummaðurinn, „alt í einu skipun um að búa til eyrnahring úr agatsteinum handa líkneskju guðsins Ninib. Við vorum í standandi vandræðum, því að engir óunnir agatsteinar voru við höndina. Til þess að hlýðnast þessari skipun, höfðum við engin önnur ráð en að skifta áheitis-sívalningnum í þrent. Úr honum bjuggum við til 3 hringa, og á öllum þeirra var nokkuð af letrinu. Fyrstu 2 hringarnir voru settir í eyrun á líkneskjunni; brotin 2, sem hafa valdið þér svo miklum heilabrotum, eru partar úr þeim. Ef þú heldur þeim saman, muntu komast að raun um, að eg segi satt. En þriðja hringinn hafið þið ekki fundið, og hann finnið þið aldrei“. Að svo mæltu hvarf presturinn. Dr. Hilprecht vaknar og segir konu sinni drauminn samstundis, til þess að gleyma honum ekki. Og daginn eftir getur hann lesið letrið, með

því að setja teikningarnar saman. Á steininum hafði staðið: Guðnum Ninib, syni Bels, drottins hans, hefir Kurigalzu, æðsti prestur Bels, gefið þetta.

Enn var einn örðugleiki eftir. Eftir lýsingunni á steinunum voru þeir sinn með hvorum lit. Þess vegna hafði engum dottið í hug, að þeir ættu saman, enda mjög ólíklegt. En sumarið 1893 var dr. Hilprecht sendur til Miklagarðs til fornmenjarannsókna í safni soldáns þar. Þar voru steinarnir. Engum fornfræðingum þar hafði enn komið til hugar, að þeir ættu saman. En nú gengu allir úr skugga um það, og eins, að minsta kosti nokkurn veginn, um það hvorttveggja, að þeir hefðu upprunalega verið áheitis-sívalningur, og að síðar hefði verið gerður úr þeim eyrnahringar. Um litinn á brotunum er það að segja, að steinninn hafði verið mislitur og sagaður sundur um litaskiftin.

Hér eru 6 atriði, sem vitneskja fæst um í draumnum: 1. að brotin eigi saman; 2. að þau séu brot úr áheitis-sívalningi; 3. að Kurigalzu konungur hafði gefið sívalninginn; 4. að hann hafi verið gefinn guðnum Ninib; 5. að eyrnahringar hafi verið búnir til úr honum; 6. að fjárhirzlan hafi verið suðaustan-megin í musterinu.

Myers segir, að enginn önnur kynslóð en

þessi mundi hafa efast um, að Babyloníu-presturinn muni í raun og veru hafa komist í samband við dr. Hilprecht og veitt honum þá vitneskju, sem hér er um að tefla. En ekki kemur honum til hugar að skýra málið þann veg, né þeim vísindamönnum öðrum, sem við þessar rannsóknir fást. Um 5 fyrstu atriðin segja þeir, að þau séu öll þess eðlis, að prófessor Hilprecht hefði getað komist að þeim í vöku, enda hafi gert sams konar uppgötvanir vakandi. Hitt er ómótmælanlegt, að vitsmunir hans hafa þetta sinn, hvernig sem á því stendur, notið sín betur í svefninum en í vökunni, enda telja menn þarna náð hámarki þess ályktana-skarpleika, sem menn vita dæmi til í draumum. Og svo hefir jafnframt ímyndunaraflið, sem leikur svo lausum hala í draumum, sem öllum er kunnugt, búið til prestinn.

Um 6. atriðið — afstöðu fjárhirzlunnar í musterinu — er það að segja, að prófessor Hilprecht hafði enga hugmynd um hana, þegar hann dreymdi drauminn. Hann grenslaðist eftir þessu, og þetta atriði reyndist rétt, eins og hin. En jafnframt sannaðist það, að honum hafði tveim árum áður verið sagt, hvar þetta fjárhirzlu-herbergi hefði fundist í musterisrústunum. Hann hafði steingleymt því. En í þeim lögum vitundar-

innar, sem nefnt er undirvitund, hefir það geymst, og runnið upp þaðan í draumnum. Það fyrirbrigði virðist vera nokkuð algengt.

Draumarnir toga meira upp úr undirvitundinni en gleymd atvik; þeir koma líka þaðan með athuganir, sem aldrei hafa komist inn í hversdagsvitundina, eingöngu hafa verið gerðar af undirvitundinni. Menn þykjast sem sé hafa komist að raun um, að eitthvað í okkur athugar stundum betur en við vitum. Eg hefi ekki tíma til að gera grein þess, hvað menn hafa fyrir sér í því efni, verð að láta mér nægja að segja ykkur ágrip af tveimur draumasögum, sem skýrðar eru þennan veg.

Nærsýnn maður, að nafni Lewis, í Cardiff í Wales, á að taka á móti skipsfarmi. Uppskipunin átti að byrja kl. 6 að morgni. Hann fær skjölin, sem til þess þarf, að fá vörurnar, kl. 4 síðd. deginum áður, og fer með þau 2 stundum síðar í tollhúsið. En þegar hann ætlar að sýna þau þar, hefir hann týnt þeim. Hann leitar vandlega í tollhúsinu og finnur þau ekki, fer heim mjög áhyggjufullur, og er hræddur um að missa stöðu sína fyrir þennan klaufaskap.

Þá dreymir hann um nóttina, að hann sjái skjölin í rifu í múrnum undir skrifborði í tollhúsinu.

Hann fer kl. 5 morguninn eftir til tollhússins, vekur umsjónarmanninn og fær hann til að opna húsið. Hann gengur að staðnum, sem hann hafði dreymt. Þar eru skjölin. Og uppskipunin gat byrjað á réttum tíma.

Það sannaðist eftir á, að Lewis hafði leitað einmitt þarna undir borðinu, þar sem skjölin fundust. Og skýring vísindamanna á draumnum er sú, að í þeirri leit hafi undirvitund mannsins skynjað skjölin, þó að hversdagsvitund hans yrði þeirra ekki vör.

Hin sagan er á þessa leið: Ekkjumaður býr á búgarði sínum í Massachusetts, og á 4 börn, 1 dreng og 3 stúlkur. Drengurinn deyr af slysi um 14 ára gamall. Systur hans hafa verið mjög samrýndar honum, en yngsta systirin, sem var 8—9 ára gömul, þegar hann andaðist, hefir verið eftirlætisgoðið hans. Einu sinni kaupir faðir þeirra ofurlitla hnífa, um 2½ þuml. á lengd, handa systrunum. Þetta var fyrsti hnífurinn, sem yngsta systirin eignaðist, og henni þótti svo mikið í hann varið, að hún skildi hann aldrei við sig.

Nokkurum dögum eftir að systurnar fengu hnífana, og um 6 mánuðum eftir andlát drengsins, komu nokkurar telpur að heimsækja þær, og allur hópurinn fer út í

hlöðu að leika sér. Þar var mikið um hey og telpurnar ólmuðust uppi á heyinu. En í þessum leik tókst svo illa til, að minsta heimatelpan týndi nýja hnífnum sínum. Allar telpurnar fóru að leita að honum, en fundu hann ekki, og eigandinn var óhuggandi. Telpurnar skildu um kveldið raunamæddar, og þó að faðirinn neytti allra bragða til að hugga barnið, sem týnt hafði hnífnum, þá fór hún grátandi í rúmið.

Um nóttina dreymir barnið, að bróðir hennar komi til hennar, taki í höndina á henni og segi: „Komdu með mér, góða; eg ætla að sýna þér, hvar hnífurinn þinn er.“ Þá leiðir hann hana út í hlöðuna, klifrar með henni upp á heyið, sýnir henni hnífinn og lætur hana festa sér staðinn í minni.

Telpan vaknar um morguninn, full af fögnuði, og segir systrum sínum, að bróðir þeirra hafi komið til sín um nóttina og sýnt sér, hvar hnífurinn sé. Systur hennar fara að hlæja að henni, en hún er friðlaus eftir að fara að leita að hnífnum, og alveg sannfærð um, að hún viti, hvar hann sé. Svo að þær klæða sig í snatri, og önnur systir hennar fer með henni út í hlöðuna. Hún gengur rakleiðis þangað, sem bróðir hennar hafði vísað henni til. Og þar liggur hnífurinn ofan á heyinu.

Skýring vísindamanna er hér hin sama eins og á draum mannsins, sem týnt hafði uppskipunarskjölunum. Telpan hafði leitað að hnífnum um alt heyið. Hversdagsvitund hennar hafði sést yfir staðinn, þar sem hann liggur, en undirvitundin tekur eftir honum, og getur ekki komið vitneskjunni inn í hversdagsvitundina annan veg en í svefni.

En nú get eg hugsað mér, að einhverjum verði að spyrja: Hvers vegna á að vera að demba þessu öllu á undirvitundina, sem við vitum lítið um! Ef fjarskygnin er sönnuð, hvers vegna gat þá ekki verið um hana að tefla, þegar Lewis sá í draumi skjölin, sem hann hafði týnt, eða þegar stúlkan sá hnífinn sinn í heyinu? Og eg get líka hugsað mér, að sumir spyrji enn fremur: Ef mennirnir lifa eftir dauðann og ef tekist hefir að ná einhverju sambandi við þá framliðna, eins og svo margir vísindamenn telja nú sæmilega vel sannað, hvers vegna þá ekki að fara einföldustu leiðina og hugsa sér, að Babylóníupresturinn hafi í raun og veru talað í draumi við prófessor Hilprecht, og að framliðni drengurinn hafi í raun og veru sagt og sýnt systur sinni, hvar hún mundi finna hnífinn sinn?

Mér finnast spurningarnar skynsamlegar,

og eg skal leitast við að svara þeim, þó að ekki geti það orðið annan veg en í mjög stuttu máli.

Og fyrst er þá líklegast réttast að taka það fram, að menn vita töluvert meira um undirvitundina en nokkur von er til að alþýðu manna sé enn kunnugt um.* Undirvitundin er svo ramlega sönnuð með tilraunum, að um hana er, mér vitanlega, alls ekki deilt. Svo að vísindamennirnir kveinka sér ekkert við að leita til hennar um skýringar — sennilega nokkuð oftar en alveg er rétt.

Og svo er annars að gæta: Ef þið athugið þessa drauma, og þær skýringar, sem eg hefi nú sagt ykkur frá, þá sjáið þið, að þeir hæfileikar, sem koma fram í draumunum, eru sama eðlis eins og almennir hæfileikar mannanna. Það er ófrávíkjanleg regla vísindamanna að skýra alt í því ljósi, svo lengi sem það er með nokkuru móti unt. Fjarsýnin og hæfileikinn til þess að veita hugsunum viðtöku, öðru vísi en gegnum skilningarvitin, og fleiri þess konar eiginleikar, eru alt annars eðlis, og til þeirra er ekki gripið til skýringar, fyr en ókleift er að heimfæra fyrirbrigðin til hinna almennu hæfileika mannanna. Og menn líta að sjálf-

---

* Sjá hér að framan bls. 131—140.

sögðu svo á, sem sú skýring, að samband hafi fengist við framliðna menn, hverrar tegundar sem það samband er, og hvort sem það er í vöku eða svefni, standi enn fjær, svo að til þeirrar skýringar er ekki gripið, fyr en a l t annað þrýtur — bæði venjulegir og óvenjulegir hæfileikar mannanna. Svo að gangurinn verður eðlilega þessi, hvort heldur er um merkilega drauma að tefla, eða önnur torskilin fyrirbrigði, sem reka menn út úr hinum algengu skýringum, að fyrst er undirvitundar-skýringin teygð svo langt, sem hún þolir; þegar henni sleppir, eru fyrirbrigðin skýrð með fjarsýni, hugsana-flutningi og öðru þess konar, svo lengi sem þess er nokkur skynsamlegur kostur — og sumum finst töluvert lengur; og þegar alt annað þrýtur, er leitast við að skýra fyrirbrigðin með tilgátunni um einhvers konar samband við annan heim. Það er allra-síðasta athvarfið. Eg skal ekkert um það segja, hvað réttar skýringarnar sumar verða með þessari aðferð. Eg er að eins að benda ykkur á, að þessi e r aðferð þeirra vísindamanna, sem við þessi efni eru að fást. Og með varfærninni, sem í þessu er fólgin, hafa þeir gert rannsóknirnar vísindalegar, og fengið mentaðan heim til þess að taka vel eftir þeim.

En við getum ekki numið staðar við þá drauma eina, sem benda á aukna almenna hæfileika. Þar kemur líka fram önnur tegund hæfileika, fyrirbrigði, sem við gætum ef til vill heimfært til fjarskynjunar einu nafni. Menn skynja, eins og með öllum skilningarvitunum, þó að ekkert þeirra sé notað, fjarlæga staði og fjarlæga atburði; og menn verða, beinlínis eða óbeinlínis, greinilega eða ógreinilega, varir við hugsanir og tilfinningar fjarlægra manna. Eg get því miður lítið gert í þetta sinn annað en vakið athygli á þessu alment. Enda eru skýringarnar á þess konar draumum flóknari en þeir fá gert sér í hugarlund, sem ekki hafa kynt sér málið. Þær flækjast til muna við það, að oft er ókleift að gera sér grein þess, hvað er t. d. fjarsýni og hvað er hugsana- og tilfinninga-flutningur. Eg skal segja ykkur eina, mjög einfalda, sögu til skýringar.

Merkur enskur prestur, Warburton að nafni, segir hana. Hann fer til Oxford að heimsækja bróður sinn, sem var lögmaður. Bróðir hans á von á honum. Og þegar presturinn kemur inn í stofur hans, sér hann miða á borðinu. Lögmaðurinn biður þar afsökunar á því, að hann sé ekki heima, og komi ekki fyr heim en einhvern tíma eft-

ir kl. 1, því að hann hafi farið á dansleik. Þetta er um kveldið. En prestur fer ekki að hátta, heldur sezt í hægindastól og sofnar þar. Hann hrekkur upp kl. 1 við það, að hann hefir þózt sjá bróður sinn koma út úr samkvæmissal, fram á bjartan stigagang, detta í efstu tröppunni á stiganum, hrapa áfram og bjargast við það, að hann kemur fyrir sig höndunum og olnbogunum. Honum þykir einskis vert um þetta og sofnar aftur. Eftir hálfa klukkustund kemur bróðir hans inn, og segist aldrei hafa verið í annari eins hættu við að hálsbrotna eins og nú. Þegar hann hafi komið út úr danssalnum, hafi hann rasað og hrapað ofan allan stigann.

Er þetta nú fjarsýni eða hugsana-flutningur? Hefir presturinn í raun og veru séð atburðinn í draumnum? Eða hefir hann fengið hugmyndina um hann inn í hugann frá hugsun bróður síns, þegar hann hrapar? Enginn getur vitað það, með þeirri þekkingu, sem menn hafa enn fengið á slíkum efnum. Hitt eitt vita menn, að hann dreymir atburðinn, á því augnabliki, sem hann er að gerast, að því er virðist, og alveg eins og hann gerist. Eða er einhver andlegur leyniþráður milli bræðranna. Hefir maðurinn, sem hrapaði, kipt í þennan þráð með geðshræringunni og

eins og rykt bróður sínum til sín, svo að hans andlegi hluti hafi í raun og veru komið á staðinn, um leið og atburðurinn gerðist? Svarið verður, eins og svo oft endranær í þessum efnum: Við vitum það ekki.

En ekki er það nein ný kenning, að andar sofandi manna séu á ferðinni í draumum. Því hefir verið trúað á öllum öldum. „Á steinöldinni," segir Myers, „hefði ekki verið hættulaust að dirfast að mótmæla því. Og þó að eg kannist við það, að þessi „steinaldar-sálarfræði" sé ekki í samræmi við tízkuna fáeinar síðustu aldirnar, þá held eg ekki (eftir þeim fjarskynjunar-sönnunum, sem safnað hefir verið), að við getum vísað á bug, sem afkáralegu draumarugli, þessari hugsun, sem altaf kemur aftur og aftur, að menn komi á fjarlægar stöðvar í svefni — og fái þar vitneskju um staðreyndir, sem menn geta ekki komist að öðru vísi." — Að minsta kosti virðast tveir draumar, sem eg ætla nú að segja ykkur, benda í þá áttina.

Maður er á ferð um nótt á Englandi í járnbrautarlest. Um morguninn á hann að koma á stöðina, þar sem hann á heima. Hann er einn í klefa, biður lestarþjón að vekja sig á járnbrautarstöð sinni, leggur sig út af og sofnar fast. Þegar þjónninn kemur

að vekja hann, er hann að dreyma, að það sé morgun, að hann sé kominn heim til sín, í svefnherbergi sitt, að hann sé að klæða sig, að hann fari fram að stigagatinu, að hann kalli tvisvar á vinnukonuna með nafni, og biðji hana að koma með heitt vatn.

Þegar hann kemur heim til sín, er honum sagt, að einmitt á þeirri stund, sem hann var að dreyma þennan draum, hafi vinnukonan heyrt kallað á sig ofan af loftinu, hafi greinilega heyrt kallað á sig tvisvar. Hún heldur, að það sé húsbóndinn, sem er að kalla á hana, man ekki í svipinn eftir því, að hann er ekki heima, hættir við það, sem hún er að gera, og þýtur upp á loft. En hún kemur ofan náföl, og er ilt af hræðslu; því að enginn hefir verið uppi.

Hinn drauminn dreymdi enskan prest, sem hét Newnham, og er nafnkendur fyrir mjög merkar rannsóknir á hugsana-flutningi. Hann er þá við háskólanám og er trúlofaður stúlku, sem síðar varð konan hans. Eitt kveld fleygir hann sér útaf í fötunum um kl. 9 með óþolandi höfuðverk og sofnar. Hann dreymir þá, að hann sé staddur hjá fjölskyldu unnustu sinnar, sé inni í stofu hjá tengdaforeldrum sínum tilvonandi, en að unnusta hans sé farin upp á loft, að hann heldur. Svo býður hann foreldrum

hennar góða nótt, og ætlar upp á loft til þess að hátta. En þegar hann kemur fram í forstofuna, verður hann þess var, að unnustunni hefir dvalist niðri, og að hún er ekki komin lengra en ofarlega í stigann. Hann þýtur þá upp stigann, nær henni á efsta þrepinu og tekur báðum handleggjunum utan um mittið á henni. Nú vaknar hann, og kl. í húsinu sló 10 rétt á eftir. Draumurinn var svo lifandi í huga hans, að hann skrifaði unnustu sinni hann nákvæmlega morguninn eftir.

En unnustan skrifar líka honum um morguninn, áður en hún fær hans bréf, og segir í bréfinu: „Varstu nokkuð að hugsa óvenjulega mikið um mig í gærkveldi rétt um kl. 10? Eg spyr að því vegna þess, að þegar eg var á leiðinni upp á loft til að hátta, heyrði eg greinilega fótatak þitt í stiganum, og fann, að þú tókst með báðum handleggjunum utan um mittið á mér.“

Með þeim hugsunarhætti, sem flestum nútíðarmönnum hefir verið innrættur, er það óneitanlega nokkuð kynlegt að hugsa sér, að menn skynji það í draumi, sem er að gerast í fjarlægð. Enn kynlegra er þó að hugsa sér, að menn geti skynjað það í draumi, sem h e f i r gerst, og maður veit ekkert um. Til þess að skýra það fyrirbrigði,

er venjulega gripið til hugsana-flutningsins. Menn hugsa sér, að vitneskjan um hinn liðna atburð komist inn í drauminn úr huga einhvers annars manns. En þaðan af kynlegra er að hugsa sér, að menn geti orðið varir í draumum við þá atburði, sem gerst hafa, og enginn lifandi maður veit að hafa gerst. Hvaðan kemur þá vitneskjan? Sálarrannsóknafélagið hefir skrásett og rannsakað fjölda af sögum í þá átt. Eg skal segja ykkur ágrip af einum af þeim draumum.

Kona nokkur, frú Storie að nafni, í Hobart Town í Ástralíu, fer að hátta að kveldi hins 18. júlí 1874, og kann eitthvað illa við sig. Henni fanst eins og einhver væri í herberginu, sem hún gat ekki séð, og þegar hún er að fara upp í rúmið, fanst henni einhver vera með hugsun að varna sér þess. Kl. 2 vaknar hún eftir draum, sem var eins og einlægar lausasýnir. Fyrst sér hún bregða fyrir ljósi, og í því ljósi sér hún járnbraut og eimreið á ferðinni. Hún hugsar með sér: „Hvað er þarna að gerast? Er þetta eitthvert ferðalag? Ætli einhver af okkar fólki sé að ferðast þarna og mig sé að dreyma það?“ Þá svarar einhver, sem hún sér ekki: „Nei; það er nokkuð alt annað — nokkuð öðruvísi en það á að vera.“

„Mér fellur illa að horfa á þetta,“ sagði konan þá í svefninum. Þá sér hún fyrir aftan og ofan höfuðið á sér efri partinn af líkama Vilhjálms bróður síns hallast aftur á bak; augun og munnurinn eru hálflokuð; bringan belgist út, eins og hann hafi krampa, og hann lyftir upp hægra hendleggnum. Þá beygir Vilhjálmur sig áfram og segir: „Eg ætti víst að komast út úr þessu.“ Næst sér hún hann liggja með lokuðum augum, flatan á jörðinni. Eimreiðarstrompur var við höfuðið á honum. Hún kallar upp í geðshræringu: „Þetta rekst í hann.“ Þessi einhver, sem hún hafði áður heyrt til, segir þá: „Já — jæja, hérna var það.“ Og í sama bili sér hún Vilhjálm sitja úti undir beru lofti í daufu tunglsljósi utan í einhverjum hrygg. Hann réttir upp hægri handlegginn, skelfur og segir: „Eg kemst ekki áfram og ekki heldur aftur á bak. Nei.“ Þá þóttist hún sjá hann liggja flatan. Hún hljóðar upp yfir sig: „Ó, ó!“, og henni fanst aðrir taka undir það, og segja líka „Ó, ó!“. Þá þóttist hún sjá Vilhjálm rísa upp á olnboganum og segja: „Nú kemur það.“ Næst er eins og hann sé að berjast við að standa upp; hann snýr sér tvisvar við snögglega og segir: „Er það lestin! lestin, lestin,“ og hægri öxlin á honum kastast til, eins og hún

hefði fengið högg að aftan. Hann hnígur aftur á bak eins og í yfirliði; augun ranghvolfast. Einhver dökkur hlutur lendir milli þeirra, eins og timburþil, og henni finst eitthvað velta um í hálfmyrkri og eins og handleggur kastist upp, og þá sendist alt á burt. Rétt hjá henni verður þá einhver langur, dökkur hlutur á jörðinni. Hún kallar: „Þeir hafa skilið eitthvað eftir; það er líkt manni.“ Þá reisti það upp höfuð og herðar og hneig aftur niður. Þessi sami e i n h v e r játaði því. Augnabliki síðar finst henni kallað til sín að líta upp, og hún segir: „Er þetta enn ekki farið?“ Henni er svarað: „Nei.“ Og fram undan henni sér hún í ljósi inn í járnbrautarvagn, og hún sér þar prest, sem hún þekkir, Johnstone. Hún spyr, hvað hann sé að gera þarna. Henni er svarað: „Hann e r þarna.“ Loks þykir henni þessi e i n h v e r segja rétt hjá sér: „Nú er eg að fara.“ Hún hrekkur við og sér í einu: háan dökkan mann við höfuðið á sér og bakið á Vilhjálmi við hlið sér. Vilhjálmur tók hægri hendinni um andlit sér, eins og sorgbitinn, og hin höndin kom rétt að segja við öxlina á henni; hann fór fram hjá henni fyrir framan hana, og var alvarlegur og hátíðlegur á svipinn. Hún sér eins og leiftur úr augum hans, og fyrir bregður fríðu, fölu

mannsandliti, sem henni finst vera að fylgja honum, og hún hefir eins og veður af einhverjum þriðja manninum. Hún verður hrædd og hrópar: „Er hann reiður?“ „Ó, nei,“ er svarað. „Er hann að fara burt?“ „Já,“ svarar þessi sami einhver. Og þá vaknar hún. Þegar hún er að festa svefninn aftur, þykir henni þessi sami einhver segja: „Það er alt búið.“ Og annar svarar: „Eg ætla að koma og minna hana á.“

Viku seinna fær hún þá fregn, að Vilhjálmur bróðir hennar hafi orðið fyrir járnbrautarlest kl. 9,55 um kveldið, sem hana hafði dreymt drauminn, og talið er víst, að hann hafi samstundis beðið bana af því. Hann hafði gengið langa leið um daginn, sezt niður við járnbrautina til þess að laga á sér skóinn, og, að því er menn telja víst, sofnað og ekki vaknað aftur til þessa lífs. Járnbrautin var á tveggja feta háum hrygg, og hann hafði setið utan í hryggnum, eins og hún sá hann í draumnum. Eitthvað, sem stóð út frá lestinni, líklegast tröppur, hafði lent á honum. Presturinn, sem hún sá í lestinni, hafði verið þar á ferð. Enginn maður vissi um slysið, fyr en morguninn eftir. Þá varð manni gengið fram á líkið af tilviljun.

Hvað eigum við nú að hugsa um þennan draum?

Er þetta fjarskygni? Er mannssálin í raun og veru svo gerð, að hún geti, þegar einhver óþekt skilyrði eru fengin, skynjað það, sem gerst hefir í fjarlægð? Eða er eitthvað það til í tilverunni, sem atburðirnir festa sig á, eins og myndir, sem mannssálin getur einstöku sinnum skynjað? Við vitum það ekki.

Eða er þetta hugsana-flutningur? Enginn vakandi maður hefir getað sent það hugarskeyti, því að enginn vakandi maður vissi um slysið. Eigum við þá að hugsa okkur, að undirvitund mannsins, sem fyrir slysinu varð, hafi vitað, að lestin var að koma, og hvað nú hlaut að gerast, og skeytið borist frá henni til konunnar í svefninum, en verið 3—4 klukkustundir á ferðinni? Eigum við að hugsa okkur, að undirvitundin hafi ekki að eins séð lestina vera að koma, heldur líka séð prestinn inni í henni, og sent skeyti um það? Við vitum það ekki.

Eða er þetta áhrif frá hinum framliðna manni eftir dauðann? Hefir hann verið, ásamt einhverri annari veru, sem konan verður ekki nema óglögt vör við, að reyna að bregða upp fyrir systur sinni hverri myndinni eftir aðra, til þess að gera henni við-

vart um andlát sitt, eins og hann gerir sér grein fyrir atburðinum eftir dauðann? Myers heldur það. En við getum víst öll með góðri samvizku sagt, að við vitum það ekki. Og sannast að segja, finst mér ekki einu sinni skynsamlegt að láta sér finnast neitt líklegt eða ólíklegt í jafn-flóknu máli, nema menn hafi kappkostað að kanna hið mikla dýpi rannsóknanna, sem fram hafa farið síðustu áratugina, ekki að eins á draumum, heldur líka á öllum svo nefndum dularfullum fyrirbrigðum í heild sinni. Þau eru öll svo saman ofin, að ekkert þeirra verður með réttu slitið út úr sambandinu.

Eg hefi minst á, að það sé kynlegt að hugsa sér, að menn geti í draumum orðið varir þeirra atburða, sem gerst hafa, og enginn lifandi maður veit, að hafi gerst. Óneitanlega er þó enn kynlegra að hugsa sér, að menn skuli geta orðið þess varir, sem ekki er komið fram, en gerist síðar. Það er í mínum augum allra-kynlegasta hliðin á draumunum. Samt er þetta sjálfsagt algengasta hliðin á draumatrúnni. Menn tala um það eins og algengan, ómerkilegan hlut, að þá „dreymi fyrir daglátum.“ Með því er átt við það, að atburðirnir komi fram í draumum, rétt áður en þeir gerast, og alveg eins og þeir gerast. Enn algengari

er samt sú trú, að mönnum birtist í draumi með hinum og öðrum táknum, það sem fram við þá á að koma. Eg hygg, að fullyrða megi, að naumast sé nokkurt það heimili til á landinu, þar sem ekki trúir einhver, að meira eða minna leyti, á draumana að þessu leyti — þar sem með öðrum orðum ekki trúir einhver á það fyrirbrigðið, sem er allra dularfylst og óaðgengilegast skilningnum. Eg veit, að flestir reisa þessa trú sína á veikum grundvelli. Eg veit, að athuganir flestra manna í þessu efni eru lítið eða ekkert annað en reykur. En þetta er ekki að eins algeng trú. Þetta er trú, sem lifað hefir á öllum þeim öldum, sem menn hafa sögur af mannkyninu. Og nú er það að staðfestast með hinum vísindalegu rannsóknum, að þessi trú sé á einhverju verulegu reist. Sönnunum þess, að óorðnir atburðir geti komið fram í draumum, hefir rignt niður. Eg ætla að segja ykkur eina af slíkum spádóms-sýnum, rétt til dæmis. Hún er einkar greinileg; hún virðist vera gersamlega tilgangslaus; hún er víst alveg óskiljanleg á núverandi þekkingarstigi mannanna; en hún er áreiðanlega sönn, því að hún er rambyggilega sönnuð.

Enskur læknir, Alfred Cooper, segir söguna. Hann kemur til hertogans af Hamilton í lækniserindum. Þá segir hertogafrúin frá

því, að fyrir sig hafi borið kynlega sýn eina nóttina, milli svefns og vöku; hún hafi séð L. lávarð í stól, eins og í veikindakasti; hjá honum hafi staðið rauðskeggjaður maður; hann hafi staðið hjá baðkeri; og yfir baðkerinu hafi hangið rauður lampi. Hertogafrúin þekti lávarðinn ekkert nema í sjón, og hafði, að því er virðist, aldrei komið heim til hans.

Einni viku eftir þetta var læknirinn sóttur til þessa lávarðar L. Hann hafði bólgu í báðum lungunum. Uppi yfir honum stóð rauðskeggjaður hjúkrunarmaður. Maðurinn stóð við baðker. Og uppi yfir baðkerinu hékk rauður lampi. Lávarðurinn dó viku eftir að hann fékk lungnabólguna, 14 dögum eftir að hertogafrúin hafði sagt frá sýn sinni.

Hvernig stendur á þessari sýn og öðrum slíkum sýnum? Eiga forlagatrúarmennirnir á réttu að standa? Eru allir atburðir fyrirfram ákveðnir? Festast þeir einhverstaðar í tilverunni, ekki að eins þeir, sem gerst h a f a, heldur líka þeir, sem e i g a að gerast, og getur mannsandinn fengið að gægjast inn í þá myndasýningu einstöku sinnum, þegar eitthvað slaknar á jarðnesku böndunum? Er mannsandinn svo úr garði gerður, að hann fái séð inn í ókomna tímann, þegar

hann fær að njóta sín? Eða eru einhverjar honum æðri verur að sýna honum út í einhverja ókunna geima tilverunnar? Eða er tíminn sjálfur ekki annað en blekking ófullkomins tilverustigs?

Spurningarnar þyrlast og flykkjast upp eins og fuglahópur, sem stygð hefur komist að. Mestu vafamál mannsandans komast í hreyfingu í hugum vorum — við það, að við förum að hugsa um konu, sem dreymir jafn-ómerkilegan draum eins og þann, að hún sjái veikan mann, sem henni kemur annars ekkert við og er ekkert ant um, og rauðskeggjaðan mann og baðker og rauðan lampa — af því að sá draumur rætist viku síðar. Svo nátengt er það, sem er lítilmótlegast, og það, sem er háleitast, það, sem er einfaldast og hversdagslegast og það, sem er flóknast og dularfylst í tilverunni.

Og andspænis þessum ráðgátum standa mennirnir, — fróðir jafnt og fávísir, vitrir jafnt og vitgrannir, — undrandi og felmtraðir, og vita ekki sitt rjúkandi ráð, líkastir ofurlitlu sveitabarni, sem aldrei hefir séð flóknari vél en rokkinn hennar mömmu sinnar, og kemur ofan í flæmistóran skipssal, þar sem undraáhaldið hamast, það, sem knýr hina miklu fljótandi höll yfir útsæinn.

Barnið skilur ekkert. Og við erum ofurlitlir, misjafnlega kotrosknir, glápandi krakkar í vélarsal alheimsins.

Misjafnlega kotrosknir. Og þar af leiðandi misjafnlega skringilegir. Skringilegastir, þegar við tölum og högum okkur eins og við hefðum mælt og viktað og nákvæmlega reiknað út alheiminn.

# Dularfylsta fyrirbrigðið.

Erindi flutt í Reykjavík 1915.

---

Í erindi um d r a u m a, sem eg flutti fyrir nokkuru, gat eg þess, að ein tegund svo nefndra dularfullra fyrirbrigða væri dular-f y l s t og óaðgengilegust skilningnum. Eg átti við þá atburði, sem boða óorðna viðburði fyrirfram.

Þessa atburði ætla eg í kveld til styttingar að nefna f y r i r b o ð a.

Eg vík síðar í kveld að því örfáum orðum, hvers vegna mér virðist þetta dularfylsta fyrirbrigðið. En eg ætla að byrja á því að benda ykkur á það, hve afarrík trúin á fyrirboðana hefir verið hér á landi, alt frá fyrstu fornöld landsins, og hve afarrík hún er enn. Einhver mikill hluti Íslendinga virðist alt af hafa trúað því, og trúa því enn, að viðburðirnir geti stundum birzt vitund sumra manna, beinlínis eða óbeinlínis, áður en þeir gerast í raun og veru.

Fornsögurnar okkar eru löðrandi af draumum, sem tákna óorðna viðburði. Og

eftir hugmyndum forfeðra okkar á söguöldinni, var það ein hliðin á sálargáfum mestu spekinganna, að þeir voru f o r s p á i r — sáu viðburðina fyrir með einhverjum dularfullum hætti.

Þessi trú fornmanna á fyrirboðana hefir áreiðanlega haldist allar aldirnar. Og hún hefir aldrei verið með betri heilsu en nú. Rennið huganum til allra d a g l á t a d r a u m a n n a og draumanna, sem menn ætla að t á k n i það og það. Naumast er til nokkurt heimili á landinu, þar sem menn trúa ekki að meira eða minna leyti á slíka drauma. Stundum er það beinlínis skringilegt að heyra menn tala um þess konar efni. Trúin á fyrirboðana er svo sterk, svo vel runnin saman við hugsanalíf fólksins, að það kemur með þá óhemju-staðhæfing, að menn séu alt af í svefni að fá vitneskju um óorðna hluti, eins og þetta sé ekkert merkilegt, ekkert annað en það, sem búast hefði mátt við. Og svona talar margt fólk, sem þrætir fyrir það, að það trúi nokkurum dularfullum fyrirbrigðum. Það áttar sig alls ekki á því, að það sem er allra-dularfylst sé nokkuð dularfult. Gætum að þjóðsögunum okkar og öðrum þeim bókum, er draga fortjaldið frá því, er þjóðin trú-

ir í raun og veru, svo sem þjóðsögum Jóns Árnasonar, Ólafs Davíðssonar, Jóns Þorkelssonar og Odds Björnssonar, eða Dulrænum sögum Brynjólfs frá Minnanúpi, Draumum og Dulrúnum Hermanns Jónassonar og Dulsýnum Sigfúss Sigfússonar, sem nú eru nýkomnar út. Allar bækurnar sanna fyrirboða-trúna, svo að ekki verður um vilst.

En enginn ætti að gera sér í hugarlund, að þessi fyrirboða-trú hafi einkum eða einkanlega verið hér á Íslandi. Ekki þarf annað en að lesa heilaga ritningu til þess að sannfærast um, að Gyðingar trúðu því, að fá mætti vitneskju um ókomna tímann. Einn meginþáttur kristnu guðfræðinnar hefir um langan aldur verið kenningin um spádómana. Öllum sögufróðum mönnum er kunnugt um véfréttirnar, tilraunirnar til þess að fá vitneskju frá æðri vitsmunaverum um það, sem ókomni tíminn bæri í skauti sínu. Á öllum öldum og í öllum löndum hafa verið til menn, sem hafa þózt geta séð fram í ókomna tímann, þegar þeir reyndu það, og á öllum öldum hefir því verið trúað af fjölda manna. Samt hefir miklu meira verið um þá trú, að viðburðir ókomna tímans birtust mönnum

stundum, í svefni eða í vöku, alveg óvörum, og án þess að nokkuð væri eftir þeirri vitneskju leitað.

Á efnishyggju-öldinni, sem nú er að töluverðu leyti um garð gengin, dró mikið úr trúnni á fyrirboðana, eins og á alt dularfult. Sumir hafa litið og sumir líta enn með fjandskaparhug á alt þess konar — það sé ekki eingöngu vitleysa, heldur líka skaðleg vitleysa; það sé útsæði hjátrúarinnar, þveröfugt í eðli sínu við alla þekkingar-menning veraldarinnar, — að eg ekki tali um þá endileysu, sem sumir eru með, að öll dularfull fyrirbrigði séu runnin frá djöflum, sem er svo fáránleg fjarstæða, að að henni er naumast orðum eyðandi. Öðrum hefir staðið og stendur enn nákvæmlega á sama um öll þau fyrirbrigði tilverunnar, sem nefnd hafa verið dularfull. Þeim stendur jafnvel á sama um jafn-gífurlegt mál og það, hvort það sé rétt ályktað eða rangt, að framliðnir menn séu að gera vart við sig hér á jörðunni. Í augum sumra manna er slíkt sinnuleysi ótrúlegt, nærri því óhugsandi — í augum þeirra manna, sem hafa látið sér skiljast það, að ef slík vitneskja er fáanleg, og ef menn afla sér hennar alment, þá mundi hún umturna hugmyndum mannkynsins um tilveruna og al-

heiminn. En þetta sinnuleysi hefir áreiðanlega verið til og er áreiðanlega til enn.

Það eru til ummæli eftir einn af spekingum síðustu aldar, náttúrufræðinginn próf. Huxley, ummæli, sem mikið hefir verið talað um, og stóðu í bréfi, er hann ritaði brezku félagi einu, sem stofnað var á sjöunda áratug síðustu aldar, til þess að rannsaka dularfull fyrirbrigði, og nefnt var „Dialectical Society“. Þar komst hann svo að orði: „Gerum ráð fyrir, að fyrirbrigðin séu áreiðanleg — mér stendur samt á sama um þau. Ef nokkur vildi gæða mig þeim hæfileik að hlusta á hjal gamalla kvenna og aðstoðarpresta í næsta dómkirkjuþorpinu, þá mundi eg hafna slíkum hlunnindum, af því að eg hefi annað betra að gera. Og ef fólk í andlegum heimi talar ekki af meiri vizku og greind en vinum þess segist frá, þá skipa eg því í sama flokkinn.“ Hann kveður mjög líkt að orði síðar í bréfi til eins af mestu vísindamönnum veraldarinnar, Alfred Russel Wallace. Wallace hafði sent honum ritgerð, er hann hafði gefið út um dularfull fyrirbrigði. Í þessari ritgerð hafði hann haldið því fram, að margar tegundir þessara fyrirbrigða væru sannaðar, þó að ekki beri að líta á þau sem neitt „yfirnáttúrlegt“; þau séu „náttúrleg“, og geri engin brot né breyt-

ing á þeim lögum náttúrunnar, sem vér þekkjum. Huxley kvittaði fyrir bókarsendinguna með bréfi til Wallace, og kemst þar meðal annars svo að orði: „Það má vel vera, að þetta sé alt saman satt — eg veit ekki um neitt, sem sýnir, að það sé ósatt — en sannleikurinn er sá, að eg get ekki fengið mig til þess að láta mér ekki standa á sama um þetta mál. Mér hefir aldrei á æfi minni þótt gaman að neinu masi, og mas framliðinna manna, eins og þessir blessaðir andar gæða vinum sínum á, er ekki hugnæmara í mínum augum en hvert annað mas.“

Nú er dálítið gaman að athuga það, til þess að fá nokkuð ljósari hugmynd um það, hve magnað þetta sinnuleysi, eða ef til vill þessi mótþrói, gegn öllu dularfullu er hjá sumum mönnum, að hvorki var hjá félaginu, sem eg nefndi áðan, né heldur hjá Wallace, að tefla um neitt hjal eða mas framliðinna manna. Hvorki félagið í heild né einstakar nefndir þess tóku neina afstöðu til þess, hvernig á fyrirbrigðunum stæði, og höfðu ekki nokkurt orð eftir neinni vitsmunaveru, sem taldi sig framliðinn mann. Nefndirnar fengust eingöngu við það að ganga úr skugga um, hvort fyrirbrigðin gerðust, sumpart með tilraunum nefndarmanna sjálfra, sumpart með því að leita

vitnisburðar áreiðanlegra manna. Og niðurstaðan varð sú í stuttu máli, að menn hefðu áreiðanlega komist að raun um verkanir einhverra afla, sem enn væru óþekt, og að þessara verkana yrði ekki vart, nema viðstaddir væru tilraunirnar sérstakir menn, sem nefndir voru miðlar. Og Wallace hafði ekki fengist við annað í ritgerð sinni en að flytja lesendum sínum ágrip af sönnunum fyrir staðhæfingum um dularfullar staðreyndir, og borið fyrir sig vitnisburð 22 vel þektra manna, stærðfræðinga, stjörnufræðinga, efnafræðinga, lífeðlisfræðinga, lögfræðinga, presta og rithöfunda, og margir þessara manna voru heimsfrægir. Þið sjáið, að mótþróinn hlýtur að vera nokkuð ríkur, þegar annar eins maður og Huxley, með sínum skörpu og sólbjörtu vitsmunum, svarar — ekki smælingjum, eins og Tilraunafélags-mönnum í Reykjavík, eða guðspekingum á Akureyri, heldur — frægum vísindamönnum jafnskringilega út í hött og hann gerði þessi skiftin.

Þetta væri dálítið skiljanlegra, ef Huxley hefði verið svo farið, sem vitanlega mörgum er, að hann hefði gengið að því vísu, að dularfull fyrirbrigði gerðust ekki, hvað sem hver segði, og hverjar líkur sem koma

kynnu — ef hann hefði ályktað eins og skozki heimspekingurinn Hume, að þau séu brot á lögum náttúrunnar, þar af leiðandi g e t i þau ekki gerst, og þar af leiðandi geti engar sannanir sannað það, að þau hafi gerst. En slík ályktun vr Huxley fjarri skapi. „Það má vel vera, að þetta sé alt saman satt — eg veit ekki um neitt, sem sýnir, að það sé ósatt,“ segir hann í öðru bréfinu, sem eg mintist á áðan. Sama segir hann á mörgum öðrum stöðum. Meðal annars farast honum svo orð í einu riti sínu: „Um kraftaverkin get eg ekki sagt annað en það, að eftir því, sem eg lít á, er orðið „ómögulegt“ ekki hafandi um heimspekileg mál. Það er spakmæli, sem eg er vanur að segja vinum mínum til leiðinda að eingin takmörk eru þess, hvað í náttúrunni kann að vera fólgið.“

Hann var heimsfrægur n á t t ú r u f r æ ð i n g u r, og er alls ekki sannfærður um það, að það sé ósatt, sem verið er að fullyrða, að hlutirnir í húsunum hér og þar á Englandi, séu að lyftast upp af afli, sem enginn þekkir enn. En hann getur ekki fengið sig til að láta sér ekki standa á sama um það! Hann var l í f e ð l i s f r æ ð i n g ur — prófessor í samanburðar-lífeðlisfræði — og er alls ekki sannfærður um, að það sé ósatt, sem menn voru að fullyrða, að sumir menn

séu svo gerðir, að út úr þeim streymi stundum eitthvert óþekt efni, svo að þeir léttist um mörg pund; þetta efni verði svo að hálfsjálfstæðum mannslíkömum, sem stundum geti fært sig til og talað; og eftir dálitla stund leysist þessir líkamar sundur, efnið streymi aftur inn í mennina, sem það hafi komið úr, og þá fái þeir aftur sína venjulegu þyngd. En hann getur ekki fengið sig til að láta sér ekki standa á sama um þetta! Hann var heimspekingur, einn þeirra manna, er um nokkurn tíma höfðu mest áhrif á lífsskoðanir hins mentaða heims, og er alls ekki sannfærður um, að það sé ósatt, sem menn voru að fullyrða, að framliðnir menn séu að gera vart við sig víðsvegar um hnöttinn og sanna það, að þeir séu þeir, sem þeir segjast vera. En hann getur ekki fengið sig til að láta sér ekki standa á sama um það!

Þið munuð nú geta nokkuð ráðið í af þessu, hvað mótþróinn gegn rannsókn dularfullra fyrirbrigða hefir verið rammur. Það var eitthvað annað, en að það mál hefði framan af beggja skauta byr. Huxley var einn af hleypidómaminstu vísindamönnunum í því máli, að þeim fáum undanteknum, sem fengust til að sinna því. Samt er mótþrói hans svona óviðráðanlegur. Allur þorri vís-

indamanna leit á málið annaðhvort sem a u m k u n a r v e r ð a vitleysu, eða sem s k a ð l e g a og v í t a v e r ð a vitleysu. Þeir fáu vísindamenn, sem fengust til að sinna málinu, áttu í vök að verjast fyrir aðsúg samherja sinna í þekkingar-framsókn mannkynsins. Kirkjan hagaði sér — ja — eg ætla mér ekki að vera stórorður — hún hagaði sér ekki sem viturlegast. Hún átti í römmustu baráttu við efnishyggju-vísindin. Hún var að fara halloka. Svo mátti heita, að allir menn með vísindalegri þekkingu væru að snúa við henni bakinu. Vísindin voru að sannfæra þá um það, að það væri alt misskilningur, sem hún hafði verið að kenna mönnum frá öndverðu — það sé ekki til neitt annað líf, ekki neinn ódauðlegur andi, ekki neinn guð. Í staðinn fyrir trúna á föður vorn á himnum, sem kirkjan hafði boðað mönnunum í nafni Jesú Krists, var komin trú á órjúfandi náttúrulögmál, sem enginn hafði sett. Kirkjan mændi með kveinstöfum og tárvotum augum á eftir sálum mannanna út á þessar villibrautir. En hún fékk ekki við neitt ráðið. Líklegast hafði hún aldrei áður verið jafn-nauðulega stödd. Aldrei, síðan á dögum postulanna, hafði henni boðist önnur eins liðsemd eins og í rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Það virðist óhugsandi, að drott-

inn hennar hefði getað sent henni nokkura aðra liðveizlu, sem betur hefði átt við í baráttu hennar við efnishyggju-vísindin. En þeirri liðveizlu tók hún ekki með öðru en fyrirlitning og reiði. Þeir, sem héldu málinu uppi, voru að langmestu leyti smælingjar, sem ekki voru líklegir til þess að hafa nein áhrif á lífsskoðun mannkynsins — enda alment taldir annaðhvort viti sínu fjær af trúgirni og hjátrú, eða refsingarverðir svikarar.

Það er líkast einhverju æfintýri, hvernig þetta hefir alt breyzt í öllum menningarlöndum heimsins á örfáum síðustu áratugunum. Mér geta ekki annað en komið til hugar óumræðilega viturlegu ummælin, sem gamla Faríseanum Gamalíel urðu að orði við stéttarbræður sína, þegar lætin voru mest í Jerúsalem gegn postulum Krists: „Ef þetta ráð eða verk þetta er af mönnum, verður það engu; en ef það er af guði, þá megnið þér ekki að yfirbuga þá. Eigi má yður það henda, að þér jafnvel berjist gegn guði.“ Það er eins og þetta mál hafi verið „af guði“, enda trúi eg því fastlega. Að minsta kosti hafa menn ekki megnað að yfirbuga það. Nú keppast margir af helztu mönnum allra landa við rannsókn hinna margsvívirtu dularfullu fyrirbrigða — eða

gerðu það að minsta kosti þangað til veraldarófriðurinn dundi á. Allir staðfesta þeir vitnisburð smælingjanna. Út af þessum rannsóknum senda sumir þeirra út um öll lönd veraldarinnar fagnaðarboðskapinn um eilíft líf, eilífa vitsmuni, eilífan kærleika. Kirkjan er að gagnsýrast, gjörbreytast, fyrir þessar rannsóknir. Lesið þið sum ensku trúmálablöðin — og þið verðið ekki í miklum vafa um það. Jafnvel sumir þverúðarfylstu kennimennirnir, sem hafa prédikað það, að öll dularfull fyrirbrigði séu djöfulsins verk og að rannsókn þeirra sé óguðleg, kannast nú við það, að fyrir þessar rannsóknir geti menn nú fyrst skilið ýmsar frásögur Nýja testamentisins. Og þeir kveinka sér við að halda því fram, að þeir hafi þurft að fá djöfulinn til þess að koma sér í skilning um Jesúm Krist. Málið er að vinna algerðan sigur, eingöngu með þeim sannleiksmætti, sem í því býr. Vitanlega er enn til mótþrói gegn því. En sá mótþrói hefir fengið dauðameinið. Hann legst bráðum á banasængina.

Sú sterka alda, sem fleytt hefir áfram rannsókn dularfullra fyrirbrigða yfirleitt, hefir líka borið fram áhugann á fyrirboðunum, eins og eðlilegt er, þar sem fyrirboðarnir eru að eins ein tegund þeirra. Og það

er sannarlega eftirtektarvert, hve afar-ríkum tökum fyrirboðarnir hafa náð á hugum manna nú úti um öll lönd. Þess bera útlend blöð og tímarit ljóst vitni. Menn skilja þá ekki. En menn standa agndofa og hugfangnir. Menn lúta höfði andspænis leyndardómum tilverunnar, hálfhræddir og hálffagnandi.

Eg tilfærði fyrir nokkuru í blaði hér í bænum ummæli belgiska skáldsins Maeterlincks, sem nú er líklegast frægast skáld í heimi, úr ritgerð um spádóma, sem hann hafði gefið út í ensku tímariti. Eg ætla að leyfa mér að tilfæra þau aftur hér. Þau eru svo ljóst dæmi þess, hve óumræðilega mikils vert sumum mestu vitmönnum veraldarinnar þykir nú orðið um þessa tegund dularfullra fyrirbrigða. Hann kemst svo að orði:

„Vér skygnumst inn í annan heim, og nemum staðar alveg ringlaðir. Vér vitum ekki lengur, hvar vér stöndum; það legst hvað ofan á annað og grautast saman, það sem að baki oss er og það sem framundan oss er. Vér getum ekki lengur greint þá sviksamlegu uppgerðar-línu, sem er oss þó svo ómissandi, línuna, sem er á milli liðinna ára, og hinna, sem enn eru ókomin. Vér þrífum dauðahaldi í stundir liðna tím-

ans og stundir nútíðarinnar, til þess að geta haldið oss fast við eitthvað, sem sé áreiðanlegt, til þess að sannfæra oss sjálfa um, að vér séum enn þar, sem vér eigum að vera í þessu lífi — lífi, sem svo er háttað, að það, sem enn hefir ekki gerst, sýnist jafnstaðgott, jafn-verulegt, jafn-óyggjandi, eins og það sem unmliðið er."

---

Mig langar nú til þess að segja ykkur fáeinar fyrirboðasögur. Þegar eg hefi lokið þeim, hugsa eg mér að víkja að því fáeinum orðum, hverjar hugsanir þessi tegund dularfullra fyrirbrigða einkum vekur hjá mér.

Eg var fyrst í efa um, hverjar sögur eg ætti að velja. Mér hefði þótt mest gaman, að þær væru íslenzkar. En það er nokkuð örðugt að fá íslenzkar fyrirboðasögur, sem fullar sönnur hafa verið færðar á að séu áreiðanlegar. Útlendu fyrirboðasögurnar eru svo margar, að manni liggur við að villast í þeim skógi. Rétt til dæmis skal eg benda ykkur á það, að einn franskur rithöfundur hefir safnað 1000 þess konar sögum, og gefið þær út í bók.

Eg hefi ráðið það af að velja fyrirboða úr lífi W. T. Steads. Þær sögur hafa

fyrst og fremst það til síns ágætis, að þær eru áreiðanlega sannar. Annar kosturinn við þær eru sá, að sumir fyrirboðarnir koma sjálfkrafa, aðrir með tilraunum. Í þriðja lagi er mér sérstaklega ljúft að segja ykkur þessar sögur, af því að þær standa í svo nánu sambandi við andlegt líf Steads, þess manns, sem í mínum augum er einhver hugnæmastur maður á síðari hluta 19. aldar og í byrjun þessarar — blaðamanna-konungsins, friðarpostulans, kvenеðlis-riddarans, landvarnarmannsins fyrir veikar vonir og óvinsæl málefni; einhvers svæsnasta andlega bardagamannsins, sem fram hefir komið í blaðamensku veraldarinnar, en jafnframt svo gersneyddur allri eigingirni, að dómi allra þeirra, sem þektu hann, og gæddur svo óvenjulega guðdómlegum hæfileika til þess að fyrirgefa alt og elska alt, að í því efni hefir hann verið borinn saman við Fransiscus frá Assisi; mannsins, sem var svo laus við ótta við alt jarðneskt vald, að hann skildi það ekki, að menn gætu talað um nokkura aðra dirfsku í almennum málum en þá að vera móti sannleikanum; mannsins, sem var svo máttugur, þó að hann væri alla æfi valdalaus og félítill, að svo mátti segja, sem í öllum löndum yrðu menn að

taka orð hans til greina að meira eða minna leyti, svo máttugur, að sumir vitmenn Englendinga hafa fullyrt, að enginn samtíðarmanna hans hafi sett jafn-mikið mót á ensku þjóðina eins og hann, og að einn af allra-helztu kennimönnum Englendinga, Wilberforce, segist hafa vitað það jafnvel alt að 30 árum áður en Stead andaðist, að hann væri mestur maðurinn, sem Englendingar ættu; mannsins, sem aldrei ofmetnaðist af þessu óhemju valdi, af því að það var hans bjargföst sannfæring, að hann væri ekkert að gera annað en það, sem faðir sinn á himnum væri að leyfa sér að gera og láta sig gera í samvinnu við hann sjálfan; mannsins, sem var eitthvert það undarlegasta sambland af snjallráðum stjórnmálamanni og djúpsæjum dulspeking, sem uppi hefir verið síðan um daga Cromwells, mannsins, sem mitt í stórbraski, ekki að eins stórborgalífsins heldur og stjórnmálalífs veraldarinnar, hélt alt af sál sinni öðrum þræði inni í heilögum miðalda-friði musteranna og klaustranna. Þegar nú við þetta bætist það, að Stead sýndi mér, ókunnum, umkomulausum og útlendum, þá góðvild, sem ef til vill hefði haft mikilsverð áhrif á líf mitt, ef honum hefði enzt aldur til þess að koma því í framkvæmd, sem hann hafði boðið mér, þá getur ykkur

væntanlega skilist það, að mér er sérstaklega ljúft að segja ykkur frá því, er fyrir hann hefir borið.

Við komum þá að fyrirboðum hans, þeim er eg tek. Margir fleiri komu fyrir hann. Alt líf hans var fult af þessari tegund dularfullra fyrirbrigða.

Fyrsti fyrirboðinn kom á nýjársdag 1880. Hann var þá ritstjóri blaðsins „Northern Echo“ í Darlington. Þennan nýjársdag fanst honum því vera eins og þrýst fast inn í huga sinn, að á þessu ári ætti fyrir honum að liggja að flytja sig úr Darlington. Hann mætti kunningja sínum, blaðamanni, úti á stræti þennan dag, bauð honum gleðilegt nýjár og sagði um leið: „Þetta er síðasti nýjársdagurinn, sem eg verð í Darlington. Eg fer frá „Northern Echo“ á þessu ári.“ Maðurinn leit á hann með nokkurri undrun og spurði: „Og hvert ætlið þér að fara?“ „Til Lundúna,“ sagði Stead, „því að það er eini staðurinn, sem gæti freistað mín til að fara úr þeirri stöðu, sem eg er nú í, stöðu, sem er mjög þægileg, og þar sem eg hefi fult frelsi til að segja hvað sem eg vil.“ „En,“ sagði vinur hans, með nokkurum efasemda-keim í röddinni, „að hvaða blaði ætlið þér þá að fara?“ „Eg hefi ekki minstu hugmynd um það,“ sagði Stead; „og eg þekki

ekki nokkurt Lundúnablað, sem mundi bjóða mér neina stöðu, því síður stöðu, þar sem eg hefði neitt ritfrelsi. Eg sé engar líkur til þess, að nokkuð opnist nokkurstaðar. En eg veit það með vissu, að áður en þetta ár er liðið, verð eg kominn að einhverju Lundúnablaði. „Heyrið þér," sagði vinur hans, „þetta er hjátrú; og eg vona, að þér, sem eruð kvæntur barnamaður, farið nú ekkert ógætilega að ráði yðar." „Þér þurfið ekki að vera neitt hræddur um það," sagði Stead, „eg sæki ekki um neina stöðu neinstaðar annarstaðar. Eg fer ekki að fleygja frá mér atvinnu, fyr en eg veit, hvað um mig verður. Eg sé ekki, hvernig það ætti að geta komið fyrir, að eg fari úr Darlington; en eg er jafn-sannfærður um það, að eg verð farinn að ári um þetta leyti, eins og um það, að eg er til."

Þ. 1. júlí 1880 átti hann að endurnýja samning sinn við blaðið eða segja upp. Hann skrifaði undir samninginn af nýju. Hann átti einskis annars kost. Ekkert nýtt hafði boðist. En hann var jafn-sannfærður og hann hafði nokkuru sinni verið um það, að innan 6 mánaða yrði hann farinn úr Darlington.

Þetta rættist líka. Lundúnablaðið „Pall Mall Gazette," eitt þeirra blaða, sem hafði

verið andvígast þeirri stefnu, sem Stead hafði haldið fram,og því eitt þeirra blaða, sem var ólíklegast að byði honum til sín, skifti um ritstjórn á þessu sumri. Við ritstjórninni tók Morley, sem síðar varð lávarður og ráðherra, og sagði sig úr brezka ráðuneytinu, þegar ófriðurinn hófst á síðasta ári. Stead var boðið að verða meðritstjóri hans. Eigandi blaðsins „Northern Echo“ gaf það eftir. Og Stead settist að í Lundúnum í þessari nýju stöðu sinni í september 1880.

„Næsti fyrirboði minn,“ segir Stead, „var jafn-ljós eins og fyrsti fyrirboðinn, og engin jarðnesk atvik gátu vakið hugsunina.“ Hann gerðist í október 1883. Stead var staddur á eynni Wight með konu sinni, var á gangi í sallarigningu fram hjá höfða einum við sjóinn. Vegurinn var sleipur og sumstaðar fremur vont að komast eftir honum. Á versta staðnum fanst honum greinilega eins og einhver rödd innan í honum segði: „Þú verður að gæta vel að þér og vera viðbúinn, því að frá þessum og þessum degi“ (Stead minnir að það hafi verið 16. marz næsta ár) „verður þú einn að sjá um „Pall Mall Gazette“.“ Stead hrökk við ofurlítið og varð nokkuð óttasleginn. Engin líkindi voru til þess, að Morley mundi segja

stöðunni lausri, og Stead dró af þessu þá ályktun, að Morley mundi vera feigur. Tvær klukkustundir gat hann ekki fengið af sér að segja konunni sinni þetta; honum fanst það svo raunalegt. Að lokum sagði hann: „Það hefir komið nokkuð fyrir mig, sem hefir haft mikil áhrif á mig. Þegar við vorum að fara fram hjá St. Katrínar vitanum, kom mér til hugar, að Mr. Morley mundi eiga skamt eftir ólifað.“

„En sú vitleysa!“ sagði frúin. „Hvernig hefirðu farið að því að láta þér detta þetta í hug?“ Hann sagði henni, hvað fyrir sig hefði borið. Hún sagði aftur, að þetta væri vitleysa; Morley færi ekki að deyja; hann yrði í þess stað þingmaður. Stead sagði, að það gæti vel verið. En hvort sem Morley dæi eða yrði þingmaður, þá væri það áreiðanlegt, að hann tæki einn við blaðinu á næsta ári. Og samkvæmt þeirri vissu kvaðst hann ætla að haga sér.

Hann gerði það líka. Jafnskjótt sem hann kom inn í skrifstofu blaðsins, sagði hann eiganda þess, Mr. Thompson, ritstjóranum, Mr. Morley, og Mr. Milner, sem þá var starfsmaður við blaðið, en síðar varð lávarður, að Mr. Morley yrði orðinn þingmaður 16. marz næstkomandi. Auðvitað gat hann þess ekki, sem honum hafði fyrst kom-

ið til hugar. Hann sagði þeim jafnframt, af hverju hann réði þetta, hvað fyrir sig hefði borið. Þeir yptu öxlum, og Morley taldi þetta fjarstæðu. Hann sagðist hafa hér um bil hætt að hugsa um það að komast á þing; þær tilraunir, sem hann hafði áður gert til þess, höfðu mistekist; og hann hafði ráðið af að vera kyr við blaðið. En Stead sat fast við sinn keip, sagði, að Morley mundi áreiðanlega fara. Hann átti nákvæmt tal um þetta við Milner, sagði, að það væri versti gallinn á mönnum, sem fengju fyrirboða, að þeir þegðu vandlega um þá, þangað til þeir væru komnir fram, og þá tryði þeim enginn maður. „Í þetta skiftið skal enginn maður efast um, að eg hafi fengið minn fyrirboða sæmilega löngu áður en hann rættist. Nú er október. Eg hefi sagt þetta öllum, sem eg þekki og þetta mál kemur nokkuð við. Fari svo, að þetta rætist ekki, þá skal eg aldrei taka mark á mínum fyrirboðum framar, og þá getið þið strítt mér eins og þið viljið á því, hvað eg sé hjátrúarfullur. En ef þetta rætist, þá gerið þið svo vel að muna það, að eg hefi lagt út í áhættuna og unnið.“

Enginn í skrifstofunni hirti mikið um þennan fyrirboða Steads, og tveim mánuðum síðar fór Morley að ráðgast við hann

um ofurlitla breytingu, sem hann hafði hugsað sér að gera á fyrirkomulaginu við blaðið. Hann ætlaði þá að fara að endurnýja samning sinn um ritstjórn blaðsins næsta ár. Breytingin kom ofurlítið við störfum Steads, og Morley ætlaði að fá að vita, hvort hún væri honum nokkuð móti skapi. „Fyrirgefið þér, Mr. Morley,“ sagði Stead, „hvenær á þetta nýja fyrirkomulag að komast á?“ „Í maí, hugsa eg mér,“ sagði Morley. „Þá þurfið þér ekki að vera að hafa fyrir því að tala um þetta við mig,“ sagði Stead. „Eg verð tekinn einn við „Pall Mall Gazette“ fyrir þann tíma. Þá verðið þér ekki hér; þér verðið í þinginu.“ Þeir þæfðu um þetta nokkuð meira. Morley vildi fá því svarað, hvort Stead væri þessu samþykkur. Stead hélt sínu fram, að það væri ekki til neins fyrir þá að vera neitt að bollaleggja um þetta. Loks fór Morley að leiðast þetta, varð nokkuð háleitur og spurði Stead, hvort hann ætlaðist þá í raun og veru til þess, að hann legðist undir höfuð að gera nauðsynlegar ráðstafanir, af því að Stead hefði fengið einhverja vitrun.

„Alls ekki,“ sagði Stead; „auðvitað gerið þér þær ráðstafanir, sem yður þóknast. Eg get ekki búist við því, að þér hagið yður eftir minni vitrun. En af því að eg á að

taka við blaðinu, þá er gagnslaust fyrir yður, að vera að ræða þetta mál við mig. .... Eg spyr yður einskis um fyrirkomulagið, af því að eg veit, að það kemur aldrei til framkvæmda, að svo miklu leyti, sem það snertir vinnu mína við blaðið.“

Morley sá, að engu tauti varð við hann komið, svo að hann gerði sínar ráðstafanir, án þess að ráðgast frekara um þær við Stead.

Einum mánuði síðar lagðist einn af þingmönnum líberala flokksins banaleguna. Morley var kosinn þingmaður í hans stað 24. febrúar 1884. Hann þóttist ekki geta sint hvorutveggju, þingmenskunni og ritstjórninn, svo vel, að hann gæti notið sín. Ritstjórn blaðsins komst nær því tafarlaust í hendur Steads, þó að Morley væri talinn ritstjóri fram á sumarið. Morley hefði farið alveg frá blaðinu daginn, sem nefndur hafði verið innan í höfðinu á Stead í október 1883, ef eigandinn hefði ekki lagt kapp á, að Stead fengi nokkura hvíld, áður en hann tæki að sér þá ábyrgð, sem ritstjórninni var samfara.

Þessir fyrirboðar, sem eg hefi nú minst á, hafa, eins og þið sjáið, komið sjálfkrafa. En eg gat þess áðan, að sumir fyrirboðar Steads hefðu komið með tilraunum. Tveir

þeirra, sem eg ætla að minnast á, komu í ósjálfráðri skrift. Einn kom með tilraunum við borð.

Eins og mörgum ykkar mun kunnugt, ritaði Stead mikið ósjálfrátt á síðari árum sínum. Hann hélt því fram, að lifandi menn gætu látið sig skrifa í fjarlægð. Hann færði sönnur á það, sem enginn hefir, mér vitanlega, getað skýrt annan veg en Stead. Og hann var líka sannfærður um það, að framliðnir menn létu sig skrifa. Sérstaklega var þar að tefla um eina konu, ameríska, sem hét Júlía Ames. Stead var sannfærður um, að hún léti sig skrifa daglega, eða því sem næst, um margra ára skeið, og að hún hefði, handan úr öðru lífi, engu minni né lakari afskifti af högum sínum en nákomnasti, ástríkasti og vitrasti jarðneskur vinur hefði getað haft. Nokkuð af því, sem hann var sannfærður um, að Júlía hefði látið sig skrifa, hefir verið gefið út á íslenzku í bók, sem heitir „Eftir dauðann. Bréf frá Júlíu.“

Eg segi ykkur þá fyrst frá skriflegu fyrirboðunum. Frá þeim fyrirboðanum, sem eg tek fyr, hefir Stead sagt í ritgerð: „How I know the dead return“ („Hvernig eg veit, að framliðnir menn koma aftur“), sem fyrst var prentuð í einu af merkustu tímaritum Englendinga, „Fortnightly Review“, í janúar-

heftinu 1909, og samtímis í ameríska blaðinu „New York American“; þar á eftir í ýmsum ritum í ýmsum löndum. Stead segist svo frá:

„Fyrir nokkurum árum var í þjónustu minni merkilega gáfuð stúlka, með mjög vanstilta skapsmuni og alt annað en heilsuhraust. Hún varð svo örðug að einu sinni í janúarmánuði var eg alvarlega að hugsa um að losa mig við hana. Þá ritar Júlía með hendinni á mér: „Vertu mjög þolinmóður við E. M.; hún kemur yfir um til okkar áður en árið er liðið.“ Mér varð nokkuð hverft við, því að ekkert hafði komið fyrir, sem hefði getað komið mér til þess að halda, að hún mundi deyja bráðlega. Eg leyndi þessu skeyti, og hélt áfram að hafa hana í þjónustu minni. Það var 15. eða 16. janúar, að þessi viðvörun kom.

Hún kom aftur í febrúar, marz, apríl, maí og júní; í hvert skifti var viðvörunin rituð eins og nokkurs konar minnisgrein innan um nokkuð langt mál um önnur efni: „Mundu það, að M. E. fer yfir um, áður en árið er liðið.“ Í júlímánuði gleypti E. M. smánagla í gáleysi. Hann settist að í botnlanganum, og hún varð hættulega veik. Tveir læknar stunduðu hana, og þeir bjuggust ekki við því, að henni mundi batna. Einu sinni,

þegar Júlía var að skrifa með hendinni á mér, sagði eg: „Eg geri ráð fyrir, að það sé þetta, sem þú sást fyrir, þegar þú spáðir því, að E. M. mundi fara yfir um.“ Mér til óendanlegrar undrunar ritaði hún þá: „Nei; henni batnar þetta; en samt fer hún yfir um, áður en árið verður liðið.“ E. M. batnaði skyndilega. Læknarnir urðu steinhissa. Og innan skamms var hún farin að vinna sitt venjulega verk. Í ágúst, í september, í október og í nóvember var höndin á mér látin skrifa viðvörunina um, að andlát hennar væri í nánd. Í desember lagðist E. M. í inflúensu. „Svo að það er þetta, sem þú sást fyrir,“ sagði eg við Júlíu. Enn átti fyrir mér að liggja að verða forviða, því að nú skrifaði Júlía: „Nei; hún kemur ekki hingað yfir um með eðlilegum hætti. En hún kemur áður en árið er liðið.“ Eg varð hræddur; en mér var sagt, að eg gæti ekki afstýrt þessu. Jólin komu. E. M. var mjög veik. Gamla árið leið á enda, og enn var hún lifandi. „Þarna sérðu, að þér skjátlaðist,“ sagði eg við Júlíu. „E. M. lifir enn.“ Júlía svaraði: „Það getur verið, að mér hafi skjátlast um fáeina daga; en það er satt, sem eg hefi sagt.“

Um þ. 10. janúar ritaði Júlía til mín: „Þú fer að finna E. M. á morgun. Kveddu hana. Gerðu allar ráðstafanir, sem þörf er

á. Þú sér hana ekki framar á þessari jörð.“ Eg fór að finna hana. Hún var með hita, hafði vondan hósta, og átti von á að verða flutt í sjúkrahæli, þar sem hún gat fengið betri hjúkrun. Allan tímann, sem eg var hjá henni, talaði hún um það, sem hún ætlaði að gera til þess að koma verki sínu áfram. Þegar eg kvaddi hana, var eg enn að hugsa um það, hvort Júlíu hefði ekki skjátlast.

Tveim dögum síðar fékk eg símskeyti um það, að E. M. hefði fleygt sér út um glugga á 4. lofti í óráði, og að hún hefði verið tekin upp andvana. Þá vantaði einn eða tvo daga á það, að 12 mánuðir væru liðnir frá því er viðvörunin kom fyrsta skiftið.“

Við komum þá að síðara skriflega fyrirboðanum, sem eg ætla að minnast á. Þeim af ykkur, sem hafa lesið Júlíu-bréfin „Eftir dauðann“, er það sennilega minnisstætt, að Júlía heldur því fast að Stead, að hann eigi að stofna skrifstofu fyrir samband milli þessa heims og annars, jarðneskra manna og framliðinna manna. Þessi skrifstofa er henni afar-hugleikin, og stundum er eins og hún sé sárgröm Stead fyrir það, að fást ekki til þess að sinna því máli neitt. Til dæmis að taka kemst hún svo að orði í einu bréfinu:

„Aldrei hefir mig nokkurt augnablik hætt

að langa til þess, að hún yrði stofnuð. Mér finst eitthvað nærri því óumræðilega átakanlegt við þá þrá, sem við hér berum öll í brjósti eftir því að geta komist í samband við ykkur ykkar megin. Og það hryggir mig svo mikið, að jafnframt því, sem eg sé svo greinilega, hvernig þetta má gera, þá reynir þú ekki, eins og þú ættir að gera, að hjálpa mér til þess. Hvað það er orðið langt síðan er eg kom fyrst til þín. Og hvað hefirðu gert? Hvað hefir þetta óumflýjanlega skrifstofumál komist langt áleiðis? Vinur minn, vinur minn, hvers vegna hefir þér dvalist svo lengi? Landamæri heimanna er dapurleg fyrir andvörp þeirra, sem teknir hafa verið hver frá öðrum; hvernig stendur þá á því, að þú hefir gert svo lítið til þess að tengja saman?"

Nú liðu svo 15 ár, að ekkert var í málinu gert. Þá fór Júlía að rita um það haustið 1908, að tíminn væri kominn til þess að stofna skrifstofuna, og að þeir peningar mundu koma, sem þörf væri á. Þ. 15. okt. það ár skrifaði hún:

„Af skrifstofunni er það segja, að henni verður ekkert til fyrirstöðu. Þú fær peningana, sem þú þarft til þess að stofna skrifstofuna á viðeigandi grundvelli".

Þ. 19. okt. s. á. skrifaði hún: „Mér er falið

þetta verk. Eg verð að vinna það. Það er í fyriræltuninni. Við sjáum ekki alla fyriræltunina fremur en þið. En við sjáum skyldu okkar ritaða í henni, og það er partur af minni skyldu að hjálpa þér til þess að stofna skrifstofuna. Og þér verður hjálpað til þess bráðlega; mjög bráðlega, virðist okkur".

Fáum dögum síðar spurði hún, hvað þörf væri á miklum peningum. Henni var sagt, að til fyrirtækisins þyrfti 1000 pund sterling. Þá skrifaði hún: „Þú fær þau. Þau koma frá Ameríku, og þau koma með þeim hætti, að þú veizt, að peningarnir eru ætlaðir skrifstofunni".

Nú var það í byrjun desembermánaðar þetta sama ár, að Stead samdi ritgerð sína, sem eg hefi minst á, „Hvernig eg veit að framliðnir menn koma aftur", og sendi hana tafarlaust „Fortnightly Review" og „New York American", til þess að hún yrði prentuð í báðum ritunum fyrir áramótin.

Þ. 20. des. skrifaði Júlía: „Tíminn er kominn, og eg held að fyrir jólin sjáir þú fram úr þessu".

Árangurinn af því að senda „New York American" þessa ritgerð varð sá, að eigandi ritsins, einn af miljónamæringum Bandaríkjanna, Mr. Hearts, símaði til Steads tilmæli um, að hann yrði aukafréttaritari

blaðsins, og bauð honum fyrir það 500 pund á ári. Þetta tilboð kom á aðfangadag jóla.

Nú þóttist Stead sjá, að þarna voru peningarnir að koma. En þetta var ekki nóg. Hann þurfti 1000 pund á ári til skrifstofunnar. Hann talaði við Júlíu. Hún skrifaði, að hann yrði að taka tilboðinu — en hann yrði jafnframt að setja upp að fá 1000 pund. Og hún sagði, að hann mundi fá þau.

Þetta gerði hann. Tilkynti þetta Lundúnaumboðsmanni miljónamæringsins samdægurs. Daginn eftir, á jóladaginn, skrifaði Júlía: „Eg samfagna þér, og líka sjálfri mér, út af því að nú kemur það fram, sem eg lofaði þér. Þú þarft ekki að bera neinn kvíðboga út af árangrinum af málaleituninni til New York. Þeir ganga að því“.

Nú leið og beið, og ekkert gerðist fram yfir nýár. Þeir fáu nákomnustu vinir Steads, sem um þetta vissu, fóru smátt og smátt að verða vonlitlir, og því næst um það bil vonlausir. Stead var að öllum jafnaði öruggur, en samt með köflum milli vonar og ótta. „Enn kemur ekki nokkurt orð frá New York!“ skrifar hann við og við í bréf sín. Þ. 5. jan. er daufast í honum hljóðið. Þá skrifar hann: „Við höfum lagt alt á hættu, spilum um það að vinna alt eða tapa öllu. En ef peningarnir koma nú ekki!“

Svona leið til 19. jan. Þá símaði Stead ritara sínum, Miss Harper, sem hefir ritað um hann ágæta bók:

„Syngið guði dýrðarsöng. Spádómur Júlíu kominn fram“.

Síðar um daginn skrifar hann henni bréf. Þar í voru meðal annars þessar línur:

„Er það ekki ljómandi! Spádómur Júlíu kominn fram. Ameríkumaðurinn hefir gengið að tilboði mínu. Skrifstofa Júlíu er nú trygð. Mér finst líkast því, sem eg sé að syngja guði dýrðarsöng!“

Hann réð sér ekki fyrir fögnuði. Og þó að það komi ekki umtalsefni mínu beint við, þá get eg ekki bundist þess að benda ykkur á, út af hverju hann fagnar svo mjög. Hann var einn þeirra manna, sem áttu annríkast og unnu mesta andlega vinnu í Norðurálfunni. Stundum gekk hann svo fram af sér, að hann varð verklaus um stund. Nú átti hann ekki að fá neinu verki né neinum áhyggjum af sér létt. Hvorttveggja átti að auka að miklum mun. Hann átti að vinna fyrir stórfé í viðbót við það fé, sem hann hafði áður unnið fyrir. En sjálfur átti hann ekkert af því að fá. Út af hverju fagnar hann þá? Út af því einu, að hann er sannfærður um, að nú eigi hann kost á að veita ljósi inn í sálir, sem sitji í myrkri beggja

megin við fortjald dauðans. Svo miklum tökum höfðu eilífðarmálin náð á hug hans.

Eg kem þá að síðasta fyrirboðanum, sem eg ætla að minnast á, þeim er gerðist við tilraun með borð. Tvær mæðgur, báðar með miðilshæfileikum, sátu inni í stofu síðdegis 2. í hvítasunnu 1909. Hvorug þeirra var neitt að hugsa um dularfull fyrirbrigði, og þær voru nýkomnar frá kunningjafólki sínu, sem hafði andstygð á öllum tilraunum í þá átt. Dóttirin var Miss Harper, sem eg nefndi áðan, og hún var að leika á orgel. Móðirin sat og hlustaði á. Þá sér dóttirin alt í einu ofurlítið eggmyndað ljós, á stærð við valhnot, og með björtum gullslit, fara hart gegnum herbergið, hér um bil 1—2 þumlunga frá gólfinu, og hverfa svo. Rétt á eftir fær móðirin sterka löngun til þess að leggja hendurnar á lítið borð. Þær voru ekki vanar að gera tilraunir með borð; þeim þótti það nokkuð þunglamaleg aðferð. En einstöku sinnum höfðu þær gert það. Og þær gerðu það nú.

Þær urðu að bíða einar 20 mínútur eftir nokkurum árangri, og ætluðu að fara að hætta. Þá fór borðið alt í einu að hreyfast. Það stafaði skírnarnafn manns, sem ekki er nefndur annað en N. í frásögninni. Þær þektu engan mann með því nafni, og spurðu, hvert erindi hann ætti. Borðið stafaði þá

hægt nafnið „Lady Warwick“. Þær vissu, að Lady Warwick var til, og Miss Harper hafði hitt hana einu sinni, en var henni að öðru leyti ókunnug og vissi ekkert um athafnir hennar. Hún spurði, hvort N. væri með nokkur skilaboð til hennar. Borðið játaði því, og fór þá að stafa skeytið. Efnið var það, að Lady Warwick væri beðin að nota e k k i mótorvagn sinn þessa vikuna; ef hún notaði hann, hlytist slys af því. Ef hún frestaði því, yrði ekkert slys. Þær voru beðnar að senda þetta skeyti, og N. bætti því við, að hann væri vinur Lady Warwick og að hún mundi kannast við sig.

Miss Harper fór morguninn eftir með þetta skeyti til Steads. Hann sagði, að hún hefði átt að senda Lady Warwick það tafarlaust kvöldinu áður. Hún var ekki á því. Hún sagðist ekki mundu hafa farið með það til Steads sjálfs, ef það hefði ekki verið loforðum bundið, að hún léti hann vita um alt, sem fyrir sig bæri í þessa átt. Hún hefði jafnvel ekki hugmynd um, hvort þessi N. hefði nokkuru sinni verið til, og að öllum líkindum væri þetta einhver endileysa. En ef hún hefði sent skeytið, og ef Lady Warwick hefði tekið það til greina, þá væri þess enginn kostur að fá að vita, hvort það hefði verið nokkuð að marka.

Lady Warwick átti heima úti á landi. Stead sendi henni skeytið þegar í stað, ásamt bréfi. Bréfið var látið í póstkassa skömmu eftir hádegi á þriðjudaginn. Hann frétti ekkert fyr en um miðaftan á miðvikudaginn. Þá fékk hann símskeyti frá Lady Warwick. Hún kvaðst þá vera nýkomin heim og hafa fengið bréf hans. Hún hafði farið að heiman í mótorvagni sínum, á þriðjudagsmorguninn, og ekki komið heim fyr en nú. Leið hennar lá gegnum Lundúnaborg. Á heimleiðinni vildi henni það til á strætum borgarinnar, að mótorvagn hennar rakst á annan mótorvagn, og ónýttist gersamlega. Lady Warwick og þjónustustúlka hennar köstuðust út úr vagninum við áreksturinn, meiddu sig töluvert, en sluppu þó furðanlega vel eftir atvikum úr þessari miklu hættu. Þær voru fluttar í hestvagni á járnbrautarstöð, og með járnbrautarlest komust þær heim. Þar beið þeirra bréf Steads með viðvöruninni.

Miss Harper var farin heim til sín, þegar skeytið kom frá Lady Warwick. Stead skrifaði henni tafarlaust, hvers hann hefði orðið vísari. Og hann bætir því við fregnina:

„Er það ekki dýrlegt!

Eg held að henni (þ. e. Lady Warwick) þyki næstum því vænt um að þetta skuli

hafa komið fyrir, af því að það styrkir trú hennar."

N. reyndist hafa verið vinur Lady Warwick, eins og hann hafði sagt við borðið. Hann var fyrir nokkuru dáinn. Hann hafði lofað henni því fyrir andlát sitt, að hann skyldi vaka yfir henni, ef hann færi af þessum heimi á undan henni.*

---

Hvað á maður nú að segja um þetta alt saman?

Eg geng að því vísu, að margt megi um það segja fleira en mér hugkvæmist. Og öllum hlýtur að liggja í augum uppi, að meira má um það segja en eg get sagt þá stuttu stund, sem eftir er af þeim tíma, sem eg get gert mér von um að þið endist til að hlusta á mig.

Eg ætla þá fyrst að taka það fram aftur, sem eg byrjaði mál mitt á, að fyrirboðarnir eru í mínum augum dularfylsta tegund dularfullra fyrirbrigða. Eg á við það, að fyrirboðarnir séu fjarskyldari öllu því kerfi þekkingarinnar, sem mannkyninu hefir tekist að

---

* Undanfarinn kafli um fyrirboða Steads var prentaður í Iðunni 1916.

mynda sér, en öll önnur fyrirbrigði, sem vér höfum sögur af. Eg get ekki gert þessa grein nú; það yrði alt of langt mál. Eg ætla að eins að benda ykkur á örfá atriði rétt til dæmis, og sem allra-lauslegast.

Það, sem nefnt hefir verið á útlendum málum t e l e p a t í a, hefir á íslenzku lengstum verið lagt út hugsanaflutningur. Þetta íslenzka orð er ekki gott, því að telepatía táknar flutning á fleiru en hugsunum, og þá sérstaklega á tilfinningum. Prófessor Ágúst Bjarnason nefnir hana fjarhrif, og það finst mér betra. Telepatían er sönnuð staðreynd í augum allra þeirra manna, sem nokkuð hafa að ráði fengist við rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Vér getum ekki lengur lokað hana út úr þekkingarkerfi voru. Auðvitað vitum vér ekki, hvernig þessi flutningur gerist. Sumir halda, að hann gerist með einhverjum öldum í eternum, og óneitanlega bendir Wilsons-áhaldið, sem prófessor Haraldur Níelsson hefir ritað um í Ísafold og eg dálítið líka, fremur í þá áttina. Aðrir eru því mjög mótfallnir að hugsa sér telepatíuna í sambandi við nokkurar öldur. Enginn veit, hvað rétt er í því efni. En vér vitum ekki heldur, hvernig lífið verður til, vér vitum ekki, hvað rafmagn er, vér vitum ekki hvað eter er o. s. frv. Samt lokum vér þetta

ekki út úr kerfi þekkingar vorrar. Fjöldamörg af svonefndum dularfullum fyrirbrigðum heimfærum vér einhvern veginn til telepatíunnar, annaðhvort frá jarðneskum mönnum eða framliðnum mönnum, eftir því sem vér lítum á málið að öðru leyti. Með því komum vér þeim fyrirbrigðum í ofurlítið samband við þekkingarkerfi vort, þó að það samband sé vitaskuld mjög laust og ófullkomið — og þó að vel geti verið, að það samband sé stundum fremur ímyndun en veruleikur.

Þá skal eg benda ykkur á holdgunarfyrirbrigðin, sem nefnd hafa verið materialisationir. Þau hafa þótt með því allra-ótrúlegasta, sem fullyrt hefir verið að gerðist, og ekkert hefir sætt meiri háðungum en þær fullyrðingar. Nú vita allir, að þau gerast, þeir er bera nokkurt skyn á rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Vér vitum ekki, hvernig þau gerast. En vér vitum, að út úr sumum mönnum streymir stundum efni, sem notað er í þessa bráðabirgðalíkama, sem nefndir eru materialisationir. Menn vita, meðal anars eftir tilraunir læknisins Schrenck-Notzings, sem prófessor Ágúst H. Bjarnason skrýði frá í Andvara í fyrra, að ljósmyndir hafa náðst af þessu efni, og Schrenck-Notzing tókst líka að hirða

nokkuð af þessu efni og rannsaka það líffræðilega. Og þar sem oss hefir auðnast að komast svo langt að ná tökum á efninu, sem þessir bráðabirgða-líkamar eru gerðir úr, þá getum vér ekki sagt, að holdgunar-fyrirbrigðin standi ekki í neinu sambandi við þekking vora.

En eg get ekki farið lengra út í þetta mál — ekki gert þess neina grein, hvernig ýms svo nefnd dularfull fyrirbrigði eru ekki alveg eins óhemjulega dularfull eins og þau eðlilega eru í augum þeirra manna, sem ekki hafa kynt sér rannsókn þeirra. En á hitt vil eg leggja áherzluna, að fyrirboðarnir eru oss algerlega dularfullir. Vér getum ekki að neinu leyti sett það í samband við þekking vora, að unt skuli vera að vita það, sem gerist á ókomnum tíma, nema að því leyti, sem það verður ráðið af einhverjum líkum.

Fyrirboðarnir hafa gerst á öllum öldum, eins og eg gat um í upphafi þessa máls. Og það er afarlangt síðan er mannsandinn fór að glíma við þá. Ein skýringin, æfagömul, hefir verið sú, að tíminn sé í raun og veru ekki neitt, nokkurs konar blekking þess tilverustigs, sem vér stöndum á; alt gerist jafn-snemma fyrir alvísri vitund. Eg þarf ekki að taka það fram, hvað slík skýr-

ing er óaðgengileg í okkar augum. Ef það er nokkuð, sem oss virðist algerlega ómissandi, þá er það tíminn. Förum vér að efast um tímann, þá höfum vér ekkert að „þrífa dauðahaldi í", eins og Maeterlinck kemst að orði.

Aðrir hugsa sér, að viðburðirnir hljóti einhvern veginn að vera til einhverstaðar áður en þeir gerist í þessum heimi, eins og t. d. sveitin er til, áður en ferðamaðurinn kemur í hana og sér hana. Um það var alveg nýlega ritgerð í einu af helztu tímaritum heimsins. Og svo sjái menn þá einstöku sinnum í þeim heimi, þar sem þeir eru til, á sinn hátt eins og fjarsýnir menn sjá stundum inn í fjarlægar sveitir.

Ég þekki menn, sem hafa mesta óhug á fyrirboðunum. Þeir geta ekki að því gert, að þeim er beinlínis illa við þá. Þeim finst þeir gefa forlagatrúnni byr undir báða vængi. Þeim virðist, sem þeir bendi á, að viðburðirnir séu ákveðnir fyrirfram af einhverjum dularöflum, og að einhvern veginn berist til mannanna vitneskja um þær ráðsályktanir. Sú hugsun er alveg andstæð vilja þeirra. Þeim finst tilveran einhver andstygð, ef ekkert verði úr frelsi mannanna. Eg skil þetta vel, þó að eg líti á það nokkuð öðrum augum. Mér finst einstaklega líklegt,

að forlög mannanna séu að einhverju leyti ákveðin af æðri verum en þeir eru sjálfir. Slík hugsun fyllir mig engri óbeit. Eg trúi því, að tilveran sé í sínu insta eðli góð, líknsöm, kærleiksrík, elskuleg. Eg veit, að þetta er eingöngu trúaratriði, og að því fer fjarri að þetta verði sannað. Eitthvert ómótstæðilegt afl í mínum innra manni knýr mig til þess að trúa þessu. En af því að eg trúi þessu, geng eg að því vísu, að ef einhverjar ósýnilegar verur ráða að miklu eða litlu leyti yfir forlögum mínum, þá sé það betra en ef eg eða aðrir jarðneskir menn væru þar einráðir um.

Þetta er að eins sýnishorn af þeim heilabrotum, sem fyrirboðarnr hafa valdið. Vér verðum að sætta oss við það að kannast við það, að enn getum vér ekkert í það ráðið, hvernig á þeim stendur — hvernig nokkur takmörkuð vitund getur séð fram í ókomna tímann, nema að því leyti, sem hún ræður af líkum. Og ótakmarkaða vitund getum vér ekki gert oss neina hugmynd um.

En hitt vitum vér — það hafa fyrirboðarnir sannað — að einhver vitund sér, að minsta kosti stundum, fram í ókomna tímann, þó að vér botnum ekkert í því,

hvernig farið er að því. Og þá vaknar óumflýjanlega spurningin?

Hver er það, sem sér?

Er það vitund þess mannsins, sem fyrir fyrirboðanum verður? Svo að eg fari ekki lengra en til þeirra atburða, sem eg hefi sagt ykkur frá í kveld — er það einhver hluti af vitund Steads, sem sjálfur verður var breytinga, sem eiga að gerast í lífi hans innan ákveðins tíma, og gerir viðvart um það þeim vitundar-hlutanum, sem að jafnaði er að starfa? Er það líka einhver hluti af vitund Steads, sem sér fyrir andlát E. M. og að peningarnir komi frá Ameríku, og skrifar um þetta undir nafni Júlíu? Og er það einhver hluti af vitund annararhvorrar mæðgnanna, sem sér fyrir mótorslysið og kemur vitneskjunni á framfæri í borðhreyfingunum?

Eða er bak við þetta vitund einhverrar annarar veru, sem kemur vitneskjunni á framfæri gegnum hug Steads, í skrift hans og í borðhreyfingunum hjá mæðgunum? Eg ætla ekkert um það að fullyrða í kveld. Eg gæti engar sannanir fært að máli mínu, þó að eg færi að fullyrða eitthvað.

Að öðru leytinu skal eg benda ykkur á það, að við rannsókn dularfullra fyrirbrigða

hafa komið upp úr kafinu ýmsir dulrænir hæfileikar, sem með manninum búa. Mér þykir alls ekki ólíklegt, að einn þeirra sé sá að sjá fram í ókomna tímann, þó að vér skiljum ekki, hvernig það gerist. Mér þykir alls ekki ólíklegt, að með oss búi allir þeir hæfileikar, sem til eru í tilverunni, því að eg trúi því, að ritningin hafi rétt að mæla, þegar hún fullyrðir, að vér séum guðs ættar. Mér finst, að þessir dulrænu hæfileikar, sem eru að finnast með mönnunum, eigi að vera oss óumræðilegt fagnaðarefni. Þeir benda svo ótvíræðlega út yfir þetta jarðneska. Þeir benda inn á land eilífðarinnar. Þeir gera að eins vart við sig hér. Þeim bregður fyrir eins og leiftrum. Þeir fá ekki notið sín hér í efnisheiminum. En úr því að vér höfum þá, virðist mér annað óhugsandi en að vér eigum eftir að komast á það tilverustig, þar sem þeir fá notið sín.

Að hinu leytinu verð eg að benda yður á það, að það er ekki eins mikið út í loftið, eins og sumir virðast halda, að mjög margir hafa komist að þeirri niðurstöðu, að sumir fyrirboðarnir að minsta kosti stafi frá vitsmunaverum á æðra tilverustigi en því, sem vér stöndum á. Það er áreiðanlegt, að margir, sem komist hafa á þá skoðun, hafa verið mjög tregir til þess, og ekki gert það, fyr en

þeim hafa fundist öll önnur sund lokuð. Það var ekki út í bláinn, að Stead var sannfærður um það, að sú Júlía, sem lét hann skrifa, væri í raun og veru Júlía Ames. Hún hafði fært sterkar sannanir að því. Með þær sannanir í huga virðist mér afar-torvelt að trúa því, að einhver partur af vitund Steads hafi skrifað fyrirboðana um andlát E. M. og peningana frá Ameríku undir nafni Júlíu. Og mér finst líkt fremur torvelt að trúa því, að einhver partur af vitund mæðgnanna hafi fyrst leitað upp, úr vitund einhvers jarðnesks manns, framliðinn mann, sem þær höfðu aldrei heyrt nefndan, til þess að gera hann að ábyrgðarmanni að viðvörun til konu, sem þeim gat ekki verið neitt sérstaklega ant um — konu, sem einmitt hafði staðið í nánu vináttusambandi við þann framliðna mann, sem vitundarpartur þeirra hafði fundið með einhverjum, oss gersamlega óskiljanlegum, hætti. Þetta er óneitanlega nokkuð flókin skýring. Eg kannast hreinskilnislega við það, að mér finst trúlegra, og að minsta kosti alveg eins vísindalegt að álykta, að framliðni maðurinn N. hafi í raun og veru komið fyrirboðanum á framfæri.

Það er eðli okkar mannanna að reyna að skýra alla hluti, með öðrum orðum,

reyna að gera þá sem minst dularfulla í hugum okkar. Friðleysi mannsandans eftir að finna skýringar á fyrirbrigðum tilverunnar eigum vér að mjög miklu leyti það að þakka, hvað mannkynið hefir komist langt upp úr dýrunum. Ein tilraunin til þess að skýra þau dularfull fyrirbrigði, sem við nefnum fyrirboða, er þá sú, að vitneskjan komi einhvern veginn frá verum á öðru tilverustigi, t. d. framliðnum mönnum. Reyndar má segja, að það út af fyrir sig sé engin skýring, því að það sé jafn-óskiljanlegt, að framliðnir menn sjái hlutina fyrir fram, eins og að jarðneskir menn sjái þá. En menn láta ekki heldur alveg við það sitja. Menn hugsa sér, að þessar verur, sem eru okkur ósýnilegar, sjái hlutina fyrir á sams konar hátt og við sjáum þá fyrir venjulega, dragi ályktanir af einhverjum þekkingaratriðum, sem eru oss hulin, af því að við höfum minni þekkingu, eins og t. d. sérfræðingur getur vitað ýmislegt fyrirfram í sinni grein, það sem öðrum er hulið. Sumir ensku rannsóknamennirnir, svo sem Frederic Myers, hafa sem allra-lengst viljað halda í þá skýringu.

Eg kannast við það, að þessi skýring getur oft verið sennileg. En það verð eg að segja, að því fer fjarri, að hún fullnægi mér

æfinlega. Eg held, að málið sé oft miklu flóknara. Eg held, að okkur vanti einhvern lið inn í, sem við botnum enn ekkert í.

Eg skal taka til dæmis sögu, sem virðist vera fullkomlega áreiðanleg og sögð er í þessu eina hefti, sem komið er út af „Leiftrum“ Hermanns Jónassonar. Flokkur manna var væntanlegur í Borgarnes utan af Mýrum einn tiltekinn dag síðdegis. Um hádegisbilið þennan dag sér prófastsfrúin á Borg, ásamt þremur stúlkum, menn koma ríðandi eftir þjóðveginum og stefna til Borgarness. Þær þekkja glögglega einn manninn, á bleikum hesti, sem hann átti. Hann fer snöggvast af baki hjá kirkjuhorninu. Þær ganga að því vísu, að þetta muni vera fólkið, sem von var á, enda mjög sennilegt, að maðurinn, sem þær þektu, mundi vera í þessum hóp. Þær furðar á, hvað fólkið kemur snemma, og frúin færir þetta í tal við tvo syni sína. Þeir höfðu báðir séð fólkið, og þekt manninn, sem fór af baki. Svo sannaðist það, að þetta höfðu engir menn verið, og enginn hafði farið um veginn. Fólkið kom utan af Mýrum síðar um daginn. Fólkið á Borg þekti, að þetta var sami hópurinn, sem það hafði séð áður um daginn, og maðurinn, sem það hafði þekt og farið hafði af baki hjá kirkjuhorninu, hann e r með í ferðinni, ríður

bleika hestinum og fer af baki hjá kirkjuhorninu.

Þetta er nokkurn veginn svo skýr fyrirboði, sem nokkur fyrirboði getur verið. En afar-örðugt er mér að setja hann í nokkurt samband við verur í öðrum heimi í þeim skilningi, sem Myers talar um og eg gat um áðan — að þær hafi t. d. reiknað út af einhverri okkur dularfullri þekkingu, að maðurinn mundi fara af baki bleika hestinum við kirkjuhornið á Borg, og að frá þeim hafi borist skeyti um það inn í þennan heim.

Eg get ekki stilt mig um að segja ykkur dálítið skringilega sögu af svipuðu tæi, og það verður síðasta fyrirboðasagan í þetta sinn. Söguna sagði mér ungur námsmaður af Austurlandi, gætinn piltur og vandaður og talinn óvenjulega vel gáfaður af kennurum sínum. Hann hefir orðið fyrir ýmsu dulrænu. Á Austurlandi trúa ýmsir því, að til séu draugur, er nefndur er sérstöku nafni, sem eg ætla ekki að nefna nú. Eitt kveld, þegar pilturinn fer að sofa, var auð jörð. Um nóttina dreymir hann, að hann sé staddur úti hjá bænum; þá er komið föl á jörð, þykir honum, og hann sér koma mann, sem þessi draugur átti að fylgja. Spölkorn á undan manninum þykir honum draugurinn ganga. Alt í einu dettur draugurinn

á stað, sem hann man nákvæmlega, hvar var, rétt fyrir vestan bæinn; draugurinn dettur á vinstra hnéð og vinstri olnbogann og hægri fóturinn krækist yfir vinstri fótinn. Hann segir drauminn um morguninn.

Daginn eftir er hann staddur úti. Þá er komið föl eins og í draumnum. Og hann sér sama manninn koma vestan að bænum, sem hann hafði séð um nóttina í draumnum, drauglausan samt, og detta á nákvæmlega sama stað eins og draugurinn hafði dottið og nákvæmlega eins og draugurinn: á vinstra hnéð og vinstri olnbogann, og hægri fóturinn kræktist yfir vinstri fótinn.

Eg vona að þið skiljið það, að eg er ekki að segja þessa sögu sem draugasögu. Mér stendur á sama um drauginn. Pilturinn hafði áður heyrt, að draugurinn fylgdi þessum manni. Það virðist líklegt, að þegar hann sá manninn í draumnum, hafi ímyndunarafl hans bætt draugnum við. En hitt stendur mér ekki á sama um, að hann dreymir manninn, án þess að nokkur von sé á honum, að hann dreymið fölið á jörðinni, að hann dreymir nákvæmlega staðinn, þar sem fallið gerist, að hann dreymir nákvæmlega hvernig fallið verður — og að þetta kemur alt fram daginn eftir. Það er beinlínis ólíklegt, að þetta séu eingöngu algengir

draumórar eða einhver tilviljun. Menn verða að ætla, að eitthvert samband sé milli draumsins og atburðanna daginn eftir. Með öðrum orðum: menn verða að telja þetta fyrirboða. En mjög finst mér það óaðgengilegt að hugsa sér, að fyrirfram-vitneskjan um þetta, að maðurinn dettur þarna á túninu — án þess að meiða sig nokkuð — sé fengin fyrir djúpsetta þekkingu, sem verur í öðrum heimi hafa, og svo send þaðan inn í þennan heim.

En þó að eg segi þetta, verð eg að halda því fast fram, að allar líkur séu til þess, að fyrirboðarnir stafi stundum frá öðrum heimi, og þá sérstaklega frá framliðnum mönnum. Eg held ekki, að þeir menn, sem hafa nokkuð veigamikla þekkingu á málinu, geti komist undan þeirri ályktun.

En ef vér á annað borð ljáum þeirri hugsun rúm, að fyrirboðarnir kunni stundum að stafa frá framliðnum mönnum, þá virðist mér eðlilegt, að vér gefum því gaum, hvað þau vitsmunaöfl, sem segja sig vera framliðna menn, segja um málið. Eftir einn fyrirboðann, sem Júlía kom með hjá Stead — fyrirboða, sem eg hefi ekki sagt ykkur frá — spyr Stead hana, hvernig það geti verið, að hún sjái hluti fyrirfram. Þá skrifaði hún: „Við getum að eins séð það,

sem okkur er leyft að sjá; við getum ekki séð alt, sem við viljum sjá. Til dæmis að taka get eg ekki séð alt, sem þú munir gera. Eg get séð fyrir sumt, sem fyrir þig mun koma, og sumt af þessu er mér leyft að segja þér. Aftur er annað, sem mér er ekki leyft að segja þér. Það er ekki líklegt, að mér skjátlist með það, sem eg í raun og veru sé.“ Mér finst rétt að geta þess, að á tilraunafundum hér í Reykjavík hafa menn fengið nákvæmlega sömu skýringar á þessum efnum eins og þær, sem Júlía hefir komið með.

Séu þessi ummæli Júlíu rétt, þá eru þau óneitanlega fróðleg. Þau benda á það, að framliðnir menn standi undir stjórn æðri máttarvalda, sem þeir vita af, máttarvalda, sem hafi nákvæmt eftirlit með því, hvernig þeir noti hæfileika sína, máttarvalda, sem takmarki samband þeirra við þennan heim, máttarvalda, sem þeir verði að hlýða.

Eg gat þess áðan, að eg vissi til þess, að sumum mönnum væri illa við fyrirboðana, af ástæðum, sem eg mintist á. Eg þekki líka menn, sem elska þá. Þeim finst þeir vera einhver ljósasta bendingin um það, að yfir oss sé vakað í öðrum heimi. Og þeim finst sú hugsun flytja sér óendanlega huggun og frið. Þeir segja auðvitað, að þeir skilji

ekki, hvernig á því standi, að vér skulum ekki verða oftar þeirrar umönnunar varir. En þeir segja, eins og satt er, að vér þekkjum ekki það lögmál, sem þetta lýtur. Og þeir segja líka, eins og líka er satt, að þeir viti ekki, hvað æðri vitsmunir tilverunnar kunni að telja þeim holt og heillavænlegt. En þeir fyrirboðar, sem koma, og mennirnir taka eftir, eru þeim trygging dásamlegrar góðvildar handan af landi eilífðarinnar.

Og nú langar mig til að spyrja ykkur í hjartans einlægni og svo góðlátlega, sem eg get: Finst ykkur það ekki sæmilega veglegt rannsóknarefni fyrir mennina, hvort mannsandinn er í raun og veru gæddur þeim óhemjulega hæfileik að geta séð fram í ókomna tímann, hvort unt sé að fá sannanir þess, að maðurinn lifi, þótt hann deyi, hvort unt sé að fá sannanir þess, að vinir okkar vaki yfir okkur með ástríkum hug hinumegin við móðu dauðans?

Mér dettur í hug ofurlítil saga frá Vesturheimi. Maður þar átti afarsterkan stjörnukíki. Forsetakosningar-barátta var að fara fram í Bandaríkjunum. Mr. Taft og Mr. Bryan börðust um völdin. Meðan á þeirri baráttu stóð, fékk ákafur stjórnmálamaður að líta í kíkinn eitt kveldið og horfði á hnapp

af stjörnum. Honum var sagt, að allar þessar stjörnur tækju ekki yfir stærri blett á himinhvolfinu en tunglið. „Og þér segið mér, að allar þessar stjörnur séu sólir, líkar okkar sól?“ sagði stjórnmálamaðurinn. „Já.“ „Og að það geti verið, að kringum hverja þessa stjörnu snúist fjöldi pláneta, eins og kringum okkar sól?“ „Já.“ „Og að það kunni að vera líf á öllum þessum plánetum?“ „Það getum við ekki fullyrt neitt um, en það getur vel verið, að það sé líf á mörgum þeirra.“ Stjórnmálamaðurinn var hugsi dálitla stund. Þá stóð hann upp og sagði: „Þegar alt kemur til alls, þá gerir það ekkert til, hvort Taft eða Bryan verður kosinn.“

Nei, það gerir ekkert til um alt okkar þjark í samanburði við dásemdir alheimsins. Stjórnmálamaðurinn sá eins og opnast ofurlítið gat á himinhvelfingunni, ekki stærra en tunglið. Hann sá þar sjón, sem fylti hann lotningu. Hann fann, að það, sem honum hafði þótt mest um vert, var ekki annað en smámunir.

Hugsið ykkur, að það kunni að vera að opnast ofurlítið gat á fortjaldinu milli þessa heims og annars — þó að það væri ekki stærra en tunglið. Mundi ekki vera fyrir því hafandi að líta inn um það? Mundi ekki alt

okkar brask, öll okkar hlaup eftir hinum og öðrum stundlegum gæðum, verða nokkuð lítilvæg í augum okkar í samanburði við þá sjón? — alveg eins og vegsemd og mikilvægi stundarinnar, sem er að líða, verður nokkuð smávægileg í samanburði við aldaraðir eilífðarinnar. Það eru til miljónir manna, sem segjast hafa séð inn um gatið, þó að óglögt hafi það verið.

En þó að við séum svo gerðir, að við kærum okkur ekki um að líta inn, þó að við látum við það sitja að hlusta á frásagnir um dásamlega leyndardóma tilverunnar — eins og fyrirboðarnir óneitanlega eru — og íhuga þær, þá finst mér, að það ætti ekki að þurfa að verða alveg árangurslaust. Mér finst, að það ætti að eyða stærilætinu, sjálfbirgingskapnum. Mér finst, að það ætti að verða eins og rigning ofan í moldviðri þekkingarhrokans, sem þykist fær um að neita öllu, sem hann skilur ekki. Mér finst, að það eigi að fylla okkur lotningu fyrir þeirri tilveru, sem við erum í settir, tilveru, sem er svo óendanlega miklu margbrotnari og dularfyllri og dásamlegri og hátignarlegri en mannkynið hefir dreymt um. Mér finst, að það eigi að koma okkur til þess að taka af hjarta undir með sálmaskáldinu eyfirzka;

„Eg fell í auðmýkt flatur niður
ó fótskör þína, drottinn minn.“

Má eg að lokum segja ykkur örstutt á-grip af ofurlitlu æfintýri. Eg veit ekki, hvort þið hafið heyrt það áður.

Ungur álfakonungur var með drotningunni sinni að kanna lönd sín, sem hann hafði nýfengið að erfðum. Hann var að leita að fegursta staðnum, til þess að reisa þar bústað handa þeim hjónunum. Hann leitað lengi. Sitt var að hverjum staðnum. Að lokum réð hann af að setjast að sunnan í einum ás. Útsýnið var fagurt. Fjöll og fjörður blöstu við. Skógur skýldi að norðan fyrir næðingunum. Ánægður var hann samt ekki að fullu. Lakast þótti honum það, að sjaldan sást heiðskír himinn. En hann hélt, að, að öllu samanlögðu, mundi hann ekki fá annan betri stað.

Álfakonungurinn skildi fuglamál. Og hann hefir sjálfsagt heyrt betur en við. Hann heyrði undarlega yndislegan fuglasöng úr fjarska, frá einhverjum stað hinumegin við skóginn. Og fuglarnir sungu: Komið hingað, komið hingað!

Álfakonungurinn fann, að ekki gat hann sezt að þar, sem hann var nú. Þessi dular-

fulli söngur gerði hann friðlausan. Hann varð að ganga á hljóðið. Og þegar hann kom á staðinn, þar sem fuglarnir höfðu sungið, þá þótti honum þar miklu fegurra en á hinum staðnum. Sólarlagið var svo óumræðilega dýrlegt. Samt var hann ekki alveg ánægður. Að minsta kosti hlaut að vera fallegra úti á einni blágrænu skýjaeyjunni, sem synti í gullhafi vesturloftsins. En þangað gátu þau hjónin ekki komist. Þá heyrði hann aftur úr fjarska dularfulla fuglasönginn: Komið hingað, komið hingað! Og enn lögðu þau af stað.

Eg verð að fara fljótt yfir sögu. Þau settust hvergi að. Alt af teygði fuglasöngurinn þau lengra og lengra, lengra og lengra. Þangað til þau voru komin að dásamlegustu höll tilverunnar, sem þrjár gyðjur höfðu reist: gyðja vizkunnar, gyðja fegurðarinnar og gyðja kærleikans. Þá sungu fuglarnir rétt við eyrun á þeim: Hingað áttuð þið að komast! En þá tóku þau eftir því, að leitin hafði staðið um aldir alda.

Tilveran, sem við erum sett í, er undarlegasta og fallegasta æfintýrið, sem samið hefir verið. Hún er æfintýri föður okkar á himnum. Sjálf er hún dularfylsta fyrirbrigðið. Leyndardómar hennar eru, eins og fuglarnir í æfintýrinu, alt af að syngja okkur

áfram, áfram, lengra og lengra, inn í dýrð alheimsins. Við verðum að hlusta. Við verðum að ganga á hljóðið og leita.

Hvers vegna ætti leitinni að verða lokið, fyr en við verðum komin þangað, sem við sjáum að sjálf vizkan, sjálf fegurðin, sjálfur kærleikurinn býr?

# „Mikilvægasta málið í heimi“

Erindi flutt víðs vegar 1918.

---

Lesendur Reykjavíkurblaðanna hafa vafalaust flestir tekið eftir einkennilegum ritgjörðum í vor í 2 vikublöðunum, Ísafold og Tímanum. Þær voru eftir tvo af heimsfrægustu vitmönnum Englendinga — Ísafoldarritgjörðirnar eftir skáldsagnahöfundinn Sir Arthur Conan Doyle, Tíma-ritgjörðin eftir eðlisfræðinginn og háskólarektorinn Sir Oliver Lodge. Þær voru þýddar í íslenzku blöðin úr stórmerkum og vandfýsnum ritum. Conan Doyle hafði ritað sínar greinar í aðalmálgagn nýju guðfræðinnar á Englandi, „Christian Commonwealth“. Ritgjörð Lodge hafði staðið í einu helzta mánaðarritinu, sem Englendingar eiga, „Nineteenth Century and After“.

Þessar ritgjörðir Englendinganna eru um mál, sem nefnt hefir verið ýmsum nöfnum hér á landi. Stundum hefir það verið nefnt rannsókn dularfullra fyrirbrigða, stundum sálarrannsókn-

ir eða sálarlífsrannsóknir, stundum spiritismi. Þeir, sem ekki hirða um að vera nákvæmir í orðavali sínu, eða skilja ekki, hvers eðlis málið er, hafa venjulegast nefnt þetta mál andatrú. Einfaldasta atriði, í margra augum aðalatriði, þessa máls er sú þekking, sem mikill fjöldi manna um allan heim tjáir sig hafa fengið á því, að mennirnir haldi áfram að lifa eftir andlátið og að jarðneskum mönnum sé unt að komast í vitundar-samband við þá. Þessi þekking er ekki neitt hugrænt trúaratriði. Hún er alveg óskyld þeirri trúarreynslu sem megnið af kirkjunnar mönnum heldur að mannkyninu nú á dögum. Hún er ekki háð neinum trúarskoðunum, eða neinum hugmyndum, sem menn kunna að hafa gert sér um alheiminn. Allir eiga kost á að fá hana — alveg eins og hverja aðra þekking — með lestri og tilraunum. Hún er vísindalegs eðlis. Hún er reist á sams konar sönnunum og þeim, sem teknar eru gildar til þess að draga ályktanir í vísindunum og í félagslífi mannkynsins, til dæmis að taka af dómstólunum.

Þetta mál telur Conan Doyle „mikilvægasta málið í heimi“. Það er nokkuð djúpt tekið í árinni — finst ykkur ekki? Það er ekki neinn prestur eða heimatrúboðsmaður

eða heiðingjatrúboði, sem segir þetta. Þeim mönnum farast flestum alt annan veg orð. Ekki er þetta heldur neinn ofsafenginn heilabrotamaður, fráhverfur jarðneskum efnum. Því síður er hann neinn fáfræðingur, flón eða gláni. Hann er læknir, heimsfrægur skáldsagnahöfundur, maður, sem hefir grætt mikið fé, maður, sem hefir látið sum stórmál veraldarinnar mjög til sín taka, og fyrir það verið gerður að aðalsmanni af brezku stjórninni. Ekki er þetta heldur sagt í neinni fljótræðis-hrifningu. Það er sagt eftir 30 ára rannsókn. Í augum þessa manns er þetta „mikilvægasta málið í heimi.“ Um það er þá meira vert, eftir því sem hann lítur á, en allar aðrar hliðar á menningar-viðleitni mannkynsins. Meira vert um það en allar aðrar ráðgátur, sem mennirnir eru að fást við. Meira vert um það en öll gróðafyrirtæki veraldarinnar. Meira vert um það en baráttuna gegn fátæktinni. Meira vert um það en baráttuna gegn sjúkdómunum. Meira vert um það en allar aðrar vísindalegar uppgötvanir. Meira vert um það en stórfenglegustu styrjöldina, sem nokkuru sinni hefir verið háð á þessari jörð. Þegar litið er til þess, hvað mörg þau mál, sem mannkynið er að glíma við um þessar mundir, eru óhemjulega

merkileg, þá er það óneitanlega nokkuð „stór orð“, að málið, sem Conan Doyle ritar um í „Christian Commonwealth“, sé „mikilvægasta málið í heimi“.

Ekki er ófróðlegt að gefa því jafnframt gaum, að Conan Doyle er ekki fyrsti maðurinn, sem hefir látið hafa þessi „stóru orð“ eftir sér. Þeir eru vafalaust margir, sem hafa látið sér þau um munn fara. Þeir skifta áreiðanlega mörgum þúsundum, — og margir þeirra með mestu vitmönnum veraldarinnar — sem eru Conan Doyle sammála um þetta efni. En lítill vafi er á því, hvaðan hann hefir tekið fyrirsögnina fyrir ritgjörðum sínum. Ummælin eru eftir Gladstone gamla. Þegar hann var gerður að heiðursfélaga Sálarrannsóknafélagsins brezka, þakkaði hann þá sæmd í bréfi, og tók það þar fram, að þessar rannsóknir séu „mikilvægasta verkið, sem menn séu að vinna í heiminum — lang-mikilvægasta verkið.“

Sir Oliver Lodge snýr sér til kirkjunnar manna með þungum alvöruorðum, skorar á þá að taka málið að sér, vegna þess óhemjulega mikilvæga sannleika, sem í því sé fólginn. Hann sannar það, að mótspyrna þeirra gegn málinu sé gersamlega andstæð atferli meistara þeirra, Jesú Krists. Hann fullyrðir, að haldi þeir mótspyrnunni áfram, muni

kirkjan súpa seiðið af því. „Hví geta þeir ekkert lært?“ segir hann — og það er líklegast mestu óþolinmæði-orðin, sem sá mikli stillingarmaður hefir látið frá sér fara á prenti. „Hví geta þeir aldrei mætt sannleikanum á miðri leið og beðið hann vera velkominn, með útbreiddan faðminn?“

Það er bersýnilegt, að sannfæringin hlýtur að vera sterk, þegar heimsfrægir menn, sem vitanlega finna til mikillar ábyrgðar á orðum sínum, tala svo frammi fyrir heiminum. Og það er líka bersýnilegt, að málinu hlýtur að hafa þokað allmikið áfram i þeim löndum, þar sem helztu tímaritin — einmitt þau tímaritin, sem lesin eru um allan hinn mentaða heim og stjórnað er af mestri ábyrgðartilfinningu, — eru látin flytja slíkar kenningar. Helztu tímaritin eru allglöggur mælikvarði á það, hvern byr málefnin eiga með þjóðunum á þeim og þeim tíma, án nokkurar hliðsjónar á því, hvert sannleiksgildi er í þeim málefnum fólgið. Eg hefi sjálfur fengið að þreifa á því mjög greinilega. Þegar eg tók við ritstjórn Skírnis fyrir 10—11 árum, gerði þáverandi forseti Bókmentafélagsins það að skilyrði þess að mér yrði falin ritstjórnin, að eg hleypti ekki inn í ritið neinum greinum um rannsókn dularfullra fyrirbrigða.

Mér fanst auðvitað, að þetta skilyrði ætti ekki að setja. Þetta var að minsta kosti málefni, sem varðaði mannkynið meiru en sumt af því, sem í Skírni hafði staðið. Hvers vegna ekki lofa mönnum að ræða það, með og móti, ef einhverjir voru, sem höfðu þekkingu á því? Ef málið stafaði af einhverjum misskilningi, þá voru það að sjálfsögðu umræður, sem helzt gátu eytt honum. En ef það flutti mönnum sannleika, sem öllum þorra manna var dulinn, þá fanst mér það sæmd fyrir tímarit Bókmentafélagsins að vinna að einhverju leyti að því að hjálpa þeim sannleika áfram. Mér finst, að meiri sæmd geti engum hlotnast en að bera gæfu til að hjálpa áfram sannleikanum. En um slíkt var ekki til neins að tala á þeim tímum. Og eg sá, að ef til vill var ósanngjarnt að heimta af Skírni meiri sannleiksást en öðrum varfærnum tímaritum mentaþjóðanna. Þá tóku fæst þeirra ritgjörðir um dularfull fyrirbrigði. Flest hafa þau beðið eftir því, að menn, sem ekki hafa verið altaf að hugsa um sjálfa sig, né hvað um þá yrði sagt, ynnu nokkurn bug á mótspyrnunni, að þeir menn ryddu brautina, sem hafa verið með þeim ósköpum gerðir að hafa meiri lotning fyrir sannleikanum, jafnvel þegar hann hefir sætt háð-

ung og misþyrmingum, en nokkuru öðru valdi — hvort sem það hefir verið fyrirdæmandi vald kirkjunnar, glottandi vald fræðimannanna, æpandi vald múgsins, eða eitthvert annað vald. Og nú er svo komið, að ekki stendur lengur á varfærnu tímaritunum að flytja ritgjörðir um málið, ef þau geta fengið þær—væntanlega ekki heldur á Skírni. Eg hefi ástæðu til að ætla, að það rit mundi ekki n ú úthýsa ritgjörðum um málið, sem samdar væru af sæmilegri þekkingu. Því að málið hefir eflst hér á landi, ekkert síður en í öðrum löndum, tiltölulega við fólksfjölda. Það er vafasamt, hvort nú eru önnur mál hér á landi, sem menn fýsir öllu meira að heyra talað um og að lesa um.

Einn af hinum ljósu vottum um það, hvað þetta mál hefir eflst hér á landi á síðustu árum, er Hirðisbréf biskupsins, dr. Jóns Helgasonar. Hann hefir sýnilega litið svo á, sem fram hjá þessu máli geti yfirmaður kirkjunnar hér á landi ekki gengið lengur þegjandi. Hann hefir sannfærst um það, að þrátt fyrir nokkurn andróður hefir þetta mál fengið „góðar viðtökur“ hér á landi, og hann telur það rétt, að hann gefi prestunum bendingu um það, hvernig honum virðist, að þeir eigi við því að snúast. Auðvitað lít eg nokkuð öðrum

augum á málið en mér skilst af Hirðisbréfinu að biskupinn líti á það; eg hygg, að það sé fyrir þá sök, að eg hefi kynst því meira en hann. Í mínum augum er það mikilvægara en mér skilst af Hirðisbréfinu, að það sé í hans augum. En að hinu leytinu ber við það að kannast, — og einhvern tíma verður mönnum það alment ljósara en nú, — að ummæli biskupsins um þetta mál eru íslenzkri kirkju til sæmdar. Þar er meira víðsýni og meiri skilningur á þessu efni en mér er kunnugt um, að enn hafi komið fram hjá nokkurum öðrum biskupi á Norðurlöndum.

Ekki ber þess að dyljast, að enn koma raddir frá mönnum, sem að öðru leyti er tekið mikið mark á, um það, að þetta mál sé ekki annað en misskilningur og vitleysa. Þessar raddir koma frá mönnum, sem hafa ekki rannsakað málið og eru ófróðir um það. Mér er með öllu ókleift að færa sönnur á það hér, að þessir menn séu að vaða reyk. Mér væri ekki til neins að fara að reyna að sanna ykkur spiritismann á þeirri stuttu stund, sem eg get við ykkur talað. Sannanirnar eru í miklum sæg af bókum. Og þær verða ekki lagðar fram nema í mörgum bókum — að minsta kosti ekki svo, að að fullu haldi komi.

Málið er svo víðtækt, og það er að ýmsu leyti svo flókið. Hér er orðið um heila vísindagrein að tefla.

Það er Íslendingum sæmd, að á síðustu árum hefir lítið sést á íslenzku af þessum vanþekkingar-fullyrðingum gegn spiritismanum. Eg minnist þess ekki, að hafa nýlega séð neitt af því tæinu annað en staðhæfing Þorvalds Thoroddsen próf. í Ársriti Fræðafélagsins í Kaupmannahöfn, staðhæfing, sem tekin hefir verið upp í ritgjörð í Skírni, eins og hún væri einhver sérstakur vísdómur. Hann fullyrðir þar, að spiritisminn sé ekkert annað en trú, eins og svo mörg önnur trúarbrögð, og eigi ekkert skylt við vísindi. „Fyrir hinu dularfulla sambandi andatrúarmanna við annan heim hefir enn eigi fengist minsti snefill af vísindalegri sönnun,“ segir hann. „Hingað til hefir að eins tekist að sanna, að mörg dularfull fyrirbrigði í sálarlífi manna standa í sambandi við veiklað taugakerfi og benda á ýmsa fyr lítt athugaða eiginleika í sálarlífi manna. En þar með hefir ekki fengist neitt samband við annan heim, andaheim, eða sálir framliðinna.“

Auðvitað er Þ. Th. merkur vísindamaður. Mér er fjarri skapi að vilja að nokkuru leyti rýra það álit, sem hann á skilið. En um þetta

mál er hann ófróður, og hann hefir fyrir því ekkert vit á því. Mér þykir vel til fallið í þessu sambandi að benda á nýkomin ummæli í hávísindalegu tímariti, sem gefið er út af einum af heimspekilega fróðustu lærdómsmönnunum, sem til eru á jörðunni. Þau eru þessi:

„Sama sem hver einasti rannsóknarmaður, sem hefir verið hæfur til starfsins, og lagt stund á að kynna sér fyrirbrigðin, hefir sannfærst um sambandið við annan heim. Aðrir menn eins og Hodgson, Hyslop, James, Lodge, Crookes og Barrett, og margir aðrir, sem hafa rekið rannsóknarstarfið árum saman, verða þungir á metunum hjá mönnum, eins og þeir gerast alment, andspænis mönnum, sem ef til vill eru eins mikið kunnir, en hafa lagt litla eða alls enga stund á að kynna sér málið.“ Og síðar í þessari ritgjörð stendur, að þegar vísindamenn fari að láta uppi skoðanir sínar utan þeirra sérstaka þekkingarsviðs, þá hafi þær skoðanir ekki meira gildi en ímyndanir hverra annara ófróðra manna.

Einu atriði að eins langar mig til þess að bæta við þessa umsögn úr tímaritinu. Mér finst ekki ófróðlegt né óskemtilegt að athuga það, að einmitt um líkt leyti, sem þessi íslenzki Kaupmannahafnar-vísinda-

maður lét frá sér fara út í heiminn þessa staðhæfing, sem eg hefi nú minst á, sendi annar vísindamaður, sem að minsta kosti er engu ófrægari, aðra staðhæfing út í heiminn. Það er Sir William Crookes.* Það er víst ekkert ofmæli, að enginn efnafræðingur né eðlisfræðingur sé til á jörðunni, sem sé talinn merkari en hann. Og þó að hann sé á 86. árinu, hefir þótt nauðsynlegt, vegna vitsmuna hans og þekkingar, að skipa hann í ýmsar nefndir, sem brezka stjórnin hefir sér til ráðuneytis á þessum örðugu tímum, þegar meira reynir á mannvitið en nokkuru sinni áður í sögu mannkynsins. Staðhæfingin, sem Sir William Crookes sendi út í heiminn í desember í vetur, var sú, að honum hefði auðnast að fá ljósmynd af framliðinni konu sinni. Hann fór til manna, sem tekist hefir um mörg ár, fyrir sérstaka miðilshæfileika, að fá slíkar myndir á ljósmyndaplötur. Hann lét ekkert uppi um það, til hvers hann ætlaðist. Hann kom að eins með plötu, sem hann hafði sjálfur merkt, og hann slepti henni ekki fyr en henni var stungið inn í ljósmyndavélina. Hann tók

---

* Svo sem mörgum lesendum mun kunnugt, andaðist Sir William Crookes á síðasta vetri.

við plötunni, jafnskjótt sem hún var tekin út úr vélinni, og hann framkallaði myndina sjálfur. Hann er leikinn ljósmyndari. Enginn maður, sem þekti Lady Crookes, hefir verið í neinum vafa um það, að myndin væri af henni. Myndin er ekki lík neinni annari mynd, sem til er af konunni. Á henni er sami svipurinn eins og var á andliti frúarinnar í banalegunni.

„Mér finst þetta vera mjög góð sönnun," sagði Crookes, um leið og hann lét þessa frásögn um myndina fara frá sér og gaf leyfi til að prenta hana. Mér finst það líka. Og mér finst það, sannast að segja, nokkuð mikil bíræfni, að fullyrða afdráttarlaust, að engar sannanir hafi komið, eins og Þ. Th. gerir — þegar sönnunum er að rigna niður ár eftir ár, mánuð eftir mánuð, dag eftir dag.

Conan Doyle og ýmsir aðrir telja þetta mikilvægasta málið í heimi. En er það rétt á litið? Eg hygg, að svo sé. En eg finn þá líka til þess, að ekki er nóg að fullyrða slíkt. Menn verða að færa einhver rök að því. Það langar mig til að reyna. Eg get auðvitað ekki gert það nema í stuttu máli. Eg get ekki minst á öll þau rök, né allar þær hliðar málsins, sem geta komið til greina. Og enga hliðina get eg útlistað ná-

kvæmlega. Eg ætla að eins að minnast á þær hliðarnar, sem mest hafa fengið á minn hug.

Þó að ekkert væri annað en sá skerfur, sem spiritisminn er að leggja til sálarfræðinnar, þá yrði ekki hjá því komist að segja, að málið sé afarmikilvægt. En á það efni minnist eg nú mestmegnis í því skyni aðsýna, að eg gleymi því ekki. Það er efni í margar bækur, en ekki íkafla úr einnar klukkustundar erindi. Spiritisminn hefir sannað, að með mönnunum býr sægur af hæfileikum, sem menn hafa sumpart alls ekki vitað af, sumpart ekkert skeytt um. Og hann hefir sannað það, sem mest er um vert, að mannssálin er sjálfstæð vera. Sálarfræði nútímans hefir verið borið það á brýn, að hún sé „sálarlaus sálarfræði“. Mér finnast þau ummæli ekki fjarri lagi. Sálarfræðin hefir öll orðið um starfsemi sálarlífsins. Hún hefir ekkert hirt um sálina sjálfa. Sumir sálarfræðingarnir hafa blátt áfram neitað því, að nokkuð það sé til, sem vér höfum um langan aldur nefnt „sál“. Mér er óskiljanlegt annað, en að spiritisminn umturni sálarfræðinni mjög bráðlega, að minsta kosti að því leyti, að þungamiðja hennar verði lögð alt annarstaðar en að undanförnu. En út í það efni er mér ókleift að fara að þessu

sinni — skal að eins taka það fram, að á þetta hefir nýlega verið bent úr sjálfum rektorsstól háskólans okkar.

Spiritisminn flytur okkur langt út af sviði sálarfræðinnar. Hann fer með okkur inn á svið trúarbragðanna og inn í hjartað á siðfræðinni. Eg held, að þegar við förum að hugleiða mikilvægi málsins frá þeim hliðum, sé ekki óhentugt að byrja á því að reyna að gera osss ljósa afstöðu þess til trúarbragðanna.

Mjög mikið hefir verið um það deilt, hvort spiritisminn sé trúarbrögð eða ekki. Einkum hefir verið um það deilt á Englandi á síðustu tímum, af því að spiritisminn hefir eflst þar með svo miklum hraða í hörmungum styrjaldarinnar. Mér finst, að sú deila stafi aðallega af einhliða skilningi á trúnni sjálfri og ófullkomnum skilningi á mönnunum.

Það, sem kristin kirkja, að minsta kosti nútíðarguðfræðin, skilur við t r ú, er ekki sannfæring um neinar sögulegar sannreyndir, heldur meðvitund sálarinnar um dularfult samband við guðdóminn. Að minstakosti heldur einn af mestu lærdómsmönnum Englendinga þessari skilgreining fram. Og hann er ákveðinn kirkjumaður. Vér getum sagt, að hún sé þekking á guði, segir hann, þó að

hún sé ekki þekking á starfs-aðferð hans, sem vér nefnum venjulega lögmál tilverunnar. Hún er meðvitund um návist guðs.

Eg vona, að enginn skilji orð mín svo, sem eg vilji gera lítið úr þessari trú. Eg er viss um, að hún er sú dýrmætasta og yndislegasta gjöf guðs, sem nokkur maður getur þegið. Það er hún, sem hefir verið megin-aflið í stórmennunum í heimi trúarbragðanna. Og sumum smælingjum hefir hún vafalaust gefið forsmekk himnaríkis, mitt í hörmungum og hvers konar neyð. En mér skjátlast stórlega — eg hefi þá að minsta kosti misskilið hrapallega allan þorra þeirra manna, sem eg hefi verið samvistum með á lífsleiðinni — ef þessi gjöf er ekki mjög sjaldgæf. Og eg held, að það sé ekki hættulaust að binda trúarhugtakið við reynslu þeirra manna, sem þessa gjöf hafa þegið.

Sé trúarhugtakinu haldið innan þessara þröngu vébanda, og sé það rétt, sem eg held fast fram, að þessi trúarreynsla sé sjaldgæf, þá eru tvær hættur fyrir höndum — hættur, sem mér sýnist, að hafi orðið mannkyninu óþyrmilegur ásteytingarsteinn.

Önnur hættan en sú, að fjöldi sannleikselskandi manna verði trúarbrögðunum fráhverfur — ekki að sjálfsögðu beint fjandsamlegir þeim, þó að svo fari um marga;

en að þeim finnist trúarbrögðin koma sér ekkert við. Alt af er verið að tala við þá um sálarástand, sem þeir hafa engan skilning á, og þeim finst alt það tal óverulegt. Eg gleymi aldrei manni, sem eg heyrði einu sinni minnast á guð í ofurlitlu samkvæmi. Eg þekti hann nokkuð vel. Eg gat aldrei annað fundið en að hann væri vandaður maður og samvizkusamur; og alvörumaður var hann. Honum var fjarri skapi að tala af nokkurum gáska eða léttúð. Hann sagði, að sér væri blátt áfram óskiljanleg krafan um að elska guð. „Hvað vitum við um guð?“ sagði hann. „Sama sem ekkert. Og ef hann er til, þá er hann þess eðlis, að hugur okkar getur ekki gripið hann. Hvernig eigum við að elska það, sem við getum ekkert skilið í?“ Sumir hneyksluðust á manninum. Enginn tók í strenginn með honum. Öllum mun hafa fundist eitthvað viðsjárvert við það, hvað samræðan var farin að snúast í alvarlega átt. Menn voru þangað komnir til þess að láta vera létt yfir sér, en ekki til þess að sökkva sér niður í jafn-alvöruþrungið efni. En eg gat ekki bundist þess, að fara að hugsa um það á eftir, hvort þessi maður væri ekki eini hreinskilni maðurinn í samkvæminu. Því að þeir eru áreiðanlega miklu fleiri en flesta grun-

ar, sem hugsa eitthvað líkt og þessi maður — þeir, sem á annað borð hugsa nokkuð um þetta.

Hin hættan er sú, að trúarbrögðin verði óveruleg þeim mönnum, sem ant er um að halda í þau. Prestarnir tala um það „líf í guði", sem margir þeirra hafa ekki sjálfir reynt. Og þeir tala við tilheyrendur, sem ekki hafa heldur reynt það. Mér hefir oft fundist þetta einhver átakanlegur blindingjaleikur. Og hvernig er líka komið? Eg vík að því ofurlítið nákvæmar síðar. Eg læt mér nægja að spyrja ykkur nú, hvort ykkur finnist trúarbrögðin vera máttugur veruleikur í þessu lífi okkar. Eg hygg, að hreinskilnir og athugulir menn muni neita því. Eg hygg, að þeim muni flestum finnast nútíðar-trúarlífið nokkuð reykkent.

Spiritisminn fer aðra leið en kirkjan. Hennar boðskapur er allur um það yfirnáttúrlega. Boðskapur spiritismans er ekki um hið yfirnáttúrlega, að minsta kosti ekki í fyrstu. En hann telur ekki neitt yfirnáttúrlegt nema guðdóminn sjálfan. Kirkjan byggir á 19 alda gömlum staðreyndum, þeim er sagt er frá í Nýja testamentinu. Spiritisminn tekur þær staðreyndir yfirleitt gildar, en hann byggir ekki á þeim. Hann byggir á nýjum staðreyndum, sem hann telur sann-

aðar — alls ekki unt að véfengja þær, nema annaðhvort af vanþekking eða skorti á sannleiksást. Og hann tekur staðreyndir Nýja testamentisins gildar af því að þær hafa verið staðfestar af hinum nýju, sannanlegu og sönnuðu staðreyndum, hinum nýju fyrirbrigðum. Hann tekur, til dæmis að taka, gildar frásögurnar um ummyndunina á fjallinu, upprisu Krists og vitrun Páls postula á leiðinni til Damaskus, af því að hliðstæð fyrirbrigði, óvéfengjanlega sönnuð, eru að gerast á vorum dögum.

Spiritisminn fer að því leyti sömu leið og vísindin hafa farið, að hann hefir sömu aðferðir í leitinni eftir sannleikanum. Hann athugar, gerir tilraunir og leitar að lögmálum. En vísindin hafa fram að þessu eingöngu bundið sig við efnisheiminn. Þau hafa fullyrt, að vér gætum ekki fengið neina vitneskju um það, sem utan við hann kynni að vera. Spiritisminn hefir ekki tekið þá fullyrðing gilda. Hann hefir tekið til rannsóknar, að svo miklu leyti, sem honum hefir verið unt, þá heima, sem utan efnisins eru, að minsta kosti þess efnis, sem vér þekkjum.

Hvað hefir honum nú orðið ágengt? Að hverju hefir hann komist?

Eg skal reyna að binda árangur rannsókn-

anna í sem fæstum orðum, að því leyti, sem hann snýr að trúarbrögðunum. Spiritisminn hefir ekki eingöngu komist að því, að sálin er sjálfstæð vera, eins og eg benti ykkur á áðan. Hann hefir líka komist að því, að hún lifir eftir það, sem vér köllum dauða, en er í raun og veru ekki annað en hlið að æðra, fullkomnara lífi. Hann hefir komist að því, að velferð sálarinnar eftir þessa breytingu er undir því komin, hvernig farið hefir verið með þetta jarðneska líf. Ekki má með nokkuru móti draga fjöður yfir það — það væri svik við sannleikann og mannkynið — að hafi illa verið með það farið, og sérstaklega ef það hefir verið fylt með eigingirni og kærleiksleysi, þá geta afleiðingarnar orðið afar-alvarlegar. Það vansæluástand, sem þá tekur við, fyrst eftir að komið er inn í annað líf, getur orðið að eins inngangur að margfalt meiri vansælu. Því að svo virðist, sem freistingarnar fyrir veikan vilja og rangsnúið hugarfar geti orðið miklu magnaðri þar en í þessum heimi. En spiritisminn hefir líka komist að því, að hvenær sem mannssálin vill hverfa frá syndinni, vill fara að lifa í samræmi við það guðdómlega eðli, sem hún hefir í raun og veru, þá eru máttug og góð öfl ávalt þess albúin að lyfta henni upp. Það er eðli-

lega þeim mun örðugra verk, sem hún er lengra komin í því illa. En „það er fögnuður himnaríkis að vera stöðugt að tæma helvíti,“ segir Júlía í einu af bréfum sínum. Að hinu leytinu hefir spiritisminn fengið vitneskju um það, að þeim mönnum, sem hafa farið vel með líf sitt, einkum þeim, sem tekist hefir að fylla sál sína sem mestum kærleika, þeim líður vel þegar eftir andlátið, og þeir berast ört áfram til yndislegra og tignarlegra lífs. Enn fremur hefir spiritisminn komist að raun um það, að vér mennirnir erum hér á jörðunni umkringdir af ósýnilegum verum, á misjöfnu þroskastigi, sumum góðum, er vilja hjálpa okkur til alls, sem gott er, öðrum ófullkomnum, jafnvel vondum, sem vilja teygja okkur til syndar. Áhrifin frá þessum ósýnilegu verum fara að einhverju miklu leyti eftir því hugarfari, sem menn hafa tamið sér. Spilt og rangsnúið hugarfar verður fyrir spillingaráhrifum. Ástúðarfull og samvizkusöm sál verður fyrir ástúðlegum og göfgandi áhrifum. Þar virðast eiga við orð Jesú: „Hver, sem hefir, honum mun verða gefið, og hann mun hafa gnægð, en hver, sem ekki hefir, frá honum mun tekið verða jafnvel það, er hann hefir.“ En jafnframt virðist reynsla vera fengin fyrir því, að auk hinna siðferði-

legu skilyrða jarðneska mannsins séu þessi áhrif háð einhverjum öðrum skilyrðum, sem vér vitum lítið eða ekkert um.

Ein af þeim ósýnilegu verum, sem sannast hefir að reynt hafa að beita áhrifum sínum inn í þennan heim, er Júlía Ames, unga konan, sem ritaði með hendi Steads. Hún lýsir því tilveruástandi, sem hún er nú í, meðal annars á þessa leið: „Þú þekkir ekki og eg get heldur ekki nokkuru sinni látið svo, sem eg ætli að fara að skýra fyrir þér afburða-dásemdir, dýrð og óendanleik þeirrar meðvitundar okkar, að við höfum gert okkur grein fyrir kærleik guðs, sem við lifum, hrærumst og erum í. .... Eg get ekki sagt meira en þetta, að það er stórkostlegra en eg hefi nokkuru sinni gert mér nokkura hugmynd um. .... Alt, sem þú veizt um jarðneskt líf — ást móðurinnar á barni hennar, ást brúðgumans á brúðurinni, ást eiginmanns og eiginkonu — öll jarðnesk ást og fagnaðarfylling tilfinninganna, er eins og stafrófið í tungumáli himnaríkis. .... Sami munur er á því kærleikslífi okkar, og því lífi, sem þið lifið, eins og á dýrð sólaruppkomunnar og gráleitri skímunni, sem kemur á undan afturelding—nema þegar þau háleitu augnablik koma fyrir ykkur, að hjörtun verða logandi af guðdómlegri hrifn-

ing, sem stafar af innblæstri og helgun kærleikans.“

Að hinu leytinu hafa frásagnir komið, sem afarmikil ástæða virðist til þess að taka gildar, af þeim sviðum tilverunnnar, þar sem menn eru vansælir eftir andlátið. Eg ætla ekki að fjölyrða um þær að þessu sinni — að eins benda á það, að þær eru svo íhugunarverðar, að alvarlegra umhugsunarefni getur mannkynið alls ekki fengið.

Enn fremur hefir spiritisminn komist að raun um mátt bænarinnar, að hún er öflugur sambandsliður milli þessa jarðneska heims og æðri heima, hjálpar mönnunum til þess að ná til æðri vitsmuna-vera, hjálpar æðri verum til þess að ná til mannanna. Þeir sem móti bæninni hafa mælt — og þeir eru margir — hafa haldið því fram, að bænin sé fráleit, af því að með henni hyggist menn að breyta ráðsályktunum guðs; slíkt nái engri átt, ef hann sé til á annað borð. Spiritisminn hyggur ekki, að bænin breyti ráðsályktunum guðs. En hann telur það áreiðanlegt, að bænin skapi skilyrði fyrir margvíslegri hjálp — að sínu leyti eins og áveituskurðurinn skapar skilyrði fyrir meira frjómagni, eins og járnbrautin skapar skilyrði fyrir auknum samgöngum, eins og síminn skapar skilyrði fyr-

ir því að menn geti sent hugsanir sínar skyndilega til fjarlægra staða. Langlíklegast er, eftir þeirri vitneskju, sem fengist hefir, að sérhverju bænarandvarpi fylgi einhver blessun, og að yrði mönnum jafn-ljós veruleikur bænarinnar eins og samgöngutækjanna hér í heimi, þá mundu þeir fá breytt þessari ófullkomnu jörð í þann dýrðarheim, sem vér getum nú alls ekki gert oss í hugarlund.

Loks skal eg benda ykkur á það, að vitneskja hefir fengist um það, að vor mikli meistari og bróðir, Jesús Kristur, er konungur yfir þeim heimum, þar sem vér höfum spurnir af framliðnum mönnum. Eg skal ekki fjölyrða um það atriði nú, því að eg minnist á það dálítið rækilegar síðar.

Um þessi atriði, sem eg hefi nú nefnt, hefir þá spiritisminn aflað mannkyninu vitneskju. Sjálfsagt er að kannast við það, að ekki liggja jafn-sterkar sannanir að öllum þessum atriðum. Ekkert atriðið er jafnramlega sannað og það, að menn lifi eftir dauðann. Það er atriðið, sem lang-auðveldast er að sanna. Og það er atriðið, sem langmest rækt hefir verið lögð við að fá sannað, eins og eðlilegt er, þar sem það er undirstaðan undir öllu öðru. En samt hafa rannsóknirnar leitt svo mikið í ljós viðvíkj-

andi hinum atriðunum öllum, að eg sé enga ástæðu til þess fyrir nokkurn mann, sem er sæmilega vel að sér í málinu, að vera í neinum vafa um nokkurt þeirra.

Það má vel segja, að spiritisminn nái ekki lengra en til þessarar vitneskju og annarar vitneskju, sem hann kann að geta aflað sér. Þá er bersýnilegt, að hann er engin trú né trúarbrögð. Enga þekking, sem fengist hefir vitsmunaleiðina, geta menn nefnt trú. En finst ykkur sennilegt, að þessi vitneskja hafi yfirleitt engin áhrif, þegar hún er orðin almenn? Auðvitað geri eg ráð fyrir því, af undangenginni reynslu mannkynsins, að um langan aldur verði alt af til eitthvað af mönnum, sem léttúðin, eða heimshyggjan, eða eigingirnin hafa náð svo föstum tökum á, að hverja vitneskju sem þeir kunna að fá um annan heim, hafi það lítil eða engin áhrif á þá. En eg hygg, að öllum þorra manna sé ekki svo farið. Eg er ekki í neinum vafa um það, að þegar þessi vitneskja er orðin að veruleik í hugum almennings, þá hefir hún stórkostleg áhrif. Eg er ekki í neinum vafa um það, að hún flytji mennina nær guði. Hvern þann mann, sem hefir fengið huga sinn gagnsýrðan af allri þessari vitneskju

og hefir hreinan og einlægan vilja á því að haga sér eftir henni, hann tel eg trúaðan mann — og það þótt hann hafi enga meðvitund um samband sálar sinnar við guðdóminn.

Mér er þá alveg sama, hvort spiritisminn er nefndur trúarbrögð eða ekki. Hann er að minsta kosti engin sérstök trúarbrögð. Hann virðist jafnt geta átt heima í hverri kristinni kirkjudeild sem er — hverri þeirri kirkjudeild, sem ekki er svo ófrjálslynd, að hún þolir ekki þekkinguna. En hitt verður ekki af honum haft, að hann leggur til skilyrðin fyrir skynsamlegu trúarlífi með þeirri þekkingu, sem hann veitir á andlegum heimi. Og menn ættu ekki að gera lítið úr þeirri þekkingu. Það er nefnilega alveg sams konar þekking, eins og Jesús Kristur sjálfur bjó lærisveina sína út með. Með þeirri þekkingu lögðu þeir undir sig heiminn. Það var ekkert annað en þekking á hinum andlega heimi, sem gat bjargað hinni jarðnesku veröld á þeim dögum. Og það er ekkert annað en þekking á hinum andlega heimi, sem virðist geta bjargað veröldinni nú á 20. öldinni og á ókomnum tímum.

Eg ætla nú að reyna að gera nákvæmari grein fyrir þeirri sannfæring minni.

Algengasta svarið hjá þeim, sem vilja

koma sér undan spiritismanum, án þess þó að sýna honum nokkurn fjandskap, er þetta: „Eg þarf ekki þessara rannsókna við. Eg trúi á guð og eg trúi á annað líf. Eg trúi því, að guð sé almáttugur og algóður, og að hann sjái mér borgið.“ Eg geng að því vísu, að margir þessara manna segi þetta öruggir og af einlægri sannfæring. Að hinu leytinu er mér ekki grunlaust um, að sumir þeirra séu ekki jafn-stöðugir á svellinu og þeir þykjast vera, og að trú þeirra væri ekki vanþörf á nokkurri styrking. En hvað sem því líður, hefir mér alt af fundist þeir miða þetta alt saman nokkuð mikið við sjálfa sig. Þeir geta ekki verið í neinum vafa um það, að sumir *aðrir* eru veilir í þessum efnum. Mér finst áhugi þeirra manna, sem svona hugsa og tala, vera nokkuð linur á því að hjálpa hinum mönnunum, sem ganga með Tómasar-eðlið í sál sinni og geta ekki látið telja sig með þeim sælu mönnum, sem trúa, þótt þeir sjái ekki. Einkum beini eg þessu til prestanna — með vinsemd og bróðurhug. Eg efast alls ekki um einlægnina í trú þeirra, það sem hún nær. Mér finst, að því muni fara fjarri, að íslenzkir prestar hafi unnið til neinna ásakana um hræsni eða skinhelgi. Þeir hafa líka fæstir fyrir því að gangast, að það taki því

fyrir þá að vera að tala þvert um hug sinn. En þeirra verk er að glæða trúarlífið hjá öðrum. Hvenær sem einhver kostur er á því að hugga sorgmædda sál, þá er rangt að sæta ekki því færi, þó að það sé með einhverjum öðrum hætti en áður hefir tíðkast. Og reynsla er fengin þess, að þekkingin á spiritismanum hefir huggað þúsundirmanna, sem ekki virðast mundu hafa getað fengið neina huggun eftir öðrum leiðum. Hvenær sem þörf er á að styðja einhvern breyskan og hrösulan bróður á hættubraut freistinganna, er það ábyrgðarhluti að leggjast það undir höfuð. Og reynslan hefir sýnt, að þekkingunni á spiritismanum hefir oft fylgt sá stuðningur, sem ekki virðist mundu hafa getað fengist með öðru móti. Eg vil fá prestana til að taka þetta mál að sér — auðvitað með allri gætni, en af alvöru og einlægni. Samt finst mér rétt að láta þess getið, að ekki líta allir spiritistar á þetta sömu augum og eg. Þeir menn eru til í þeim hóp, bæði í öðrum löndum og líka hér á landi, sem vilja enga aðstoð þiggja frá kirkjunni í þessum efnum. Svo mikilli gremju hafa þeir fylst út af tómlæti og beinum fjandskap kirkjunnar víða í heiminum í garð þessa máls. Þeir eru ekki í minsta vafa um það, að málið vinni algerð-

an sigur. Og þeir vilja ekki láta kirkjuna hafa neina sæmd af þeim sigri. Þessum mönnum er eg mjög ósammála, og hefi alt af verið, eins og þeim er kunnugt um, sem bezt hafa þekt hugsunarferil minn í þessu máli. Eg held, að það væri spiritismanum tjón að verða á öndverðum meið við kirkjuna, og fara á mis við fylgi manna með guðfræðilega mentun. Eg held, að prestar mundu yfirleitt bera málið betur fram en aðrir. Og eg kem því ekki inn í mitt höfuð, að það væri ekki stórtjón, ef þjóðirnar útskúfuðu kristinni kirkju. En að hinu leytinu er eg ekki í neinum vafa um það, að kirkjan er blátt áfram í lífshættu, ef hún lætur sig engu skifta mál, sem er jafn-nátengt átrúnaðinum og siðgæðis-hugsjónunum eins og þetta mál er — að eg nú ekki nefni það, ef hún fjandskapast gegn því.

En mikilvægi málsins er miklu víðtækara. Þið kannist öll við þau orð Krists: „Safnið yður ekki fjársjóðum á jörðu .... en safnið yður fjársjóðum á himni, þar sem hvorki eyðir mölur né ryð, og þar sem þjófar brjótast ekki inn og stela.“ Enginn maður getur á því vilst, hvernig Jesús Kristur hugsaði í þessu efni. Það er ekkert vit í því, eftir hans skoðun, að miða alt, sem

maður sækist eftir, við þetta líf eingöngu. Innan stundar verður það alt hverfult og fallvalt og gersamlega einskisnýtt. Mennirnir eiga að fara inn í annað líf en þetta, og að því lífi eiga þeir að búa til langframa, en alls ekki að þessu lífi. Ef þeir ætla ekki að haga sér eins og fífl, og ef þeir ætla ekki að stofna sjálfum sér í voða, þá verða þeir að sækjast eftir því, sem hefir gildi í hinu komanda lífi. Við það verða þeir, framar öllu öðru, að miða atferli sitt í þessu lífi. Þetta var tvímælalaust skoðun Jesú frá Nazaret.

Mér skilst nú svo, sem það hafi verið aðalverkið, sem kirkjunni var á hendi falið, að koma mönnunum í skilning um þennan, annars einstaklega einfalda og skynsamlega, boðskap, og að fá mannkynið til þess að haga sér eftir honum.

Hvernig finst ykkur henni hafa tekist þetta? Ef til vill virðist ykkur eðlilegt, að henni finnist, að henni hafi gengið nokkuð vel að inna þetta verk af hendi, að henni hljóti að finnast, að hún hafi orðið nokkuð sigursæl, að það sé ekki annað en von, að hún vísi frá sér afskiftum og aðstoð utanaðkomandi og óviðkomandi þekkingar? Mér finst það ekki. Mér finst ekki, að henni hafi gengið vel að koma því inn í okkur, að oss

eigi að hungra og þyrsta eftir réttlætinu. Eg get ekki hugsað mér, að það sé eftirsóknin eftir fjársjóðum á himni, sem hefir komið þjóðunum út í skotgrafirnar.

Eg þykist ekki vera bölsýnismaður. Eg held ekki, að þeim mönnum, sem lesið hafa bækur mínar, hafi yfirleitt fundist eg vera það. Fremur hefir sumum vinum mínum fundist eg vera of bjartsýnn. Eg hefi gert „dýrð mannssálarinnar“ að þungamiðju-hugsuninni í einni af mínum bókum. Og mér kemur ekki til hugar að taka neitt aftur í því efni. Eg hefi orðið var við svo mikið gott og elskulegt í mönnunum, að enginn máttur getur hrakið það burt úr hug mínum. En engum manni, sem lítur með hugsun og viti út yfir þessa jarðnesku tilveru, getur dulist það, að eitthvað verulegt og alvarlegt sé að.

Sannleikurinn — ómótmælanlegur, bláber, helkaldur sannleikurinn — er sá, að hvort sem við lítum á líf einstaklinganna eða þjóðanna, þá verðum við við það að kannast, að við lifum yfirleitt eins og ekkert annað líf væri til. Okkur þykir eitthvað broslegt og annkanalegt, eða þá geðveikiskent, ef menn fara að hugsa mjög mikið um annað líf. Okkur þykja dætur okkar, að öðru jöfnu, margfalt betur giftar, ef

menn þeirra ná í metorð og auð og völd, en ef þeir fara þessa á mis og eru að leita fyrst og fremst guðsríkis og sækjast eftir fjársjóðum á himni. Okkur þykir meira varið í falleg föt en bænrækið hugarfar. Einstaklingar og þjóðir hafa rakað saman auði, oft og einatt með því að sjúga þá út, sem voru minni máttar. Eg tek þessi atriði, sem öllum liggja í augum uppi, að eins til dæmis. Upptalningin á þessum villigötum vorum gæti vitanlega orðið miklu lengri en tími er til að þessu sinni.

En þetta hefir jafnvel ekki orðið leiðin til jarðneskrar farsældar. Það er nú eitthvað annað. Kristur benti á eina leið til jarðneskrar farsældar, og mér vitanlega benti hann ekki á neina aðra leið. „Leitið fyrst guðsríkis og hans réttlætis," sagði hann, „þá mun alt þetta veitast yður." Hann hélt því fram, að leitaði mannkynið að fjársjóðum á himni, þá mundi það eignast nægilega fjársjóðu á jörðu. Eg hygg, að hann hafi þá haft rétt að mæla, eins og undantekningarlaust æfinlega endranær. En mannkynið hefir ekki farið eftir hans ráðleggingum. Það hefir ekki áttað sig á því, virðist alls ekki hafa trúað því, hvað sem kirkjan hefir sagt, að tilveran sé svo kynlega úr garði gerð, að hafi menn enga hliðsjón

á öðrum heimi í atferli sínu, þá lendi alt að lokum í smán eða hörmungum, þegar í þessum heimi. Og hvernig hefir farið? Í þessari áfergjulegu eftirsókn sinni eftir fjársjóðum á jörðu hafa þjóðirnar orðið að standa eins og einhver tröllaukin, óargadýr hver framan í annari, með herklærnar úti dag og nótt. Og að lokum stukku þær hver á aðra — eru nú nærri því allar komnar í einn styrjaldar-hnapp, eins og ólmir, vitlausir hundar. Og þungamiðja menningarinnar er nú fólgin í þeirri snild að geta fundið upp sem voðalegust morðtól og bruggað sem geigvænlegust ráð, til þess að vinna hver öðrum mein.

Eg átti nýlega tal við einn af kennimönnum þessa lands. Hann sagði mér, að hann hefði verið að semja ræðu, og að eins og óvart hefði komið á pappírinn hjá sér orðin: „Blessun menningarinnar“. Hann sagðist ekki með nokkuru móti hafa haft geð til þess að láta þau standa; svo að hann strikaði þau út. Ætli nokkuð mörgum sé ekki líkt farið nú? Ætli mönnum finnist ekki víðs vegar um heiminn nokkuð mikil beiskja í þeirri blessun? Blessun menningarinnar! Það er einmitt sú stefna, sem heimsmenningin hefir tekið, sem hefir komið mannkyninu út í þá mestu bölvun, sem það hefir

nokkurar sögur af. Og það er óhjákvæmilegt að kannast við það, að kirkjan hefir brotið skip hugsjóna sinna í spón og stendur nú gersamlega ráðþrota.

Hvernig stendur á því, að þetta hefir tekist svona hrapallega? Eg er ekki í neinum vafa um instu og dýpstu aðalorsökina. Hún er sú, að mennirnir hafa mist sjónar á veruleik annars heims. Boðskapurinn um annað líf hefir orðið að reykkendri þvælu, sem öllum mönnum hefir orðið ofvaxið að botna nokkuð í. Hlustið á sumar líkræðurnar okkar, og lítið á sum erfiljóðin okkar, til dæmis að taka. Lítið á þann ólystuga graut af fullyrðingum um „hvíld“ og „svefn“ og „dýrð“. Eg hefi séð í sömu erfiljóðunum fullyrt, að framliðni maðurinn svæfi vært og að hann væri í óumræðilegri dýrð hjá guði, frámunalega sæll, og að því er virtist glaðvakandi. Og kvæðið er ekki eftir neitt ómentað leirskáld. Það er eftir vel skáldmæltan, gáfaðan prest, sem lætur sér mjög ant um trúmál. Er nokkuð undarlegt, að skynsamir menn uppgefist að lokum á slíkum vaðli? Sumir kennimenn, og það sumir hinir frægustu, hafa að mestu eða öllu hætt að minnast nokkuð á annað líf. Þeir segja, að við mennirnir vitum ekkert um það. Þeir segja, að það komi í raun og veru ekkert

málinu við. Svo að þeir láta sér nægja að prédika um þennan heim, og krydda það með nokkurum fullyrðingum um guðdóminn.

Það er mjög eðlilegt, að svona hafi farið, eftir því, sem mennirnir hafa í garðinn búið fyrir sig. Það var óhjákvæmilegt, að svona færi. Í byrjun kristninnar var alt annan veg ástatt. Þá var sá heimur, sem vér eigum að fara inn í eftir andlátið, verulegur í augum kristinna manna. Þeim var hann nærri því eini veruleikurinn. Þeir sátu við uppsprettuna. Þeir höfðu vitundarsamband við annan heim. Þeir höfðu tal af ósýnilegum verum, góðum og illum. Guðþjónustur þeirra voru sambandsfundir. Sumir þeirra að minsta kosti urðu varir við návist Jesú Krists sjálfs. Fyrir þetta gengu þeir öruggir og ókvíðnir gegn ljónakjöftunum og upp á bálkestina, og lögðu undir sig allan heiminn. En um alla þá fræðslu, sem þeir hafa fengið þessa leiðina, höfum vér sama sem engar frásagnir í Nýja testamentinu.

Hvernig höfum við nú farið að? Við höfum bundið okkur einvörðungu við Nýja testamentið. Við eigum engan kost á að fá að vita, hvað gerst hefir með fyrstu kristnu mönnunum í leit þeirra eftir þekkingunni á öðrum heimi. Og þessa leit, sem þeir

stunduðu af kappi, höfum við gersamlega lagst undir höfuð. Við höfum jafnvel komist út í þá furðulegu endileysu að fara að líta svo á, sem sams konar leit eins og rekin var í frumkristninni sé syndsamleg og okkur bönnuð. Mannkynið hefir mist sjónar á öðrum heimi. Það hefir þar af leiðandi farið að virða vettugi þá fjársjóðu, sem þar gilda. Og það hefir lent í skotgröfunum.

Gerum ráð fyrir, að við hefðum hagað okkur viðvíkjandi Ameríku eins og við höfum hagað okkur gagnvart öðrum heimi. Gerum ráð fyrir, að ferðirnar þangað hefðu hætt eftir fyrstu ferð Kólumbusar — að ekki væru til nema mjög óljósar frásagnir um hana — að spekingarnir hefðu farið að telja okkur trú um, að það væri mjög óvíst að Kólumbus hefði nokkurn tíma þangað komið, eða að nokkur Ameríka sé til, en að minsta kosti sé það víst, að ókleift sé mönnum nú á dögum að fá nokkura áreiðanlega vitneskju um Ameríku — en að prestar okkar og siðfræðingar hefðu lamið því inn í okkur frá bernsku, að öll eftirgrenslan eftir frekari þekkingu á Ameríku en við hefðum frá Kólumbusi, væri syndsamleg. Ætli Ameríka væri þá ekki nokkuð óljós og þokukend í hugum okkar?

Fyrir fæstum okkar liggur að fara til

Ameríku. En fyrir okkur öllum liggur áreiðanlega að fara yfir á eilífðarlandið. Það er blátt áfram vitfirring að taka það ekki til greina, og hirða ekkert um, hvað þar hefir gildi. Við höfum komist að raun um, hvert það stefnir. Það stefnir út í skotgrafirnar. Það stefnir að því, að kristnir menn verði verri en þau óarga dýr, sem voru látin rífa sundur suma af fyrstu trúarbræðrum þeirra.

Okkur mönnunum er bersýnilega ekkert undanfæri þess að fara að sækjast eftir „fjársjóðum á himni". Okkur er ekkert undanfæri þess, að fara að miða atferli okkar við annan heim, leggja stund á það, sem þar hefir gildi, venja okkur af áfergjunni eftir því, sem þar hefir ekkert gildi, forðast það, sem þar hefir minna en ekkert gildi.

En hvað hefir þá gildi í öðrum heimi? Að nokkuru leyti vitum við það. Allir, sem á annað borð trúa á annan heim, eru sannfærðir um, að réttlætið, sannleiksástin og kærleikurinn sé þar gjaldgeng vara. Við erum þess, með öðrum orðum, fullvísir, að hið siðferðilega hafi gildi í öðrum heimi. Kristur hefir fullyrt það. Rannsóknirnar hafa staðfest það. Og mannkynið hefir alt af að nafninu til gengið að því vísu, að það muni vera rétt. En sjaldnast nema að nafn-

inu til. Þegar það hefir mist sjónar á himninum sjálfum, hafa fjársjóðir hans eðlilega farið að rýrna í verði.

En vér verðum að gæta þess, að málið er miklu flóknara en þetta. Líf vort er orðið svo margbrotið. Hvaða gildi hafa aðrar hliðar menningarinnar en hin siðferðilega? Hugsandi menn komast ekki undan þeirri spurningu. Hvaða gildi hefir fegurðin? Hvaða gildi hafa vitsmunirnir? Hvaða gildi hefir þekkingin á jarðneskum efnum? Hvaða gildi hefir öll eftirsóknin eftir jarðneskri velgengni? Eg á við það, hvert gildi þetta hafi á því landi, sem við eigum allir að fara inn á eftir dauðann. Alt annað gildi er óverulegt.

Svarið verður þetta: Við vitum það ekki. Við trúum hinu og öðru um það, en vitum sama sem ekkert. Við þykjumst vitaskuld sjá það, að ef hið siðferðilega er ekki sterkasta afltaugin í menningunni, þá sé hún verri en einskis nýt. Við höfum komist að raun um, að sú menning gerir mennina verri en dýr, fer með þá út í skotgrafirnar. Sterktrúaðir menn hafa oft og einatt haft ríka tilhneiging til þess að ætla, að aðrar hliðar menningarinnar en hin siðferðilega séu lítilsverðar. Og óneitanlega er það íhugunarefni, hvernig hver glæsileg, háreist menningaraldan hefir risið af annari með þjóðum jarðarinnar, og

hnigið svo niður í úthaf tímans og orðið bókstaflega að engu — í vorum augum að minsta kosti. En þrátt fyrir það er ekki sjálfsagt, að þær hafi ekkert gildi haft. Vafalaust ætlast drottinn til þess að við gerum eitthvað, glímum við eitthvað. En ef við erum hreinskilnir, þá verðum við við það að kannast, að við vitum furðulítið um það, til hvers drottinn ætlast af okkur. Ætlast hann, til dæmis að taka, til þess, að vér leggjum stund á nægjusemi og hirðum lítið um jarðnesk gæði? Eða ætlast hann til þess að vér beitum kröftum vorum í framfarabraskinu og leggjum út í hættur auðæfasöfnunarinnar? Ætlast hann til þess að vér leggjum stund á að efla mátt andans með íhugun, bæn og heimsflótta, svo að vér verðum færir um, eftir þeim leiðum, að afla oss gnægta af speki og þekkingu á öðrum sviðum tilverunnar og öflum, sem oss Vesturlandamönnum eru með öllu ókunn, eins og fullyrt er um spekinga Austurlanda? Eða ætlast hann til þess, að vér leggjum aðalkappið á það að gera oss jörðina undirgefna, eins og höfundur 1. kap. í 1. Mósebók hefir eftir honum og Vesturlandamenn hafa gert að þungamiðjunni í allri sinni baráttu? Eða ætlast hann til þess, að þessi mjög svo sundurleita starfsemi renni á sínum tíma saman

í æðri heild? Þurkar hann út þessa syndugu menning okkar, svo að þar verði ekkert eftir — ekki fremur en eftir vatnssopa, sem skvett hefir verið á gólfið en þurkaður upp, — af því að í sínu insta eðli sé hún einskis nýt? Eða er í henni, þrátt fyrir alt, eitthvert frjómagn, sem hefir eilífðargildi? Vér vitum það ekki. Ef þessir tímar hafa þrýst nokkuru með heljarafli inn í sálir vorar, þá er það efanum um „blessun menningarinnar“, eins og hún hefir orðið hjá okkur vestrænu þjóðunum.

Það vitum við, ef við erum ekki orðnir brjálaðir, að drottinn ætlast ekki til þess, að við látum menningarstrit okkar fara með okkur út í helvíti veraldar-styrjaldarinnar. Hitt ættum vér líka að vita, að hann ætlast til þess, að við söfnum okkur fjársjóðum á himni. En til þess að fá nokkurn veginn fullnægjandi vitneskju um það, hverjir þeir fjársjóðir eru, verðum við að fá langtum meiri kynni af öðrum heimi en við nú höfum. Auðvitað verða þau kynni að verða miklu nánari en spíritistar hafa enn. Hingað til hefir rannsóknarstarfið að svo miklu leyti lotið að því, að fá framhaldslífið sannað, að önnur atriði hafa orðið útundan. En þeir og samherjar þeirra, hvort sem þeir nefna sig sálarrannsóknamenn eða guð-

spekinga, eða eitthvað annað, eru á réttu leiðinni í því efni. Mér vitanlega eru engir menn aðrir á neinni þess konar leið. Og vert er að benda á það, að einmitt á þessum tímum — þegar sannfæringin um framhaldslífið eftir dauðann er að verða miklu almennari og fastari en nokkuru sinni áður á nýlega liðnum tímum, — á þessum tímum virðist ósleitilegri tilraunir gerðar en nokkuru sinni áður til þess að færa mönnum vitneskju um, hvernig öðrum heimi sé háttað.

Þið sjáið þá, að hér er ekki um neitt smáræði að tefla, og að þegar öllu er á botninn hvolft, er það ekki svo mikil furða, þó að Conan Doyle telji þetta „mikilvægasta málið í heimi.“ Við erum komnir hér að þungamiðju siðfræðinnar, sem hlýtur að grundvallast á þekkingunni á öðrum heimi, ef hún á ekki að svífa alveg í lausu lofti. Og við erum komnir að örðugustu vafamálum mannkyns-baráttunnar, sem líka verður að fá úrlausn sína frá sömu þekkingunni — ef þau eiga nokkurstaðar að geta fengið hana. Og eg vona þá, að ykkur skiljist, við hvað eg átti áðan, þegar eg fullyrti, að það væri ekkert annað en þekking á hinum andlega

heimi, sem virðist geta bjargað veröldinni nú á 20. öldinni og á ókomnum tímum.

En málið hefir fleiri hliðar.

Eg gat þess áðan, að spíritisminn hefði komist að raun um, að vér mennirnir séum umkringdir af ósýnilegum verum, misjafnlega góðum, og að vér verðum fyrir áhrifum af þeim. Einn af allra-ötulustu og lærðustu rannsóknarmönnunum, próf. Hyslop í New York, telur sig hafa komist að því meðal annars, að afburða-hæfileikar, sem koma fram í ýmsum myndum hjá mönnum, er ekki hafa þekkingar-skilyrðin til þess að leysa verk sín af hendi með þeirri snild, sem raun hefir á orðið, stafi frá góðum áhrifum úr öðrum heimi. Eg tek til dæmis börn og fullorðna menn, sem enga sérstaka þekkingu hafa fengið í sérstökum greinum listarinnar, en inna það af hendi, sem mikla þekking þarf annars til að geta gert. Hann telur sig líka hafa komist að raun um það, að á sjúklingum, sem hann hefir rannsakað, stafi geðveiki af áhrifum frá öðrum heimi, sumpart beint af illum áhrifum frá verum, sem hafa vilja til þess að koma illu af stað hér í heimi, sumpart af vanþekkingar-áhrifum frá verum, sem utan um oss eru. Hann hefir ekki varpað þessu fram órökstuddu. Hann hefir lagt fram sönnunargögn

sín, með vísindalegri nákvæmni, í bókum, sem skifta þúsundum blaðsíða. Enginn maður hefir enn unnið bug á ástæðum hans, og eg fæ ekki betur séð, en að hann hafi algerlega sannað sitt mál.

Þetta, sem vísindamaðurinn hefir sannað með afskaplegri nákvæmni og yfirlegu, er auðvitað ekki annað en það, sem spíritisminn hefir fullyrt frá öndverðu. Og það er ekkert annað en það, sem Nýja testamentið hefir boðað kristnum heimi öld eftir öld. Þið vitið það öll, að ef nokkuru er haldið að mönnunum í Nýja testamentinu, þá er það kenningunni um áhrifin frá öðrum heimi — bæði góð og ill. En trúin á þetta hefir nærri því þurkast út í hugum okkar. Þar kemur aftur til greina okkar mikla mein, sem eg gat um áðan, það, að mennirnir hafa mist sjónar á veruleik annars heims. Ef oss væri það í raun og veru ljóst — ef það væri ekki að svo miklu leyti hulið því, sem eg hefi á öðrum stað nefnt hjalvoð óveruleikans — að andlegur heimur er til, að þann heim skipa verur, sem eru sumar góðar, sumar vondar, og sumar hvorki góðar né vondar, að þessi heimur umkringir oss í voru jarðneska lífi, og að vér erum sjálfir framar öllu öðru andlegar verur, þó að vér búum um stund í þessum jarðneska líkama,

þá mundi oss ekki verða jafn-örðugt að trúa á áhrifin úr öðrum heimi, eins og raun hefir á orðið um oss flesta.

En ef þessi áhrif eru nú jafn-áreiðanleg staðreynd eins og fram er haldið af frumkristninni, af spiritismanum og nú síðast af vísindunum, haldið þið þá, að það skifti engu máli, ef mennirnir gætu fengið nákvæma og áreiðanlega þekking á þeim? Haldið þið, að það skifti engu máli, ef mennirnir gætu fundið ráð til þess að ljúka sálum sínum upp fyrir góðu áhrifunum og loka þeim fyrir hinum illu? Eg verð að segja það um mig, að eg get tæplega hugsað mér neitt nytsamara né veglegra verkefni fyrir rannsókn mannsandans.

En nú kunna einhverjir að segja, að þetta fari að verða nokkuð draumórakent. Líkurnar séu litlar til þess, að mennirnir finni slík ráð. Og sjálfsagt er við það að kannast, að í þeim efnum vita þeir lítið, sem mesta þekking hafa á þessu máli. Vér þykjumst auðvitað hafa vissu um það, að siðferðisástand mannsins skifti afarmiklu í þessu efni — að það ráði miklu um áhrifin handan að, hvort, til dæmis að taka, hugurinn er bænrækinn og fullur ástúðar, eða hvort hann er fullur þverúðar gegn siðferðislögmáli drottins. En það er eins um þetta

og fjársjóðina á himni, að málið er bersýnilega flókið. Hvernig stendur á því t. d., að maður verður geðveikur fyrir ill áhrif úr öðrum heimi, þó að hann sé ekkert lakari en við hinir? Hvers vegna höldum við vitinu, með öllu því andlega umhverfi, sem við erum í, en þessi maður missir vitið? Og hvernig stendur á því, sem sérfræðingur í geðveiki hefir sagt mér, að geðveikir menn fá nokkurn veginn undantekningarlaust vitið aftur rétt fyrir andlátið og ganga út í viðskilnaðinn með fullu viti? Hvað vandlega sem læknarnir rannsaka heila þessara manna eftir andlátið, geta þeir ekki orðið þess vísari, að neitt hafi úr lagi gengið. Hvað hefir þá verið að? Er það andlegi líkaminn, sem Páll postuli talar um og spiritistar telja sannaðan, sem eitthvað hefir sýkst? Eða er það sambandið milli andlega og jarðneska líkamans, sem eitthvað hefir raskast? Hvernig stendur á því, að áhrifin frá hinum ósýnilega heimi valda svo feykilegri truflun sem brjálsemin er? Finst ykkur ekki, að það mál sé svo vaxið, að fróðlegt væri að fá einhverja vitneskju um það? En þá vitneskju höfum vér ekki. Vér vitum yfirleitt undur lítið um það, hvernig áhrifunum frá ósýnilegum heimi er háttað, þó að enginn vafi geti á því leikið, að um þessi

áhrif er stundum að tefla — sennilega miklu oftar en nokkurum manni kemur til hugar með þeirri litlu þekkingu, sem vér höfum enn.

Eins og eg mintist á áðan, hafa rannsóknirnar viðvíkjandi öðrum heimi hingað til að mestu leyti verið nokkuð einhliða. Þverúðin andspænis sönnunum fyrir framhaldslífinu og rengingarnar á þeim sönnunum hafa hingað til verið svo einkennilega þrálátar, að fyrir þær hefir í raun og veru ekki verið friður til frekari rannsókna. Alt af hafa menn verið að heimta nýjar og nýjar tegundir sannana. Alt af hafa menn fengið þær. Og alt af hafa menn enn heimtað aðrar. Og hvernig sem sönnunum hefir rignt niður, þá hefir lítið gagn orðið að því, af því að menn hafa ekki tekið vitnisburðinn um þær gildan, hvað merk sem vitnin hafa verið. Í öllum öðrum efnum tökum vér vitnisburð sérfræðinga gildan. Vér lesum bækur vísindamannanna með þeirri sannfæring, að þeir hafi athugað það rétt, sem þeir segja frá, og að það sé fjarstæða að hugsa sér, að þeir séu alt af að segja ósatt um tilraunir sínar. Oss kemur ekki til hugar að fara að gera sjálfir allar þær tilraunir, sem þeir skýra oss frá, t. d. í lífeðlisfræði, eðlisfræði og efnafræði. En í þeim

rannsóknum, sem lúta að öðrum heimi, hefir yfirleitt reynst ókleift að fá mennina til þess að taka nokkurn hlut trúanlegan, hvað nákvæmar sem rannsóknirnar hafa verið og hvað áreiðanlegir sem rannsóknarmennirnir hafa verið taldir í öðrum efnum. Alt hafa menn rengt. Alt hafa þeir þurft að sjá sjálfir. Þetta hefir, eins og öllum hlýtur að vera auðsætt, tafið afarmikið fyrir málinu. Og þetta hefir, meðal annars, orðið til þess, að málið er ekki lengra komið en það er enn.

En í þessu mikilvæga máli er ekki til nökkur leið önnur en leið þekkingarinnar — þekkingarinnar á öðrum heimi. Það er sama leiðin, sem mannkynið hefir farið í öllum sínum framfara-efnum. Og öllum mönnum er ofvaxið að fullyrða neitt um það af viti, hvert menn kunna að komast með þekkingunni. Hvernig hafa menn komist upp á það að tala saman á fjarlægum stöðum? Ekki eru nema fá ár, síðan er lærðustu menn heimsins töldu það óhugsanlegt. Mönnum hefir tekist það með þekkingunni. Hvernig höfum við látið gufuaflið flytja okkur yfir láð og lög? Með þekkingunni. Hvernig höfum við beizlað fossana? Hvernig höfum við fengið rafmagnið til þess að lýsa okkur og verma okkur? Hvernig höfum við

farið að fljúga um loftið? Hvernig höfum við kannað fjarlægðir þeirra hnatta, sem eru svo langt frá okkur, að ljósið frá þeim þarf hundruð ára til þess að komast til okkar? Öllu þessu og ótal mörgu fleira, sem við höfum gert mennirnir, er þann veg háttað, að alt umtal um það hefði blátt áfram verið óðs manns æði í eyrum hinna vitrustu manna fyrir tiltölulega skömmum tíma. Við höfum gert það samt. Við höfum gert það með rannsóknum. Við höfum gert það með því að leita að lögmálum tilverunnar. Við höfum gert það með þekkingunni. Það er ekkert annað en fásinna að fullyrða neitt um það, hvað oss kann að verða ókleift, þegar við höfum flutt þekkingarleitina yfir á svið annars heims og rekið rannsóknirnar á því sviði af sama kappi eins og við höfum beitt við það að fá þekkingu á hinu jarðneska sviði. Og eftir þeim árangri, sem þær rannsóknir hafa þegar borið þann stutta tíma, sem þær hafa verið reknar, virðist ímyndunaraflið — og mér liggur við að segja vitið — þurfa að vera sérstaklega smávaxið til þess að gera sér í hugarlund, að ekki sé mikið meira í vændum en nokkurn órar fyrir á þessum tímum.

Enn skal eg stuttlega drepa á eina hlið málsins, sem eg hefi ekkert minst á.

Eg hefi bent ykkur á áhrifin úr öðrum heimi inn í annan heim. Þau gerast vafalaust að einhverju miklu leyti með því, sem nefnt hefir verið fjarhrif eða telepatía, gerast samkvæmt lögmáli, sem vér auðvitað vitum lítið um, en vitum þó með vissu að er til — því lögmáli, að hugur verkar á hug eftir öðrum leiðum en skilningarvitanna. En áhrif berast þá eftir þessu sama lögmáli frá vorum heimi inn í annan heim. Og einmitt á því hafa ávalt og eru enn grundvallaðar kenningarnar um mátt bænarinnar. Eg verð að láta mér nægja að benda yður á það, að við getum sent góð áhrif inn í annan heim. Það er full ástæða til að ætla, að hvert bænarandvarp, sem stígur upp frá sálum okkar fyrir framliðnum ástvinum okkar, sé þeim til ómetanlegrar blessunar í öðrum heimi. En við getum þá líka að sjálfsögðu sent ill áhrif inn í annan heim. Það er í meira lagi alvarleg hugsun, en sú vitneskja virðist ómótmælanlega vera ein hliðin á árangrinum af rannsóknunum, að illar hugsanir og syndsamleg breytni okkar hér á jörðunni varpi frá sér voðalegum óhamingjuskuggum inn í annan heim, og verði þar tilefni til freistinga og synda. Íhugið þótt ekki sé annað en þá staðhæfing, sem alt af hefir öðruhvoru verið að koma í skeyt-

unum handan að — og það ekki sízt í þeim skeytunum, sem hafa verið blandin sterkustu sönnunargögnunum — að óþroskaðir og óhlutvandir framliðnir menn, sem farið hafa með áfengisástríðuna yfir á eilífðarlandið, fylli drykkjustofurnar til þess að leita sér þar svölunar, og margfaldi með því ógæfu sína — frá öðrum heimi sé svo að sjá, sem þeir vefji sig utan um hina ölvuðu menn, líkt og höggormar, og hverfi inn í þá að miklu eða litlu leyti. Það eru ekki bindindismenn og bannmenn, sem hafa fundið upp þessa staðhæfing sínu máli til styrktar. Því er öfugt farið. Það er þessi staðhæfing og aðrar í svipaða átt frá verum í ósýnilegum heimi, sem hafa gert þúsundir manna að bindindismönnum og bannmönnum.

Ein áhrifin úr þessum heimi yfir í annan heim eru bersýnileg hverjum manni, sem nokkuð hugsar um málið. Stöðugt eru miljónir manna að flytjast úr þessum heimi yfir í hinn heiminn. Þetta gerði ekki svo mikið til, ef sú skoðun væri rétt, sem áður hefir ríkt, að þeir menn, sem á annað borð verður hjálpræðisins auðið, breytist svo á andlátsstundinni, að þeir verði hæfir fyrir alsælu, og hana hljóti þeir tafarlaust fyrir verðskuldun Krists. Að hinu leytinu lendi þeir, sem glatist, tafarlaust í vansælustað,

sem þeim sé fyrirbúinn, og þar verði þeir um aldir alda, án nokkurs samneytis við hina. En sú skoðun er tvímælalaust röng. Mennirnir koma inn í annan heim nákvæmlega eins og þeir fara héðan, að undanteknum hinum jarðneska líkama. Og ástandið er svo svipað því, sem það var á undan breytingunni, að mönnunum veitir oft örðugt að átta sig á því, að nokkur breyting hafi gerst, og þeir trúa því ekki, að þeir séu komnir yfir um. Þeir geta tekið stefnuna upp á við til meiri og meiri fullkomnunar og sælu. En þeir geta líka tekið stefnuna niður á við til meiri og meiri syndar og vansælu. Þeir geta stutt aðra á brautinni upp á við til guðs. Þeir geta líka hrundið öðrum niður á við, niður í freistingar og synd og vansælu. Þetta virðist alt vera svo áþekt því, sem það er hér í heimi, þó að okkur kunni að þykja það undarlegt. Við verðum að hugsa okkur dánarheima að sínu leyti eins og eitthvert óhemjulega mikið innflutningaland hér á jörðunni. Það væri blátt áfram voðalegt fyrir slíkt land, ef það fengi daglega yfir sig steypiflóð af mönnum, sem væru, annaðhvort sakir vanþekkingar eða spillingar, allsendis óhæfir til þess að lifa í því mannfélagi, sem hefðist við á þessu landi — ef það væri af einhverjum, ef til

vill miklum, hluta þessa innflytjendastraums fylt með magnaðri vitleysu eða viðsjárverðum glæpum. Það er einmitt þetta, sem verið er að kvarta undan úr öðrum heimi. Einmitt sú veran úr ósýnilegum heimi, sem veitt hefir forstöðu langsamfeldustu og áhrifamestu tilraununum til þess að færa mönnunum vísindalegar sannanir fyrir framhaldslífinu — vera, sem fengið hefir þann vitnisburð frá þeim jarðneska vísindamanninum, sem henni var handgengnastur, að hún verði í raun og veru að teljast guðdómleg fyrir sakir vitsmuna og gæzku — hún leggur mesta áherzluna á þetta. Hún gefur fyllilega í skyn, að þegar öllu sé á botninn hvolft, sé það ekki fyrst og fremst vegna þ e s s a heims, að frá ósýnilegum heimi séu gerðar svo ósleitilegar tilraunir til þess að færa oss vitneskju um annan heim og koma vitinu fyrir okkur. Það sé fyrst og fremst vegna þess, hve ástandið sé viðsjárvert á sumum sviðum annars heims fyrir fávizku okkar jarðneskra manna og oft og einatt frámunalega rangsnúið atferli.

Eg get ekki að því gert, að mér finst þessi hlið málsins alveg óumræðilega alvarleg og mikilfengleg. Æði oft hættir oss mönnunum við því, að hugsa og haga oss eins og þetta líf sé eina lífið — ekkert annað líf sé

til en þetta. Það er auðvitað einhver sú gífurlegasta fásinna, sem við getum álpast út í. En okkur hættir líka stundum og of oft við því að hugsa og haga okkur eins og lítið geri til um það, hvernig farið sé með þetta líf. Og nú er það að koma upp úr kafinu, að tilveran, jarðnesk og ósýnileg, er svo samgróin heild, eða tengd saman svo óslítandi þráðum, að það er ekki að eins velferð vor sjálfra, ekki að eins velferð jarðneskra bræðra vorra og systra, sem er undir því komin, að vér högum oss eftir þeim lögmálum, sem drottinn hefir sett tilverunni, heldur líka velferð bræðra vorra og systra í öðrum tilveruheimum. Svo veglegt og mikilfenglegt er þá þetta jarðneska líf, og svo mikil ábyrgð fylgir því.

Þegar spiritisminn hefir leitt þetta svo í ljós, að allur þorri manna er farinn að láta sér skiljast það, þá er ekki ólíklegt að þeir verði nokkuð margir, sem verða sammála um það, að hann sé mikilvægasta málið í heimi.

Að lokum langar mig til þess að víkja örfáum orðum að þeirri hliðinni á árangrinum af rannsóknunum, sem í mínum augum er einna fagnaðarríkust og elskulegust. Hún er sú, að Jesús Kristur er konungur

yfir öllum þeim heimum, sem vér höfum nokkurar sögur af.

Eg get gert þá játningu, að sum ágreiningsatriðin viðvíkjandi Jesú Kristi hafa æfinlega náð litlum tökum á mér. Eg tek til dæmis kenninguna um það, að hann hafi ekki átt neinn jarðneskan föður. Eg hefi enga tilhneiging til að neita henni, af því að eg veit ekki, nema hún kunni að vera sönn. Þetta mál alt, sem eg hefi verið að tala um, hefir kent mér það meðal annars, að fleira gerist en það, sem við eigum von á eða skiljum. Og mér finst það góð regla, að vera ekki að þræta fyrir það, sem menn vita ekkert um. En eg hefi enga tilhneiging til að játa kenningunni. Fyrst og fremst af því, að eg veit ekki, hvort hún er sönn. Og í öðru lagi af því, að eg finn ekki, að hún hjálpi mér neitt, þó að hún kunni að vera sönn. Svo að eg læt þá kenningu liggja milli hluta að svo komnu máli. Eg get líka tekið til dæmis kenninguna um, að Jesús Kristur sé önnur persóna guðdómsins. Hún hjálpar mér að engu leyti. Hún gerir Krist mér að eins fjarlægari og óskiljanlegri. Og eg vil ekki láta hug minn missa tökin á honum.

Eg held ekki, að hreinskilnir og athugulir menn geti komist undan því að kannast við

það, að prótestantiskri kristni hafi á síðari tímum hætt nokkkuð við því að láta Krist rýrna, fremur en hitt, í boðskapnum, þó að sjaldnast hafi viljandi verið til þess stofnað. Eg held, að það sé sjaldgæft, að Kristur sé boðaður mönnum nú á dögum, svo að samsvari því sem hann var Páli postula eða Hallgrími Péturssyni og trúuðum samtíðarmönnum hans. Eg á ekki við það, að hugmyndirnar um starf hans hafa vitanlega breyzt hjá mörgum mönnum frá hugmyndum Hallgríms Péturssonar. Þær þurftu ekki að sjálfsögðu að hafa rýrnað fyrir það. En þær hafa áreiðanlega rýrnað — að minsta kosti úti í heiminum. Friðþægingarkenningin gamla hefir að mestu þurkast út. Og það er ekki veigamikið, sem komið hefir í staðinn. Um Krist í dýrð annars heims hefir farið nokkuð líkt eins og um aðrar hugmyndir okkar um annan heim: Hann hefir orðið fremur þokukendur þar í hugum okkar margra. Frásagnir guðspjallanna hafa verið gagnrýndar af hinu mesta kappi og ósleitilega rengdar. Svo langt hafa véfengingarnar komist, að sumir lærðustu guðfræðingarnir hafa tekið að telja mönnum trú um, að Jesús frá Nazaret hafi aldrei verið til; frásagnirnar um hann séu ekkert annað en helgisagnir og munnmæli.

Mér finst ekki óeðlilegt, að í öllu þessu rokviðri renginganna stigi upp frá sálum mannanna andvarp eftir þekkingu, sem tekur af skarið. Og þekkingarþráin snýst þá í þessa átt: Hvað er um Krist n ú? — alveg eins og vér spyrjum, hvað sé um ástvini vora nú, þá, sem eru horfnir sjónum vorum út á haf dauðans. Það er áreiðanlega svo um margan manninn, að af öllum þeim fjársjóðum, sem hann kann að eiga í sál sinni, er honum sárast um trúna á Jesúm Krist. Eg held, að það sé ekki fjarri lagi, sem eg hefi sagt fyrir nokkurum árum:

Því þó að vér aðhyllumst þrjózku og tál,
þá þráir þig, Kristur, hver einasta sál
frá sólskini suðrænna landa
til næðinga nyrztu stranda.

Og eg held, að það væri gersamlega ómetanlegt tjón fyrir mannkynið, ef það glataði Krists-trúnni. Eg held, að guðstrúin gæti aldrei orðið svo mikil hjá öllum þorranum, að hún bætti mönnum skaðann. Þeir eru svo margir, sem veitir örðugt að átta sig á guðshugmyndinni sér til verulegs gagns. Hún er svo mikilfengleg, að hún ber mannlega hugsun algerlega ofurliði. En þó að Kristur sé svo hátt upp hafinn yfir oss, sem hann er, þá skiljum vér þó að miklu eða litlu leyti þennan

mikla, dýrlega bróður vorn, sem tók á sig þjóns mynd vor vegna, boðaði mönnunum dýpstu spekina, sem þeir hafa enn fengið að heyra, bjó með oss, fullur náðar og sannleika, sýndi það, að hann var gæddur himneskum mætti, stóð við réttlætið og sannleikann undantekningarlaust og æfinlega og innsiglaði alt sitt líf og alla sína kenningu með dauðanum á krossinum og andlátsbæninni: „Faðir, fyrirgef þeim, því að þeir vita ekki, hvað þeir gera.“ Það er ekkert undarlegt, að mannkynið þrái það að fá það staðfest með óyggjandi þekkingarvissu, að honum sé gefið vald á himni og jörðu. Það er bezta tryggingin, sem það getur fengið fyrir því, að tilveran sé góð.

Þessa trygging er spiritisminn að veita mannkyninu. Eg efast um, að nokkur andleg hreyfing geti fært því betri gjöf. Frásögnum framliðinna manna rignir nú á síðustu tímum, um að þeir viti um Krist. Sumir hafa séð hann; aðrir vita af honum með öðrum hætti. Og sumar þessara frásagna standa í svo nánu sambandi við ramlegar sannanir viðvíkjandi þeim efnum, sem vér getum gengið úr skugga um, að í mínum augum er fásinna að rengja þær. Auðvitað er þessi vitneskja ekki annað en ófullkomin

byrjun. Öll vor vitneskja er ófullkomin byrjun. En það er verið að ljúka upp fyrir okkur musteri sannleikans miklu meira en áður. Og svo mikið sjáum við, að þar verður dýrlegt um að litast.

Jesús Kristur er konungur allra þeirra sviða tilverunnar, sem vér höfum nokkura hugmynd um. Honum er vald gefið á himni og jörðu. Vitaskuld ekki vald til þess að útrýma syndinni og afleiðingum hennar. Fyrir eitthvert dularfult lögmál tilverunnar virðist syndin verða að renna sína braut, þar til er hún hefir eytt sjálfri sér. En honum er gefið valdið til að líkna og hjálpa, þessa heims og annars, þegar mennirnir eru farnir að vilja hjálpina — jafnvel niðri í neðstum undirdjúpum vansælunnar. Enn er hann fullur náðar og sannleika, fullur réttlætis og miskunnar. Enn er hann sami ástríki bróðir mannanna. Enn er hann ljós heimsins. Þetta er meðal annars boðskapur spíritismans. Og með þeim boðskap ætla eg að lúka máli mínu — að eins bæta því við, að þó að hlutverk spíritismans væri ekkert annað en að færa sönnur á þennan boðskap um Jesúm Krist, þá væri hann mikilvægasta málið í heimi.

## Sálarrannsóknarfélag Íslands.

Inngangsræða á stofnfundi þess 19. des. 1918.

---

Það hefir fallið í mitt hlutskifti að vera frummælandi á þessum fundi. Eg tel það þá mitt verk að gera einhverja ofurlitla grein þess, hvernig þetta félag er hugsað, sem ætlast er til, að við stofnum hér í kvöld, og hvað fyrir okkur vakir með stofnun þess.

Þegar farið var að tala um að stofna þetta félag, virtist mér nauðsyn bera til að gera uppkast að nokkurs konar stefnuskrá fyrir félagið, svo að mönnum gæti orðið ljóst, til hvers væri verið að stofna. Hún er orðuð að eins til bráðabirgða, og verður væntanlega orðuð af nýju og betur af nefnd, sem sjálfsagt verður falið að semja frumvarp til laga fyrir félagið. En eg geri ráð fyrir, að í þessu uppkasti mínu séu tekin fram megin-atriðin.

Margir þeirra, sem hafa tjáð sig ætla að ganga í félagið, hafa ekki séð þetta uppkast. Eg ætla því að leyfa mér að lesa það.

## TILGANGUR

væntanlegs Sálarrannsóknafélags Íslands, orðaður til bráðabirgða.

1. Að efla áhuga þjóðarinnar á andlegum málum yfirleitt og sérstaklega fræða félagsmenn og aðra um árangurinn af sálarlífsrannsóknum nútímans, einkum að því leyti, sem þær benda á framhaldslíf manna eftir dauðann og samband við framliðna menn. Þeim tilgangi hygst félagið að ná meðal annars með fyrirlestrum og umræðum og útgáfum rita eða stuðningi að þeim.

2. Að stuðla að sálarlífsrannsóknum eftir megni, t. d. með því að gangast fyrir því, að félagsmenn eigi kost á að komast á sambandsfundi með góðum miðlum, innlendum eða útlendum.

3. Félagið starfar á grundvelli þeirrar sannfæringar, að samband hafi fengist við framliðna menn, og vill efla og verja þá sannfæring, eftir því sem kostur verður á og þörf gerist. Með þessu er samt ekki gefin yfirlýsing um sannfæring hvers einstaks félagsmanns.

Eins og þið heyrðuð, hefi eg byrjað þessar greinar um tilgang félagsins á því, „að efla áhuga þjóðarinnar á andlegum málum yfirleitt“.

Mér finst hina mestu nauðsyn bera til þess. Eg hefi ferðast töluvert um landið nokkur undanfarin sumur. Og eg hefi séð það, mér til mikillar sorgar, að andlegu málin eru í flagi með þessari þjóð — að minsta kosti að því leyti, sem kirkjan er við þau riðin. Á stórum flákum á landinu stappar nærri, að guðsþjónustur séu alveg að leggjast niður. Þar sem guðsþjónustum er haldið uppi, má segja, að það sé víða til málamynda eingöngu — svo fámennar eru þær samkomur. Húslestrar eru víst nærri því með öllu úr sögunni um alt land, með fram vegna þess, að fólki er ekki séð fyrir neinum húslestrarbókum, sem nú eru við þess hæfi — gömlu bækurnar orðnar alveg ólesandi, að mönnum finst. Jafnvel kverin, sem börnin eru kúguð til að læra, flytja margar kenningar, sem allur þorri landsmanna, og einkum æðstu prestar landsins, telja misskilning og villu. Mér finst það hneyksli vera nokkuð skilmerkileg bending um, hvernig ástatt er, hvað kæruleysið og tómlætið er orðið gegndarlaust.

Ekki er nokkur vafi á því, að mikill hluti þjóðarinnar ber í brjósti þrá eftir æðri hugsjónum en þetta daglega, jarðneska líf færir þeim. Hjá sumum er þráin ljós, hjá sumum óljós. Menn reyna að fullnægja henni með

ýmsum hætti — einkum, að mér skilst, með skáldsagnalestri. Það situr auðvitað ekki á mér að reyna að aftra því, að menn leiti þeirra svalalinda. En ekki er þess að dyljast, að misjafnlega hreinar og tærar eru þær. Engum, sem skyn ber á, getur dulist það, að sumt af þeim skrifum bendir huganum burt frá sannleikanum og veruleik tilverunnar. Til kirkjunnar leita menn nú yfirleitt ekki til þess að fá þrá sálar sinnar svalað. Mér finst það bersýnilegt, að trúarlífið — meðvitundin um samband vort við alheiminn, lotningin fyrir æðstu öflum tilverunnar, bænræknin, traustið á hinu góða, eftirsóknin eftir þeim fjársjóðum, sem hafa gildi á himnum, svo að eg nefni nokkurar hliðar trúarlífsins — mér finst það bersýnilegt, að þetta skrælni alt að meira eða minna leyti, ef þjóðin hættir alveg að finna til þess, að hún hafi nokkurn skapaðan hlut að sækja til þeirrar stofnunar, sem einni er ætlað að halda trúarlífinu vakandi — og ef ekkert annað kemur í staðinn. Og mér finst tæplega þurfa annað en heilbrigða skynsemi til þess að sjá það, að með þessu fari forgörðum mikið andlegt verðmæti með þjóð vorri.

Auðvitað er þjónum kirkjunnar þetta jafn-ljóst eins og öllum öðrum. Á hverri einustu synodus, að minsta kosti síðan eg kom

heim til Íslands fyrir 23 árum, hafa þeir verið að veina um þetta, hvað kirkjan sé að missa tökin á fólkinu. Þeir hafa verið að bollaleggja ýms ráð. Öll þeirra ráð hafa reynst gersamlega ónýt. Alt af hefir starf þeirra orðið máttlausara og áhrifaminna með hverju árinu, sem liðið hefir.

Mikið hefir mig furðað á því, að þeim skuli aldrei hafa hugkvæmst eitt ráð, sem eg hefi mikla trú á. Mér þykir það því furðulegra, sem þeirra mikli meistari, Jesús Kristur, hafði áreiðanlega mikla trú á því ráði. Mér skilst svo, sem hann hafi í raun og veru ekki haft neina trú á neinu öðru ráði.

Þetta ráð er sannleikurinn. Kristur sagði skýlaust, að til þess væri hann fæddur og til þess væri hann í heiminn kominn að bera vitni sannleikanum. Hann ætlaði sannleikanum, og engu öðru en sannleikanum, að lyfta mönnunum upp úr hvers konar eymd og gera þá frjálsa. Það liggur við, að eg blygðist mín fyrir að þurfa að standa hér og minna þá menn á þetta, sem sérstaklega hafa tekið að sér að reka erindi Jesú frá Nazaret.

Vegna hvers segi eg þetta?

Eg segi það vegna þess, að á síðustu 60—70 árunum hefir verið að finnast óendanlega dýrmætur sannleikur á sviði trúarbragðanna — sannleikur, sem kirkjan hefir

enn að langmestu leyti gengið fram hjá með fyrirlitning. Eg á við þann sannleika, að menn eru að fá reynsluþekking á ósýnilegum heimi. Menn eru að fá óyggjandi vissu um það, að mennirnir lifi eftir dauðann. Menn eru að fá bendingar um það, hvernig því framhaldslífi muni vera háttað — ófullkomnar bendingar að vísu, en mikilsverðar samt. Menn eru að fá óyggjandi vissu um að takast má að ná sambandi við framliðna menn. Menn eru að fá vitneskju um það, að ósýnilegur heimur grípur inn í þennan heim með miklu verulegra hætti en flesta okkar mun hafa grunað. Það er verið að færa okkur vitneskju um þá gífurlegu ábyrgð, sem fylgir þessu jarðneska lífi, vegna afleiðinganna af því í öðrum heimi, bæði fyrir sjálfa okkur og aðra. Og það er verið að lyfta upp fyrir okkur fortjaldinu frá þeim helgidómi, þar sem sjálfur drottinn vor og meistari, Jesús Kristur, er að stýra gangi viðburðanna, mönnunum til hjálpræðis.

Þetta er að eins sýnishorn af mikilvægi þess sannleika, sem kirkjunni hugkvæmist ekki að nota til eflingar guðsríkis. Þessum sannleika viljum við helga þetta félag. Um þennan sannleika viljum við reyna að fræða sjálfa okkur og aðra. Eg er ekki í neinum vafa um það, að hann er ráðið til þess að

efla andlegan áhuga með þjóðinni. Eg er ekki fjarri því að halda, að á þessum tímum sé hann eina ráðið.

Eg hefi ekki minst á þennan sannleika, nema að því leyti, sem hann liggur á sviði trúarbragðanna. Eg er ekki í neinum vafa um það, að hann muni teygja sig yfir á öll svið mannlegrar þekkingar með tímanum. Eg get ekki betur séð, en að greinilegar bendingar í þá átt séu að koma fram. En út í það efni get eg ekki farið að þessu sinni. Að hinu verð eg að víkja, að þó að vitneskjan, sem þessi sannleikur flytur, sé í sumum efnum óyggjandi, þá er hún þó að flestu leyti ófullkomin. Enn sjáum við gegnum gler og í þoku, eins og postulinn, en ekki augliti til auglitis. Þess vegna er það ómótmælanlegt, að þeim, sem fara að gefa gætur að þessum sannleik, getur hætt við að komast út á hinar og aðrar villigötur. Það á ekki að fæla okkur frá sannleikanum. Versta tegund af bleyðiskap og lítilmensku er óttinn við sannleikann. En það á að hvetja okkur til aðgæzlu og varkárni, skynsamlegrar athugunar og íhugunar. Og það verður þá eitt ætlunarverk þessa félags að vara menn við villigötunum.

Þá kem eg að öðrum liðnum í stefnuskránni, og um hann get eg verið fáorður. Til þess er ekki ætlast, að þetta verði neitt

tilraunafélag, að minsta kosti ekki í fyrirsjáanlegri framtíð. Við eigum þess engan kost að gera það að slíku félagi nú, og af ýmsum ástæðum tel eg það ekki æskilegt. En við vitum það öll, að þó að bókleg og munnleg fræðsla sé dýrmæt og algerlega ómissandi í þessu máli, þá er hún ekki einhlít öllum, til þess að fá afdráttarlausa vissu um þann sannleik, sem hér er á ferðinni. Tómasareðlið er ríkt í okkur sumum. Tómas trúði ekki, þó að það væru vinir hans, sem sögðu honum frá stórmerkinu mikla. Hann vissi þó, að þetta voru sannorðir menn og lærisveinar Jesú Krists, sem sögðu honum, hvað þeir höfðu séð. Líkt er okkur sumum farið, og eg get ekki skilið. að í raun og veru séum við neitt verri fyrir það, þó að það sé satt, að þeir eru sælir, sem trúa, þótt þeir sjái ekki.

Ég tel það alveg víst, að sú leið sé til, sem Júlía nefnir „opnar dyr að auðsæjum leyndardómi“, til þess að fá vitneskju um staðreyndir ósýnilegs heims — að mönnunum sé í raun og veru kleift, að minsta kosti mörgum, að temja svo sjálfa sig, að þeir geti fengið þá vitneskju, án þess að þurfa að leita til nokkurra meðalgangara. Eg get vel hugsað mér að þessi leiðin verði á einhverjum ókomnum tímum aðalleiðin, ef til vill eina

leiðin. En hitt er víst, að þessa tamningu höfum við ekki fengið enn. Ef við viljum sjá og þreifa á, eins og Tómas, þá verðum við að nota miðlana. Og eg tel það sjálfsagt ætlunarverk þessa félags að stuðla að því, að menn geti átt kost á að njóta þeirra að einhverju leyti. Nú þegar hefir safnast nokkurt fé til þess að fá einhvern útlendan, heimsfrægan miðil til þess að koma hingað. Félagið ætti að gera gangskör að því, svo fljótt sem þess er nokkur kostur, að úr því verði. Menn geta reitt sig á það, að þeir verða margir í þessum bæ, sem vilja ná hans fundi, þegar hann kemur. En þá tel eg sjálfsagt, að þeir, sem í þessu félagi verða, verði látnir sitja fyrir. En jafnframt ætti félagið að sjálfsögðu að stuðla að því, að rækt verði lögð við innlenda miðla, sem ugglaust reynast margir, þegar ekki verður jafn-örðugt að hafa uppi á þeim, eins og það er nú.

Þá er loks 3. liðurinn. Mér finst óhjákvæmilegt, að félagið starfi á þeim grundvelli, sem þar er tekinn fram. Mér finst ekki, að það muni verða neinn andlegur gróði að því að stofna félag til þess að þjarka um það, sem allir geta gengið úr skugga um, að er sannað, ef þeir vilja leggja það á sig að afla sér fræðslu um þetta mál, eins og menn afla sér hennar á öðrum sviðum þekk-

ingarinnar. Mér finst ekki, að eg hafi tíma né löngun til þess að vera í slíkum félagsskap, og svo veit eg, að er um ýmsa af skoðanabræðrum mínum og vinum. En jafnfjarri skapi mínu er það að vilja binda sannfæring nokkurs manns eða útiloka menn frá félaginu fyrir þá sök, að þeir hafi ekki eignast þá sannfæring, sem eg hefi. Eg vil, að allir góðir menn geti átt erindi inn í þetta félag, þeir, sem vilja fræðast um það mál, sem félagið heldur fram, og telja líklegt að dýrmætan sannleika kunni að vera að finna á þeim leiðum, sem félagið bendir mönnum á. Svo verður tíminn að leiða það í ljós, hvort einstakir, efagjarnir félagsmenn telja sig fá hér þær röksemdir, sem þeim nægja til þess að reisa á þeim óbifanlega sannfæring.

Eg hefi, í samráði við nokkura skoðanabræður mína, ráðið af að leggja það til, að félagið verði nefnt „Sálarrannsóknafélag Íslands“. Eins og eg hefi tekið fram, merkir nafnið ekki það, að félagið ætli sjálft að halda sambandsfundi. Það gerir ekki heldur brezka né ameríska sálarrannsóknafélagið. En okkar félag vill, eins og þessi félög, sem eg hefi nú nefnt, stuðla að því, að einstakir menn geti haldið rannsóknum uppi. Og grundvöllurinn undir öllu þess væntan-

lega starfi er sálarlífsrannsóknirnar, það sem á ensku er nefnt Psychical Research. Mér finst því liggja beinast við, að félagið kenni sig við þær.

Eg hefi þá gert ofurlitla grein fyrir stefnu þessa væntanlega félags, eins og við höfum hugsað okkur hana, sem boðað höfum til þessa fundar. Eg veit, að eg hefi farið afar fljótt yfir sögur. En eg geri ráð fyrir, að fleiri taki til máls og vil ekki tefja of mikið fyrir ykkur. En fáeinum orðum langar mig samt til að bæta við, áður en eg sezt niður.

Það er langt síðan er eg, ásamt sumum vinum mínum, fór að þrá það, að sams konar félag myndaðist eins og það, sem eg vona að við stofnum í kveld. Það er ef til vill skömm að segja frá því, en satt er það samt, að eg hefi ekki haft hugrekki til að gangast fyrir því, fyr en nú. Eg hefi verið svo hræddur um, að starfskraftarnir yrðu of litlir til þess að halda félagi saman og gera það arðvænlegt í andlegum skilningi. En nú hafa þeir atburðir gerst með oss, sem hafa knúð mig áfram. Engill dauðans hefir farið um þennan bæ, og er nú á ferðinni um þetta land. Margir hafa lent í þungum hörmungum. Og þyngsta hörmungin hefir verið sú, að sjá á eftir ástvinum sínum yf-

ir á landið, sem allur þorri manna veit svo undur lítið eða ekkert um, og það með þeirri vitund, að eiga aldrei að verða þeirra var framar í þessum heimi.

Margir hafa reynt að létta þessar hörmungar með fégjöfum, sumir af frábærum drengskap og höfðingslund. En sumir okkar hafa orðið að segja með postulanum: „Silfur og gull á eg ekki,“ — og haga sér eftir því. Og þá skýtur eðlilega upp þeirri hugsun, hvort ekkert sé það til í eigu manns, sem geti komið sér vel fyrir harmþrungnar sálir.

Sumum okkar hefir verið gefin gjöf, sem við teljum dýrmætari miklum auði. Það er sú sannfæring, sem ætlast er til, að þetta félag vinni fyrir. Það er vissan um ósýnilegan heim og framhaldslíf okkar, þegar þessu jarðneska lífi er lokið. Mér finst það lýsa gegndarlausu vanþakklæti við þann, sem hefir gefið okkur gjöfina, ef við reynum ekki að miðla af henni nú — ef við önzum ekki, þegar svo margar felmtraðar og sundurtættar sálir hrópa á hjálp og huggun.

Auðvitað finn eg enn til ótta við það, hvað starfskraftarnir muni verða veikir. En eg er farinn að skammast mín fyrir þann ótta. Eg renni augunum yfir þennan fríða og

fjölmenna flokk, sem hér er saman kominn. Eg minnist þess, að postular Krists voru ekki nema 12. Þeir lögðu allan heiminn undir sig. Þeir, sem þegar hafa tjáð sig vilja vera með í þessum félagsskap, eru víst hátt upp undir 200. Eg geri ráð fyrir að margir séu enn væntanlegir. Við stöndum með óendanlega dýrmætan sannleik í höndunum, dýrmætari en nokkurn fána, sem blaktað hefir yfir nokkuru jarðnesku, fullvalda ríki. Drottinn hefir trúað okkur fyrir því að bera hann áfram til sigurs. Eg vona, að við gerum það.

Að svo mæltu skal eg leyfa mér að leggja það til

að fundurinn stofni félag á þeim grundvelli, sem eg hefi nú lýst, og

að það félag verði nefnt „Sálarrannsóknafélag Íslands“.

Og jafnframt skal eg óska þess, að þetta félag mætti verða blessunarrík jólagjöf fyrir þessa þjóð, en einkum fyrir þá, sem staddir eru í dimmustu skuggum tregans og raunanna; að það geti æfinlega af hjarta tekið undir lofsöng hinna himnesku hersveita: „Dýrð sé guði í upphæðum“; að því auðnist æfinlega að hafa vinsældir af öllum lýð, eins og sagt er um fyrstu kristnu mennina — líka af góðum og ástríkum lýð

hinumegin við fortjald dauðans, sem eg tel alveg víst, að eigi einhverja fulltrúa á þessum fundi, þó að við sjáum þá ekki; að blessun drottins megi æfinlega hvíla yfir því, meðan það verður til; og að það megi bera gæfu til að reka eitthvert brot af erindi hans, sem framar öllum öðrum lifði og dó til þess að bera sannleikanum vitni.

## Um sannanir.

Erindi á janúarfundi S. R. F. Í. 1919.

Mig langar til þess að tala við ykkur ofurlitla stund um sannanirnar fyrir öðrum, ósýnilegum heimi. Það getur ekki orðið annan veg en á víð og dreif. En mér finst vel til fallið, að við notum þennan fyrsta fund félagsins með fram til þess að brýna það fyrir okkur, að sú alheimsalda, sem þetta félag er örlítill partur af, hefir risið upp af sönnunum fyrst og fremst. Og þó að sú alda hljóti að hafa mikil áhrif á heimspekilegar og trúarlegar hugmyndir mannanna og gagnsýrast af slíkum hugmyndum að ýmsu leyti, þá eru sannanirnar það meginatriði, sem ávalt verður að hafa hugfast, það vegarljós, sem aldrei má missa sjónar á.

Eg veit, að það er vandkvæðum bundið að tala um sannanir, með fram fyrir þá sök, að sumum mönnum — auðvitað ekki öllum — finst það efni þurt og leiðinlegt. Það kemur af því, að þegar talað er um

sannanir, sem ekki snerta tilheyrendurna persónulega, þá er óhjákvæmilegt að snúa sér nær einvörðungu að skynseminni. Tækifærið er þá svo lítið til þess að koma við tilfinningarnar. En þó að eg tæki mér nærri þá tilhugsun, ef þetta ætti að verða leiðinlegt félag, og voni, að til þess komi ekki, þá finn eg, að við verðum að brýna það fyrir okkur, að þetta félag er annað og æðra en skemtifélag. Það er helgað eftirgrenslun og boðun sannleikans. Eg vona, að þessu félagi auðnist að friða tilfinningar einhverra þeirra félgsmanna, sem þess kunna að þurfa við, og gefa vonum þeirra byr undir báða vængi. En við verðum að varast að láta við það lenda að lauga okkur hér í einhverju mjúku og óljósu tilfinningaflóði. Eg hefi enga trú á, að það yrði haldgott, hvorki fyrir þetta félag, né fyrir einstaka félagsmenn. Við verðum æfinlega að hafa það hugfast, að sannleikurinn krefst þess alloft, að vitsmunirnir leggi nokkuð á sig. Annars er ekki hægt að eignast hann.

---

Spiritismi nútímans hófst, eins og mörgum ykkar er kunnugt, fyrir rúmum 70 árum, árið 1848, og sálarrannsóknir vísinda-

mannanna nokkurum áratugum síðar. Með því hvorutveggja má segja, að byrjað hafi skipuleg leit eftir sönnunum fyrir öðrum heimi. En mikill misskilningur væri að gera sér í hugarlund, að þá fyrst hafi byrjað sannfæringin um samband við framliðna menn.

Einn af frægustu læknum Norðurálfunnar, Cesare Lombroso, geðveikralæknir í Turin á Ítalíu, sem nú er dáinn fyrir fáum árum, kemst svo að orði í bók, sem hann hefir ritað um sannanirnar fyrir öðru lífi:

„Ef til vill er ein sönnun, sem verkar á mig með þrálátustum krafti. Hún er sú almenna trú meðal allra þjóða (að minsta kosti í lægri stéttunum, sem oft standa nær uppsprettu sannleikans en mönnum virðist), að til séu ekki að eins miðlar eða töframenn, heldur og andar, og sérstaklega sálir framliðinna manna, ötular, starfandi, — stundum í góðu skyni, stundum í illu, — að þessar verur séu á sveimi kringum okkur í loftinu, í húsum, í klettum, og komi skeytum til mannanna, einkum fyrir meðalgöngu töframanna eða miðla.“

Læknirinn færir til fjölda af dæmum til stuðnings þessu máli sínu. Ekki leikur nokkur vafi á því, að hann hefir haft rétt að mæla. Mörg af þeim dæmum, er hann til-

færir sem áreiðanleg, einkum frá villimönnum, mundu nú verða talin merkilegar sannanir, þó að áður létu menn slíkt eins og vind um eyrun þjóta. Afarþrálátar tilraunir hafa verið gerðar til þess að kæfa þessa sannfæring. Vísindi liðins tíma hafa dregið hana sundur í háði og talið hana eingöngu afleiðing af hjátrú og vanþekking. Kirkjan sjálf hefir, þó að kynlegt megi virðast, að öllum jafnaði verið henni mótfallin. Og samt hafa menn, eins og einn af prestum ensku biskupakirkjunnar kemst að orði, haldið fast við hana með staðfestu gegnum alla mannkynssöguna, og um ekkert af því, sem liggur utan við venjulega reynslu mannkynsins, hafa menn borið vitni jafn-oft né jafn-stöðuglega eins og um það að framliðinna manna hafi orðið vart.*

Á því getur ekki nokkur vafi leikið, að þessarar sannfæringar hefir kent um alla jörðina — austan frá austurströndum Austurálfunnar vestur á vesturstrandir Vesturálfunnar, sunnan frá suðurodda Suðurálfunnar norður á Hornstrandir og Langanes. Hennar hefir kent á öllum öldum, altfrá hinni dimmustu fornöld, sem vér höfum nokkura

---

* Arthur Chambers: Problems of the Spiritual, bls. 2.

hugmynd um, og fram á daginn í dag. Hennar hefir kent hjá villimönnum, sem staðið hafa á svo lágu andlegu stigi, að þeir hafa alls enga guðshugmynd haft og engin trúarbrögð. Æðstu spámenn og spekingar, eins og Swedenborg, hafa ekki verið í neinum vafa. Og þessi sannfæring hefir átt ítök í mönnum á öllum hinum mörgu stigum milli villimannsins og Swedenborgs. Hún hefir staðið í sambandi við hinar ömurlegustu hugmyndir og ískyggilegustu kynjasögur um uppvakninga og sendingar. Og hún hefir líka staðið í sambandi við hin dýrlegustu dularfull fyrirbrigði, sem birzt hafa á þessari jörð, þegar ljósheimar drottins hafa að ofurlitlu leyti lokist upp fyrir mönnunum — fyrirbrigði, sem kristinn heimur hefir reist eilífðarvonir sínar á.

Svo margbreytilegs eðlis hefir þessi sannfæring verið, svo mikil staðfesta hefir verið í henni og svo mikilvæg hefir hún verið. Lombroso finst jafnvel hún vera sönnun, sú sönnunin, sem hefir verkað á hann með þrálátustum krafti, eins og þið heyrðuð áðan. Vísindaleg sönnun er hún auðvitað ekki, eftir þeim mælikvarða, sem nú er lagður á sannanir. En hún ein hefði átt að geta fengið skynsama og gætna menn til þess að athuga málið af gaumgæfni. Þó að mönn-

um væri ekki kunnugt um neitt annað viðvíkjandi málinu en þessa sannfæring, sem virðist vera jafn-gömul mannkyninu og vitanlega er sprottin upp af ýmislegri reynslu mannanna, þá ætti sú vitneskja ein að nægja til þess að aftra mönnum frá því að koma rannsóknarlaust með staðhæfingar, sem eru gagnstæðar henni. Lakast fer auðvitað á því, ef komið er með slíkar fullyrðingar á helgum stöðum.

Eg nefndi áðan Swedenborg. Eg geri ráð fyrir, að flest ykkar hafi heyrt hans getið. Hann lifði frá 1688 til 1772. Eg get ekki stilt mig um að segja ykkur eina sögu af honum. Sé sagan á annað borð tekin trúanleg — og mér vitanlega hefir enginn véfengt hana — þá held eg því fram, að beinlínis þurfi undanbrögð frá skynsamlegu viti til þess að neita því, að hún bendi á áhrif frá öðrum heimi. Sagan er í stuttu máli á þessa leið:

Ekkja Hollendings eins, sem hafði átt heima í Stockhólmi, hét frú Marteville. Hún var krafin um skuld, sem hún mundi með vissu, að maðurinn hennar hafði borgað. En hvernig sem hún leitaði, gat hún ekki fundið kvittunina. Meðan á þessu skuldarþjarki stóð, tók konan sér fyrir hendur að heimsækja Swedenborg. Hún gerði það ekki

í því skyni að leita hjálpar hans í þessum vandræðum sínum, heldur eingöngu af löngun eftir að kynnast honum, af því að hann var svo frægur fyrir samband sitt við ósýnilegan heim. Hún spurði Swedenborg, hvort hann hefði þekt manninn hennar. Hann kvaðst aldrei hafa séð hann, af því að allan þann tíma, sem Marteville hafði verið í Stockhólmi, hafði Swedenborg verið í Lundúnum. Átta dögum síðar birtist þessi framliðni maður konu sinni í draumi og sýndi henni, hvar hún gæti fundið forkunnar vel vandað skrautgripaskrín. Í þessu skríni sagði hann, að hún mundi ekki að eins finna kvittunina, sem hún hafði leitað svo mikið að, heldur og dýrmæta brjóstnál, setta 20 demöntum, sem konan hélt, að væri líka týnd. Konan vaknaði samstundis, fór á fætur, kveikti ljós og leitaði, þar sem henni hafði verið til vísað. Skrínið var þar. Hún lauk því upp — og í því voru bæði kvittunin og brjóstnálin. Hún fór aftur í rúmið, í meira lagi glöð, og fór ekki á fætur fyr en um dagmál morguninn eftir. Jafnskjótt sem hún lauk upp augunum, kom stúlkan hennar inn, og var asi á henni. Hún sagði, að Swedenborg væri kominn. Þegar þau hittust, sagði hann henni, án þess að hún mintist áður á drauminn einu orði, að

hann hefði talað við marga framliðna menn um nóttina, og að einn þeirra hefði maðurinn hennar verið; sig hefði langað til að tala við hann lengur, en framliðni maðurinn hefði sagt, að hann yrði að finna konuna sína, til þess að láta hana vita, hvar skjal nokkurt væri niðurkomið, skjal, sem henni væri afar mikilvægt, og demants-brjóstnál, sem hún haldi að hafi týnst. Erindi Swedenborgs til frúarinnar var ekkert annað en að fá að vita, hvort maðurinn hennar hefði birzt henni, og hvort hann hefði í raun og veru flutt henni þá vitneskju, sem hann hefði verið að tala um við sig.

Eg geri ráð fyrir, að þið munið sjá það öll, að örðugt sé að komast undan því að kannast við að þetta skifti hafi náðst samband við framliðinn mann. Að öðrum kosti yrðum við að hugsa okkur, 1) að draumvitund konunnar sjálfrar hafi fundið skrínið og 2) að draumvitundin hafi séð inn í skrínið; þetta tvent er í sjálfu sér ekkert óhugsandi, þó að það sé ekki verulega líklegt, af því að þess er ekki getið, að konan hafi endranær séð í fjarska í svefni. Draumvitundin yrði 3) að hafa skapað eiginmanninn, gert sér í hugarlund, að h a n n segði frá því, sem einhver hluti af vitund konunnar skynjaði sjálfur

í raun og veru. Eg skal ekki halda því fram, að það sé neitt óhugsandi, jafnvel ekki neitt sérstaklega ólíklegt.

En nú byrja örðugleikarnir, svo að um munar.

Við verðum að hugsa okkur, 4) að þessi draumvitund konunnar láti Swedenborg verða varan við sig; 5) að hún hafi getað sagt honum það, sem gerðist um nóttina svona nákvæmlega; 6) að hún hafi getað látið Swedenborg skynja sig sem framliðinn mann; og að henni hafi 7) einhvern veginn þótt það sögulegra að telja honum trú um, að vitneskjan væri enn ekki til konunnar komin, og að þessi framliðni maður — sem í raun og veru var ekkert annað en draumvitund jarðneskrar konu — yrði að flýta sér með vitneskjuna til konunnar sinnar.

Þessar tilgátur eru óhjákvæmilegar, svo framarlega sem við ætlum að komast hjá þeirri hugsun, að hér hafi náðst samband við framliðinn mann. Eg leyfi mér að halda því fram, að líklegar séu þær ekki. Og hvað sem einhverjir þeir menn, sem þykjast tala í nafni vísindanna, kunna að segja ykkur, þá eru þær áreiðanlega með öllu óvísindalegar. Vísindin hafa ekkert leitt í ljós,

sem bendir á, að í þessum undanbragða-tilgátum sé nokkurt vit.

Atburðir, sem benda jafn-skýrt eins og þessi á samband við framliðna menn, hafa alveg vafalaust gerst í þúsundatali áður en um nokkurn spiritisma í nútíðarmerkingu og nokkurar vísindalegar sálarrannsóknir var að tefla.

---

Eftir 1848 hefst skipuleg eftirgrenslan eftir sönnunum fyrir ósýnilegum heimi. Sú eftirgrenslan er aðaleinkennið á því, sem nefnt er spiritismi nútímans, og aðallíftaugin í honum. En áður en eg sný mér að honum, langar mig til að minnast með fáeinum orðum á hinar vísindalegu sálarrannsóknir.

Þegar spiritisminn var orðinn um 30 ára gamall, fór samvizka sumra vísindamanna að ókyrrast. Ekki er svo að skilja, að enginn vísindamaður hafi sint spiritismanum, áður en þessi sérstaka tegund rannsókna hófst, sem vísindamenn hafa verið sérstaklega við riðnir. Sumir frægustu lærdómsmennirnir höfðu verið einna fremstir í flokki í þessari nýju sannleiksleit, svo sem Crookes, Wallace og de Morgan á Englandi,

Edmonds hæstaréttardómari í New York, Carl du Prel og prófessor Zöllner á Þýzkalandi, Aksakoff á Rússlandi. En yfirgnæfandi hluti vísindamanna taldi þetta alt saman endileysu, og var ófáanlegur til að sinna því neitt. Að lokum fór samt svo, að fyrirbrigði spiritismans urðu of ásækin. Vísindamennirnir fóru að finna til þess, að það væri blátt áfram hneyksli að sinna málinu ekkert, ef 10. hlutinn var sannur af því, sem spiritistarnir fullyrtu, eins og einn af helztu lærdómsmönnum Englendinga komst að orði. Upp úr þessari tilfinning myndaðist Brezka og ameríska Sálarrannsóknafélagið, sem nú starfar sem tvö sjálfstæð félög.

Í raun og veru var í fyrstu gengið að því vísu í félaginu, að samband við framliðna menn hefði ekki fengist. Að minsta kosti var svo ofan á. Félagið taldi sig ekki stofnað til að rannsaka það mál. Það taldi sig stofnað til að rannsaka ýmsa hæfileika mannanna, sem sumpart hefðu enn ekki verið viðurkendir, sumpart ekki nema að nokkuru leyti.

Ef vér nú reynum að gera okkur ljósan í sem fæstum orðum árangurinn af starfsemi félagsins, að því leyti, sem hann snýr að því máli, sem einkum er viðfangsefni okkar í þessu félagi, þá getum við sagt, að

leiðtogarnir hafi komist upp á tvo aðalhjallana í sókn sinni upp á við eftir þekkingunni.

Annar er sá, er fjarhrifin (telepatían) sönnuðust — sú sannreynd, að áhrif berast úr einum hug í annan, án þess að fara gegnum skilningarvitin. Eg hefi í ritlingi mínum „Lífi og dauða“ farið nokkurum orðum um þau feikna-áhrif, sem sú uppgötvun hafði, og skal því ekki fjölyrða um þau nú, en leyfi mér að benda ykkur á það, sem þar er sagt. Að eins skal eg til skýringar minnast á, hvað það var, sem gerði vísindamönnunum svo örðugt að fallast á kenninguna um samband við framliðna menn. Þeim fanst það ríða bág við reynslu vísindanna. Ekkert hafði komið fram þar, sem benti á, að hugur gæti starfað annan veg en í sambandi við líkamann. Telepatían vakti alvarlegan grun um, að hann kunni að geta það samt. Mér liggur við að halda, að hún sé fyrsta hættulega höggið, sem efnishyggjan hefir fengið. Fyrir þessa uppgötvun var ekki lengur orðið jafn-óaðgengilegt að fallast á kenninguna um samband við framliðna menn. Hún nægði sumum efasemdamönnunum í því efni — þar á meðal þeim manninum, sem mest munaði um, Frederic W. H. Myers, ötulasta rannsókna-

manninum á þessu sviði, manni, sem gekk með logandi ástríðu í sál sinni eftir því að finna sannleikann. Telepatían er sá rauði þráður, sem gengur gegnum alla hans miklu bók um persónuleik mannsins og framhaldslífið eftir dauðann, bók, sem öll stefnir að þeirri kenningu, að það framhaldslíf verði að teljast sannað.

En telepatíukenningin reyndist um stund þessu máli tvíeggjað sverð. Það, sem mælti fastast með kenningunni um samband við framliðna menn, var endurminningasannanirnar. Það, sem tjáir sig vera framliðinn mann, skýrir í ósjálfráðri skrift eða munnlega, af vörum miðils, frá atburðum úr lífi sínu — atburðum, sem miðillinn getur enga hugmynd haft um. Þetta nefnum við endurminningasannanir. Gat ekki verið, að þessi vitneskja bærist til miðilsins fyrir fjarhrif frá jarðneskum mönnum, og væri öll þann veg undir komin? Þessi fjarhrifa-tilgáta varð að tízku um eitt skeið, og enn eru sumir menn að hampa henni í tíma og ótíma, menn, sem þykjast vera töluvert lærðir, en hafa í raun og veru ekkert vit og enga þekkingu á þessu máli. Ef einhver viðstaddur maður var með þá vitneskju í huganum, sem fram komu, þá var hægurinn á að segja, að vitund miðilsins sækti hana til

þess manns. Ef enginn viðstaddur, en einhver maður, einhverstaðar úti í heimi, hafði þá vitneskju, sem um var að tefla, þá var gert ráð fyrir, að miðillinn sækti hana þangað.

Þessar tilgátur voru í raun og veru alveg óvísindalegar, þó að þeim væri haldið fram af sumum vísindamönnum. Við rannsóknir á fjarhrifum hafði ekkert komið í ljós, sem gæfi mönnum heimild til þess að draga slíkar ályktanir. Og þær voru meira en ólíklegar, eftir því sem fyrirbrigðin sjálf höguðu sér. Það var og er oft og tíðum örðugast að fá það, sem viðstöddum mönnum er allra ljósast, og þeir eru fastast að hugsa um. Þetta hefi eg sjálfur þrásinnis reynt og þeir, sem hafa verið með mér við tilraunir. Ekkert getur verið mönnum ljósara en nöfnin á börnunum þeirra eða eiginkonu þeirra eða eiginmanni. Og menn bíða þess oft með mestri óþreyjunni að fá einmitt nöfnin. Nú er það reynslan, að hjá fjölda miðla er það sérstökum örðugleikum bundið að fá nöfn, þó að þau auðvitað komi líka oft. Í stað nafnanna, sem tilraunamanninum eru ljósust af öllu og hann hugsar mest um, koma þrásinnis atvik, sem hann man ekkert eftir, eða hefir aldrei heyrt getið um, verður að hafa mikið fyrir að grafa upp,

en kemst að lokum að raun um, að eru alveg rétt. Þetta og margt fleira gerði fjarhrifa-kenninguna mjög ólíklega. Og við það bættist, að þráfaldlega kom fram vitneskja, sem enginn jarðneskur maður átti í huga sínum. Bersýnilegt var, að kenningin um fjarhrif frá jarðneskum mönnum gat ekki átt við þ á. En þrátt fyrir það, að fjarhrifa-kenningin var óvísindaleg, og þrátt fyrir það að hún var ólíkleg, og þrátt fyrir það að stundum virðist hún alls ekki geta komið til greina, þá var haldið dauðahaldi í hana í lengstu lög — til þess að forðast kenninguna um samband við framliðna menn.

Það er eitt hið dásamlegasta í sögu þessa máls, hvernig þessi fjarhrifa-kenning var kveðin niður í hugum leiðtoganna í brezka Sálarrannsóknafélaginu. Þá komust þeir upp á síðari hjallann, sem eg nefni svo. Ýmsir menn úr þeirra hópi voru farnir yfir dauðans djúp. Þeir höfðu verið hálærðir menn. Þeir höfðu þekt allar efasemdir þeirra félaga sinna, sem enn voru hér á jörðinni, og hugur sumra þeirra hafði verið fullur af sömu rengingunum. Til þess að útrýma þessari telepatíu-grýlu, — eins og Sir Oliver Lodge orðar það í nýútkominni grein í ensku tímariti — fundu þessir framliðnu menn upp hin svo

nefndu víxlskeyti (cross-correspondences). Eg hefi líka minst á þessi skeyti í „Lífi og dauða“ og sagt í stuttu máli, hvernig þeim er háttað. Eg ætla ekki að tefja tímann á því að fjölyrða um þau nú. Að eins ætla eg að bæta því við, að einhver frægasta skýrslan um víxlskeyti er eftir Gerald Balfour fyrverandi ráðherra Breta. Í þessari ritgjörð Balfours er skýrt frá víxlskeytum, sem komu sumpart í ósjálfráðri skrift, sumpart í miðilstali, skeytum, sem voru svo gagnþrungin af þekkingu á grískum fræðum, að þeir lærdómsmenn, sem rannsökuðu þau, gátu ekki skilið þau, fyr en ráðningin kom úr sömu áttinni eins og ráðgáturnar sjálfar höfðu komið. Þeir, sem skeytin sendu, reyndust lærðari á þessu sviði, en hinir jarðnesku vísindamenn. Skeytin tjáðu sig vera frá tveimur prófessorum, sérstaklega lærðum í grískum fræðum. Balfour er bersýnilega ekki í neinum vafa um, að þaðan hafi þau líka komið.

Það má meðal annars sjá í ritgjörð þeirri í enska tímaritinu, sem eg mintist á áðan, hver óhemju áhrif víxlskeytin hafa haft. Sir Oliver Lodge segir þar afdráttarlaust, að honum sé ekki kunnugt um, að nokkur maður hafi kynt sér þau vandlega og ekki látið sannfærast um, að telepatíu-kenningin sé

ast vera. Álit hinna, sem annaðhvort hafi ekki átt kost á að kynnast staðreyndunum, eða telji ekki málið þess vert, að menn kynni sér það, komi auðvitað ekki til greina.

Eg hefi bent ykkur á tvo hjallana í þessu máli. Eg get bent ykkur á þann þriðja, sem eg tel afar-mikilsverðan. En þá verðum við að bregða okkur í anda vestur til Ameríku. Forseti Ameríska Sálarrannsóknafélagsins er prófessor Hyslop, og hann hefir ekki á síðari árum haft annað starf með hönudum en að vinna að rannsóknunum. Hann hefir, með óþreytandi elju og afburða nákvæmni í rannsóknunum, sannað það, sem við getum ef til vill til bráðabirgða nefnt langvinn áhrif frá öðrum heimi. Þegar framliðinn maður lætur miðil fara í sambandsástand, eða skrifa ósjálfrátt, eða þegar hann birtist sem svipur, þá er það auðvitað áhrif frá öðrum heimi. En þau áhrif eru skammvinn í bili. Þeim virðist vera lokið eftir stutta stund. Prófessor Hyslop hefir fundið, að áhrifin geta verið að staðaldri. Þau geta verið bæði góð og illkynjuð. Þau geta komið fram sem dásamleg list. En þau geta líka komið fram sem hystería og brjálsemi. Hann hefir með öðrum orðum sannað hvorki meira né minna en það, sem ritning-

in nefnir að öðru leytinu innblástur, að hinu leytinu djöfulæði. Eg vona, að fyrir þessu merkilega máli, verði innan skamms gerð nokkur grein, að tilhlutun félagsins, svo að eg minnist ekki frekara á það nú — skal að eins benda ykkur á það, að hér virðist vera að opnast nýtt útsýni og afar-merkilegt rannsóknarefni að koma í ljós. — Eftir rannsóknum Hyslops virðist ekki óeðlilegt að hugsa sér, að áhrifin frá öðrum heimi kunni að vera miklu víðtækari en mannkynið hefir nokkuru sinni dreymt um. Og eg veit ekki, hvað okkur mönnunum ætti að koma meira við en þau áhrif, sem við verðum fyrir, og hvernig við eigum við þeim að snúast — hvort sem þau áhrif koma frá sýnilegum eða ósýnilegum heimi.

Sálarrannsóknafélögin, hið brezka og hið ameríska, hafa orðið fyrir nokkuð misjöfnum dómum. Þau hafa, að sjálfsögðu, sætt aðkasti frá þeim mönnum, sem telja viðfangsefni félaganna svo ómerkilegt, að ekki taki því að vera að sinna því neitt, eða þá algerða blekking og markleysu. En spíritistarnir hafa líka oft verið þeim afar-gramir. Þeim hefir stundum fundist félögin hafa það starf aðallega með höndum að kæfa sannleikann. Því verður heldur ekki neitað, að framan af gengu rengingar brezka fé-

lagsins fram úr hófi. Eg hygg ekki, að það hafi verið aðallega því að kenna, að foringjunum hafi verið svo óljúft að kannast við samband við ósýnilegan heim, þó að svo hafi víst verið um suma þeirra. Hitt hygg eg að hafi valdið meiru, að þeim hafi fundist málið svo óhemjulega mikilvægt, að menn mættu ekki fallast á það, fyr en girt væri með öllu fyrir blekkingar, og sannanirnar væru orðnar miklu sterkari en menn krefjast í öðrum málum. Félögunum hefir líka verið fundið það til foráttu, að þau beri sannleikann fram svo óaðgengilega, að ekki verði hálft gagn að. Öll þessi gífurlega nákvæmni fyllir þúsundir blaðsíða, þar sem aðrir mundu ekki nota nema nokkura tugi, svo að það verður ókleift öðrum en sérfræðingum og mönnum, sem ekki eiga mjög annríkt, að komast fram úr ritunum. En þess ber að gæta, að með nákvæmninni einni verður verulega vísindalegur grundvöllur lagður. Það hefir félögunum tekist, og í því er fólgið þeirra ódauðlega ágæti. Aðalgallinn á félögunum hefir verið tregðan til þess að rannsaka líkamlegu fyrirbrigðin. En eg efast ekki um, að að því reki, að sú tregða detti úr sögunni. Sannleikurinn er sterkur. Og þegar menn fara á annað borð að gefa sig honum á vald, þá er ekki auðvelt að

nema staðar að fullu og öllu, hvar sem manni sýnist.

---

Eg hefi enn ekki minst á aðalmagn þeirra sannana fyrir ósýnilegum heimi, sem komið hafa síðan 1848. Það hafa auðvitað ekki leiðtogar Sálarrannsóknafélaganna fengið, heldur hefir það komið á fundum spiritista víðsvegar um heim. Það hefir komið fram hjá mönnum, sem hafa gert miðilsstarfið að atvinnu — mönnum, sem heimurinn hlýtur einhvern tíma að sjá, að hann stendur í óendanlegri þakkarskuld við, þó að hann hafi tíðast goldið þeim vanþökk, ofsóknir og svívirðingar. Og það hefir komið fram á þúsundum heimila, sem hafa sjálf leitað sambands, og oft og einatt farið dult með.

Svo að við tökum endurminningasannanirnar, sem vísindamönnunum þykir mest varið í, þá er það síður en svo, að þær hafi eingöngu eða fyrst komið fram hjá þeim. Þær hafa fylgt spiritismanum um 70 ár, og vísindamennirnir hafa fráleitt fengið þær betri en aðrir, þó að þeir hafi skýrt frá þeim með meiri nákvæmni.

Eftir því, sem Sir Oliver Lodge farast

orð í þessari grein, sem eg hefi verið að minnast á við ykkur, virðist þessum sönnunum rigna niður á Englandi um þessar mundir af óvenjulega miklum krafti — ef til vill fyrir þá sök, að nú er almennara til miðlanna leitað en áður, vegna hins gífurlega ástvinamissis, sem ófriðurinn hefir haft í för með sér. Logde fullyrðir, að oftar sé það en hitt, þegar góðs miðils sé leitað, að sterkar sannanir komi fyrir sambandi við þá ástvini, sem eftir er leitað, og stundum séu þær sannanir óviðráðanlegar. Þá er ekkert annað við þær að gera, en að beygja sig fyrir þeim.

Ekki eru það heldur vísindamennirnir einir, sem hafa við tilraunir sínar rekið sig á þekkingu, sem áreiðanlegt var, að ekki gat með miðlunum búið, þekkingu, sem var alt annars eðlis en sú, er kemur fram í endurminningasönnunum. Eg minni til dæmis á það, þegar dóttir hæstaréttardómara Edmonds í New York talaði í sambandsástandi grísku við grískan mann, og kunni þó ekki nokkurt orð í því tungumáli, og að barnung dóttir konunglegs málafærslumanns í London skrifaði ósjálfrátt, fyrir tæpum tveimur árum, línur úr gríska Nýja testamentinu, með grísku letri, og hafði þó aldrei grískt Nýja testamenti séð og þekti engan

gríska staf. Frægastur miðill fyrir lærdóm frá öðrum heimi er ef til vill Madame d'Espérance. Í ósjálfráðri skrift hennar talaði framliðinn maður við hvern sérfræðinginn eftir annan um fræðigreinar þeirra, og reyndist lærðari þeim öllum.

Þá eru hin svo nefndu fysisku fyrirbrigði spiritismans. Það hefir um langan aldur verið mikill siður með vísindamönnum, og þá auðvitað öllum þorra almennings líka, að virða þau fyrirbrigði vettugi, annaðhvort ganga fram hjá þeim, eins og þau væru ekki til, eða telja þau árangur af einhverjum brellum, eða líta á þau sem einhverjar fáránlegar kynjar, sem í raun og veru séu engar sannanir — því að einhvern veginn séu þau út úr miðlunum einum spunnin. Alt slíkt er ekkert annað en raunaleg dæmi þess, hve sannleikanum getur stundum verið veitt mikil mótspyrna.

Ef þið komið til ljósmyndara, sem ekki veit nokkur deili á ykkur, og látið hann taka af ykkur mynd — og ef þá kemur á plötuna, auk myndarinnar af ykkur sjálfum, mynd af einhverjum framliðnum manni, sem þið þekkið, en ljósmyndarinn gat ekki þekt, eða ef til vill af manni, ykkur nákomnum, sem dáinn er fyrir ykkar minni, en aðrir, eldri menn, þekkja á mynd-

inni — þá teljið þið þetta sönnun — haldið þið ekki? — sönnun fyrir ósýnilegum heimi, sönnun þess, að framliðni maðurinn hafi að einhverju leyti verið við þetta riðinn. Það er að segja, þið teljið þetta sönnun, ef þið eruð með öllu viti, og ef hugur ykkar er ekki troðfullur af einhverjum hleypidóma-vitleysum.

Ef þið eruð á fundi með miðli, og hafið búið svo um, að engar brellur er unt að hafa í frammi — og ef ykkur birtist svo, að luktum dyrum, ein eða fleiri mannverur, sem hverfa svo aftur að luktum dyrum — þá teljið þið þetta sönnun fyrir ósýnilegum heimi. Ef þið eruð nú svo heppin að þekkja einhverja af þessum komumönnum, þá teljið þið þetta sönnun þess, að þessir menn lifi enn í ósýnilegum heimi, og séu að einhverju leyti við þetta riðnir. Þið teljið þetta sönnun blátt áfram af því, að þetta er sönnun, svo framarlega sem nokkur sönnun sé fólgin í reynslu mannkynsins. Og þið megið vera undarlega gerð, ef þið fallið ekki fram í anda með lotningu fyrir slíkum dásemdum, að minsta kosti meðan viðurkenning sannleikans hefir ekki gufað út úr ykkur aftur.

Mig langar til að segja ykkur að eins eitt dæmi þess, hve hin dásamlegu manngerf-

inga-fyrirbrigði hafa átt örðugt uppdráttar. Einn af mestu og frægustu náttúrufræðingum Englands, Alfred Russel Wallace, segir frá því í æfisögu sinni.* Nokkurir af helztu lærdómsmönnum Englendinga sömdu við tvo miðla, um að gera með þá tilraunir heilt ár. Meðal þessara manna voru Frederic Myers, Gurney, alþektur sálarrannsóknamaður, Arthur Balfour, fyrv. forsætisráðherra, nú utanríkisráðherra, Breta, prófessor Sidgvick í Cambridge og frú hans Mrs. Sidgvick, sem er hálærð kona og háskólakennari. Miðlarnir voru tvær kornungar stúlkur, báðar fyrir innan tvítugt, Miss Wood og Miss Fairlamb. Sams konar fyrirbrigði virðast hafa gerst hjá þeim báðum, og tilraunirnar gerðar með þær á víxl. Þeir sömdu auðvitað um svona langan tíma til þess að ganga nú einu sinni rækilega úr skugga um alt. Og þá lögðust menn nú ekki varúðarreglurnar undir höfuð. Þessir piltar ætluðu sér svo sem ekki að láta leika á sig. Tilraunirnar voru gerðar á heimilum tilraunamannanna sjálfra, sumar í Newcastle, sumar í Lundúnum, sumar í Cambridge. Fyrir eitt hornið á herberginu var tjaldað

---

* Alfred Russel Wallace: My Life, II, bls. 334—337.

og fyrir innan tjaldið var dýna og koddi lögð á gólfið. Þar lá miðillinn. Úlnliðir stúlkunnar voru bundnir saman með bendlum, og endarnir á þessum spottum, sem stundum voru eitt fet, stundum lengri, negldir niður í gólfið. Því næst var lakki brætt yfir endana og þeir innsiglaðir. Þrátt fyrir þetta komu ein eða fleiri verur út úr skotinu, sem tjaldað var fyrir, fóru stundum nokkuð langt frá tjaldinu og tóku á öllum fundarmönnum. Ljósið var nægilegt til þess að sjá verurnar. Stundum voru það börn, sem birtust, stundum fullorðnir menn. Önnur fyrirbrigði gerðust jafnframt. Í fundarlok mátti alt af ganga að miðlinum á dýnunni, stundum vakandi, stundum í sambandsástandi, og allur frágangurinn var með kyrrum kjörum.

En svo rak að því, að þetta var ekki talinn nógu tryggilegur umbúningur. Lærdómsmennirnir vissu ekki, nema stúlkan kynni að vera svo slungin, að hún kæmi með bendla, nagla, lakk og innsigli og gengi frá öllu, eins og þeir höfðu frá því gengið í fundarbyrjun, þegar hún hafði lokið því verki að sýna sig sem veru úr öðrum heimi. Vafalaust hafa þeir athugað, hvað hún hefði getað gert af bendlunum, nöglunum og lakkinu, sem þeir höfðu sjálfir notað, og kom-

ist að þeirri niðurstöðu, að þetta góðgæti kynni hún að hafa étið. Til þess nú að sjá við þessu, er skift um tegund bendlanna á hverjum fundi, breiddin á þeim, efnið í þeim, liturinn á þeim hafður mismunandi, sömuleiðis liturinn á lakkinu, eða skift um innsigli, svo að frágangurinn var aldrei nein tvö kveld hafður sá sami. Þrátt fyrir þetta héldu fyrirbrigðin áfram óbreytt. Samt þótti öruggara að ganga betur frá þessu. Svo að þeir settu stúlkuna í hengiból uppi í loftinu, og þetta hengiból var með trissum sett í samband við vog, sem sýndi það tafarlaust, ef stúlkan fór úr því. En fyrirbrigðin komu jafnt eftir sem áður.

Myers bókaði það, sem gerðist á fundunum, og sýndi Wallace skýrslurnar. Sjálfur var Myers ekki í neinum vafa um fyrirbrigðin. En þessir rannsóknamenn gáfu engar skýrslur út um þau, og Myers fer ekki lengra í sinni miklu bók um Persónuleik mannsins, en að gera ráð fyrir, að það geti verið, að manngerfingar gerist. En svo kemur eftirleikurinn — og hans vegna segi eg ykkur frá þessu. Mörgum árum eftir að þessar tilraunir fóru fram, ritar Mrs. Sidgvick um þær og leggur mikla áhrezlu á það, að ekki hafi verið nógu vandlega búið um hnútana, til þess að varast svik — kannast

að sönnu við, að það hafi verið afar örðugt að koma við nokkurum blekkingum, „en ef til vill ekki ómögulegt.“ Wallace var stórhneykslaður á þessu atferli frúarinnar, sem ekki var heldur furða, og bendir á það í æfisögu sinni, að það sé skylda Sálarrannsóknafélagsins brezka að gefa út öll skjöl Myers um málið, bæði til þess að bjarga sæmd miðlanna og í þágu vísindanna. Það hefir ekki verið gert. Félagið hefir látið við það sitja að gefa út hin niðrandi ummæli frúarinnar. Mér finst það engin afsökun fyrir hana í þessu sambandi, að hún hafði eingöngu verið á fundunum, þegar minst hafði gerst. Ef hún vildi fara að skrifa um þessar tilraunir — og það í vísindalegt rit — var óhæfa, að taka ekki alla heildina til greina. Eg held, að þeir, sem haga sér svona andspænis sannleikanum, verði einhvern tíma, hvað merkir sem þeir kunna að vera, að koma fram fyrir konung sannleikans. Og eg held, að þeir neyðist þá til að segja eitthveð líkt og týndi sonurinn í dæmisögunni: „Faðir, eg hefi syndgað móti himninum og fyrir þér; og er ekki framar verður að heita sonur þinn.“

---

Ef eg væri spurður, hvað af því, sem talið sé sannanir fyrir ósýnilegum heimi og sambandi við framliðna menn, hafi sannfært mig mest, þá væri eg ekki í neinum vafa um svarið. Og eg tel það alveg víst, að allur þorri þeirra manna, sem hafa verulega þekking á þessu máli, og ekki eru blindaðir af einhverjum hleypidómum, mundu svara á líka leið og eg: Það er heild fyrirbrigðanna. Í henni er langmest sönnunin fólgin. Það er blátt áfram ekkert annað en fásinna að vera að skaka með einhver fá fyrirbrigði og fjargviðrast út af því, hvað þau sanni lítið. Það má jafnvel halda uppi óendanlegum stælum um einstakar tegundir fyrirbrigðanna. Þegar heildin er athuguð, horfir málið alt annan veg við. Þá hafa hugsandi menn, sem hafa næga þekking á málinu, ekki nema um tvent að velja:

Annaðhvort verða þeir að ætla, að annar, ósýnilegur heimur sé að gera afarstaðfastlegar, afar-viturlegar og afar-margbreytilegar tilraunir til þess að sanna sig fyrir okkur, jarðneskum mönnum. Framliðnir menn leita lags, eftir því sem skilyrðin eru. Stundum sýna þeir sig sem svipi, stundum í jarðneskum bráðabirgða-líkömum. Stundum tekst þeim að sýna gerfi sitt á ljósmyndum, þó að við sjáum þá ekki.

Stundum leggja þeir alt kapp á að sanna okkur, að þeir séu sömu verurnar, sem þeir segjast vera. Stundum er sérstök gangskör að því gerð að sanna okkur, að þeir hafi miklu meiri þekking á sumum sviðum, en nokkur jarðneskur maður hefir. Stundum lúta fyrirbrigðin mest að því að fræða okkur um þann heim, sem framliðnir menn segjast vera komnir inn í. Hvar sem fyrirbrigðin gerast á jarðarhnettinum, þá er aðalmarkmiðið undantekningarlaust og æfinlega það sama: Að gera okkur það kunnugt, að ósýnilegur heimur sé til, og að í þeim heimi lifi framliðnir menn. Annaðhvort er að kannast við það, að þetta hafi framliðnum mönnum tekist —

E ð a menn verða að hugsa sér, að einhver ískyggileg, dularfull vitsmunaöfl, sem við getum enga hugmynd gert okkur um, séu að leika sér með mannkynið og teygja það út í fáránlega vitleysu. Þessi öfl yrðu að vera gædd afskaplegum vitsmunum og afskaplegri þekkingu. Þau yrðu að þekkja æfiatriði einstaklinganna, ekki að eins lifandi manna, ekki að eins nýlega látinna mann, heldur og manna, sem hafa lifað langt aftur í öldum. Þau yrðu að standa í hámarki þeirrar vísindalegrar þekkingar, sem mennirnir hafa nú. Þau yrðu að vita

meira á sumum sviðum en nokkur jarðneskur maður veit nú. Þau yrðu að þekkja náttúrulög, sem við berum ekkert skyn á. Og alt þetta vit og alla þessa þekkingu notuðu þau þá til þess að blekkja mennina.

Þessi skýringin verður enn flóknari og ólíklegri, þegar við athugum hana betur. Þessi vitsmunaöfl yrðu að standa á lágu siðferðisstigi, ef þau væru að blekkja okkur. En hvað eru þau að boða okkur? Þau eru ekki eingöngu að boða okkur það, að við lifum eftir dauðann. Þau eru líka að koma okkur í skilning um, að velferð okkar eftir dauðann sé komin undir því, hvernig við förum með þetta líf — hvað við höfum verið sannleikselsk, drenglynd, fórnfús, kærleiksrík. Þau beina til okkar einhverri þeirri skörpustu áminning, sem komið hefir fram í kristninni um það, að maðurinn uppskeri eins og hann sáir. Þau hvetja okkur til bænrækni. Þau leiða hugi okkar til Jesú frá Nazaret. Þau sýnast ekkert láta ógjört, sem í þeirra valdi stendur, til þess að reyna að gera okkur að betri mönnum — þessi afskaplega slungnu, stórfróðu og viðsjálu blekkingaröfl, sem ættu að vera að leika sér að því að draga mannkynið á tálar! Það er áreiðanlega alt annað en vísindalegt að vera að skapa sér slíkar

grýlur. Það er ekkert annað en aumasta hjátrú. Milli þessarar hjátrúar að öðru leytinu og viðurkenningarinnar um það, að samband hafi fengist við framliðna menn að hinu leytinu, verðið þið að velja, ef þið farið að kynna ykkur þetta mál í heild sinni. Síðan er mér varð þetta ljóst, hefi eg ekki verið í neinum vafa.

En nú þykir mér líklegt, að einhver hugsi eitthvað á þessa leið: Þegar þú heldur því fram, að sannanirnar fyrir sambandi við framliðna menn séu svo afskaplega sterkar orðnar, að þú álítur, að eini vegurinn til þess að komast undan þeim sé sá, að fara að skapa sér einhver ímynduð dularöfl, sem ekki hafa neinn stuðning af vísindunum né heldur af heilbrigðri skynsemi, þá virðist þú gleyma öllum vitleysunum, sem koma fram við tilraunirnar. Benda þær ekki á eitthvað draumkent dularlíf mannsverunnar. Og er þá ekki líklegt, að allar þessar kynjar séu frá manninum einum runnar?

Eg gleymi sannarlega ekki vitleysunum. Eg hefi of mikið séð af þeim til þess. Eg hefi orðið að brjóta heilann um þær og þjáðst af þeim meira en svo, að eg geti gleymt þeim eitt augnablik, þegar eg er að hugsa um þetta mál á annað borð. Þið verðið að hafa það hugfast, að vitleysurnar ógilda aldrei sann-

anir. Þegar um sannanir er að tefla, þá hafa þær sitt gildi alveg eins fyrir því, þó að vitleysur séu þeim samfara að einhverju leyti. Ef það kemur fram í fyrirbrigðunum, sem óhugsandi reynist, að sé frá mönnunum einum, eftir að sú tilgáta hefir verið þaulreynd af skarpskygnustu mönnum jarðarinnar, þá verðum við að leita út fyrir manninn, alveg eins fyrir því, þó að sumar hliðar fyrirbrigðanna geti verið frá mönnum eingöngu, og séu það að öllum líkindum. Vitleysurnar sanna ekkert annað en það í þessu sambandi, að það er oft afarmiklum örðugleikum bundið fyrir framliðna menn að komast í áreiðanlegt samband við okkur.

Þessa örðugleika get eg ekki gert að umtalsefni að þessu sinni. Það yrði of langt mál og of flókið til þess að hnýta því við það, sem eg hefi þegar sagt. En eitt atriði langar mig til að minnast á við ykkur, áður en eg sezt niður, atriði, sem e g get hugsað mér að valdi framliðnum mönnum verulegum örðugleikum í viðureigninni við okkur og starfinu fyrir okkur. En þess vil eg láta getið sem greinilegast, að nú er eg að fara af sannanasviðinu og yfir á tilgátusviðið.

Mér þykir mjög líklegt, að ein tegund örðugleikanna fyrir framliðna menn stafi af þeim gífurlega mótþróa, sem stöðugt kem-

röng og að skeytin séu þaðan, sem þau segjur fram hjá öllum þorra jarðneskra manna gegn því, að framliðnir menn geri vart við sig. Athugið alla þá megnu angist, sem er í okkur flestum andspænis öðrum heimi. Mörgum okkar finst tæplega neitt voðalegra en að sjá framliðinn mann, að minsta kosti ef við erum einir og í myrkri. Einn af frægustu miðlum Englands hefir skýrt á prenti frá þeirri óumræðilegu skelfing, sem greip hann, þegar hann sá fyrsta skiftið framliðna móður sína. Það sýnist þó ekki vera neitt voðalegt að sjá móður sína — þó að hún sé komin til æðri heima. En svona fáránlega rangsnúinn hefir þessi jarðvist gert huga okkar flestra. Eg veit ekki, hvort neinn hefir lýst þessu hugarfari betur en einn frægur rithöfundur og fræðimaður enskur, Samuel Butler. Hann ritar svo um sjálfan sig í bréfi:

„Gerum ráð fyrir, að sú furða hafi gerst, að andar hafi orðið sýnilegir og að menn hafi þreifað á þeim, og að svo hafi þeir horfið, og að þetta hafi ekki verið nein blekking og engar brellur. Jæja; mér stendur á sama. Eg kemst einstaklega vel af eins og eg er. Mig langar ekki til þess, að þeir séu neitt að skifta sér af mér. Eg átti einu sinni

mjög góða vinkonu; eg hélt, að hún væri komin að andláti, og það hélt hún líka. Við ræddum það mál, hvort hún mundi geta komist í samband við mig eftir dauðann. „Lofaðu mér því," sagði eg, og það mjög hátíðlega, „að ef þú kemst að raun um, að unt *sé* að heimsækja mig hér á jörðinni — að ef þú *getur* sent mér skeyti — þá skulir þú aldrei nota það tækifæri, né láta mig fá nein skilaboð frá þér, þegar þú ert farin á annað borð!" Því miður batnaði henni, og hún fyrirgaf mér þetta aldrei. Ef hún hefði dáið, þá mundi hún hafa komið aftur, ef hún hefði getað; eg er þess fullvís, vegna þess, hvernig hún hagaði sér síðar andspænis mér. Eg held, að eðlishvöt mín hafi verið alveg rétt í þessu efni; og eg ætla að fara lengra: ef nokkur sýnilegur andi tekur upp á því að koma nálægt mér, þá ætla eg ekki að láta við það sitja að þrífa í hann, heldur ætla eg, í þágu vísindanna, að *skjóta hann*."

Þeir eru ef til vill ekki svo ýkja-margir, sem gera grein fyrir mótþróa sínum gegn öðrum heimi svona hreinskilnislega og hrottalega. En svipað er hugarfarið áreiðanlega hjá mörgum. Ef það er rétt, sem margir eru nú farnir að fullyrða — þar á meðal sumir vísindamennirnir — að hugsanirnar

séu jafnvel svo verulegar, að þær geti haft áhrif á ljósmyndaplötur, þá finst mér ekki óeðlilegt að hugsa sér, að allur þessi blindbylur mótþróans, sem stendur héðan af jörðinni gegn ósýnilegum heimi, hafi sín áhrif. Kristur sagði, að þeir, sem ekki veiti guðsríki viðtöku eins og börn, komi þangað aldrei. Bezt gæti eg trúað því, að sannanirnar fyrir ósýnilegum heimi gangi aldrei greiðlega, fyr en mennirnir hafa alment öðlast það hugarfar barnsins, sem tekur með hjartanlegum fögnuði við öllum dásemdum frá dýrðarheimum drottins. Og mér finst, sannast að segja, ekki heldur, að fyr eigi mannkynið skilið að fá þær.

---

Nú langar mig til að ljúka máli mínu með því að brýna það af nýju fyrir okkur, sem eg mintist á í byrjun þessa máls, að við megum aldrei missa sjónar á sönnununum. Því að þær eru vegarljósið.

Þeir menn eru til, og mér virðist sérstaklega mikið af þeim meðal spíritista á Norðurlöndum, sem álykta sem svo: Sannanirnar eru komnar. Við þurfum ekki að vera aðgrafast eftir þeim lengur. Nú getum við látið okkur nægja að njóta þeirrar fræðslu um annan

heim, sem við kunnum að geta fengið. Þessum hugsunarhætti er eg andvígur; og eg vona, að hann komist aldrei inn í þetta félag.

Hvers vegna þurfum við alt af að vera að fá sannanir? Sannanir eru ekki æðsta takmark þessa máls — eg kannast við það. Æðsta takmarkið virðist mér hljóti að vera það, að við fáum þá opinberun, sem hjálpar okkur til þess að verða verulega hæfir fyrir annan heim, þann heim, sem við eigum öll að fara inn í eftir tiltölulega stutta stund.

Það er vegna örðugleikanna, sem sýnilega eru á sambandinu, að við höfum alt af þörf á sönnununum. Allir, sem hafa kynt sér þetta mál vandlega, og sérstaklega ef þeir hafa kynt sér það með tilraunum, hljóta að hafa gengið úr skugga um það, að oftast er sambandið alt annað en örugt. Til þess að reyna, hvað örugt það er, er engin önnur leið til en sannanirnar. Sú opinberun, sem kemur í sambandi við sannanir, á að minsta kosti fylstu heimting á því, að hún sé vandlega íhuguð. Það er beinlínis ólíklegt, að hún sé ekki að einhverju leyti rétt. Sannanalaus opinberun getur auðvitað verið rétt. En alla tryggingu vantar.

En höfum við þá þörf á nokkurri nýrri opinberun? Höfum við ekki fengið þá opin-

berun, sem okkur nægir? Eg get ekki farið út í það efni nú. Eg veik nokkuð að því í erindi, sem eg flutti hér í bænum fyrir nokkurum vikum.* Í þetta sinn verð eg að láta mér nægja að benda ykkur á eitt atriði að eins. Og það verður það síðasta, sem eg segi nú:

Jafnvel úthafið mundi verða að stöðupolli og að lokum þorna upp, ef ár og lækir jarðarinnar og regn himinsins streymdi ekki í það. Líkt er þessu farið um trúarbrögð mannanna. Og svo að eg nefni þau trúarbrögð, sem næst okkur standa, kristindóminn, þá hefir hann orðið grátlega líkur stöðupolli, af því að lindir sannleikans hafa ekki fengið að streyma í hann tálmunarlaust. Hann hefir þörf á þeim öllum. En tilfinnanlegasta þörf hefir hann á þeim lindunum, sem streyma beint úr dýrðarheimum vors himneska föður.

---

* „Mikilvægasta málið í heimi“ hér að framan.

## Spiritisminn og kirkjan.

Erindi flutt í S. R. F. Í. 8. maí 1919.

---

Eg ætla að byrja mál mitt á nokkurs konar vörn fyrir sjálfan mig. Eg bið ykkur að virða það á hægra veg. Eg mundi ekki nota til slíks neitt af þeim stutta tíma, sem eg get við ykkur talað, ef eg vonaði ekki að geta með því skýrt að nokkuru það mál, sem mig langar til að minnast á.

Eg hefi orðið þess var, að sumum kirkjulega hugsandi mönnum, einkum prestum, hefir mislíkað orð, sem eg lét mér um munn fara í ræðu, sem eg hélt á fundinum, er stofnaði þetta félag. Eg benti þar á það, að prestum landsins væri ljóst, hve andlegu málin væru illa komin með þjóð vorri. Og eg lét í ljósi undrun mína út af því, að prestunum skyldi ekki hafa hugkvæmst að nota sannleikann til viðreisnar andlegu lífi. Sérstaklega benti eg á þann sannleika, sem sálarrannsóknir nútímans eru að flytja heiminum. Eg hefi orðið þess var, að sumum mönnum hefir fundist þetta mælt af

einhverjum illvilja til kirkjunnar og bera vitni um það, að eg hefði í hyggju að hefja ófrið í hennar garð.

Þetta er misskilningur. Og af tveimur ástæðum furðar mig á þeim misskilningi.

Önnur ástæðan er sú, að eg minnist þess ekki, að neinn af leikmönnum þessa lands hafi farið öllu hlýlegri orðum um kirkjuna en eg hefi þrásinnis gert á prenti. Eg minnist þess ekki, að aðrir hafi látið uppi meiri skilning á örðugleikum prestanna, né talað um þá af meiri samúð. Mér hefir ekki dulist, og dylst ekki, hve góðan þátt prestar hafa átt í þjóðlífi þessa lands. Mér hefir ekki dulist, og dylst ekki, hve óumræðilega mikilsvert það er, að til er alheimsstofnun, sem hefir það markmið — þó að misjafnlega gangi með framkvæmdirnar, eins og aðrar athafnir okkar mannanna — að reka erindi Jesú frá Nazaret. Mér hefir ekki dulist, og dylst ekki, hve mikilvægt það hefir verið fyrir þessa þjóð, að grein af þessari stofnun hefir verið á þessu landi meira en 900 ár. Mér hefir ekki dulist og dylst ekki, að óteljandi grúi íslenzkra sálna hefir átt henni ómetanlega mikið að þakka, bæði þessa heims og annars. Svo að það er mér fjarri skapi að sýna henni fjandskap. Eg skil ekki, að það þurfi að gera kirkjunni tjón né eigi að vera henni

reiðiefni, að vinir hennar segi henni sannleikann í því skyni að bjarga henni.

Að hinu leytinu furðar mig á þessum misskilningi, af því að eg hefi aldrei farið leynt með það, að eg tel það einn af aðalgöllum kirkjunnar, hve lítið hún hirðir um sannleiksleitina, og hve treg hún er til þess að veita nýjum sannleika viðtöku. Árið 1908 kom út bók eftir mig, sem heitir „Ofurefli“. Eg ætla að leyfa mér að lesa ykkur fáeinar línur úr fundarræðu, sem þar er sagt frá:

„Eg geri ekki ráð fyrir því, að nokkur muni hugsa sér að halda því fram, að þessi dómkirkjusöfnuður okkar sé að leita sannleikans. Eg þekki engan svo gamansaman mann. Eg veit ekki, hvort nokkur annar söfnuður, hér á landi eða annarstaðar, er að því. En mér þykir það ekki sennilegt. Yfirleitt er það félag, sem kennir sig við Krist, ekki að því. Það lætur, að mestu, þá hafa fyrir því, sem utan við það félag eru. Kristnin lítur að langmestu leyti svo á, sem það sé framar öllu öðru hennar verk að varðveita þær skoðanir, sem ofan á hafa orðið, og henni koma við, og afstýra því, að þær breytist lifandi vitund. Og af þeim, sem bera eiga fram málefni kristninnar, kennimönnunum svo nefndu, er í raun og veru

ekkert annað heimtað en það — auk almenns velsæmis — að þeir haldi fast við gamlar skoðanir, að þeir varist allan nýjan sannleik. Auðvitað hafa skoðanirnar breyzt samt. Auðvitað eru þær alt af að breytast. Áhrifin frá þeim, sem ekki þykja hæfir í kristnu félagi, eða ekki vilja vera þar, hafa verið og eru alt af að koma fram. En í fyrstu eru þau æfinlega talin óguðleg. En þeir menn innan kristninnar, sem fara að leita sannleikans, verða í fyrstu andstygð flestra manna, sem taldir eru vel kristnir."

Þegar menn athuga það, að þetta er ritað fyrir meira en áratug, og að eg hefi alt af öðru hvoru síðan haldið því sama fram, þá vona eg, að þeir sjái það, að það er engin ný bóla, að mér finnist afstöðu kirkjunnar til sannleikans í meira lagi ábótavant og það er engin ástæða til þess að láta sér þykja það sérstaklega n ú, að eg læt þeirrar skoðunar getið á almannafæri.

---

Ef við ætlum að reyna að gera okkur einhverja skynsamlega grein fyrir afstöðu spíritismans til kirkjunnar, verðum við að sjálfsögðu að líta til annara landa. Hér er hreyfingin svo ung, ekki nema fárra ára. Og hún

hefir enn verið borin fram hér af mönnum, sem hafa verið hver öðrum tiltölulega líkir, mönnum, sem eru á svipuðu þroskastigi, hafa fengið svipað uppeldi, og eru með svipaðar skoðanir og svipaðan hugsunarhátt. Þessu er alt annan veg farið í öðrum löndum. Þar hefir kent margra grasa í leiðtogahópnum. Þar hefir kent þess mismunar, sem þjóðernis-einkennunum fylgir. Þar hafa verið óvenjulega trúgjarnir menn, og þar hafa verið óvenjulega efagjarnir menn. Þar hafa verið menn, sem hneigst hafa að fremur kuldalegri skynsemistrú. Þar hafa verið menn með elskulega barnslega trúartilhneiging. Þar hafa líka verið menn, sem ekki hafa fundið sálum sínum frið annarstaðar en niðri í djúphyljum dulspekinnar. Þar hafa verið fáfróðir erfiðismenn. Þar hafa verið nokkurir af lærðustu og vitrustu vísindamönnum veraldarinnar. Og þar hafa verið menn, sem staðið hafa á öllum þeim mörgu þekkingar- og þroskastigum, sem þar eru á milli.

Áður en eg held lengra, virðist mér nauðsynlegt að gera þess grein, hvað eg skil við orðin „spíritismi“ og „spíritistar“. Jafnvel um það er ágreiningur, hvað í þeim orðum eigi að telja fólgið, eins og allir munu reka sig á, sem fara að lesa útlend rit um spíri-

tismann. Við orðið „spíritismi“ skil eg þá kenning, og þá hreyfing, er sú kenning hefir vakið, að sannast hafi með tilraunum, að mennirnir lifi eftir dauðann og að unt sé, þegar sérstök skilyrði eru fyrir hendi, að ná vitundarsambandi við þá; og „spiritista“ nefni eg þá menn, sem telja þá kenning rétta.

Eg hefi þrásinnis orðið var við tilhneiging til þess að líta mjög líkt á alla þessa menn, sem eg nefni spíritista. Andstæðingum þeirra hættir við að telja þá alla jafn-óguðlega. Ef þeir reka sig á fullyrðing eftir einhvern þeirra, sem þeim finst sérstaklega fráleit, þá láta þeir alla spíritista bera ábyrgð á henni. „Þarna hafið þið það ómótmælanlega svart á hvítu, hvernig þessir spíritistar eru, og hvað þeir eru að kenna,“ segja þeir. Eins og þið hljótið að sjá af því, sem eg hefi þegar sagt ykkur um mismuninn á þessum mönnum, nær slíkt engri átt. Það er jafn-rangt eins og hitt væri að taka alt gott og gilt, sem kemur úr hinum mikla hópi þessara manna. Þið sjáið þetta líka, ef þið athugið málið frá almennri reynslu ykkar á mönnunum. Enginn maður er eingöngu kristinn maður, eða Múhameðstrúarmaður, eða Búddatrúarmaður, eða katólskur, eða Lútherstrúar. Tilveran speglar sig

misjafnlega í sálum mannanna, hvað sem þeir nefna sig. Ekkert gæti verið fráleitara en að láta alla kristnina bera ábyrgð á því, sem hver einstakur maður innan hennar hefir sagt um andleg mál. Og með þeim mönnum, sem eg nefni til hægðarauka einu nafni spíritista, er um svo mikinn mismun að tefla, að ýmsir þeirra afneita fyrir sitt leyti spíritista-nafninu, af því að þeim finst svo mikill munur á blænum á sálarlífi sínu og ýmsra þeirra manna, sem frá öndverðu hafa til þess flokks verið taldir.

Samt megum við ekki fyrir nokkurn mun missa sjónar á því, hvað afar-mikilvægt það er, sem er sameiginlegt í kenningum allra þessara manna. Hanson G. Hey, ritari allsherjar-sambands spíritista á Englandi, hefir sett það fram sem 7 meginatriði, og þau eru þessi: 1. Guð er faðir mannanna. 2. Allir menn eru bræður. 3. Tilveran heldur áfram óslitin eftir andlátið. 4. Mennirnir geta náð samfélagi við framliðna menn og orðið aðnjótandi hjálpar frá englum. 5. Mennirnir bera sjálfir ábyrgð á gjörðum sínum. 6. Mennirnir fá í öðru lífi uppbót og endurgjald fyrir það, sem þeir hafa gert á jörðinni, gott eða ilt. 7. Framundan þeim er endalaus framfarabraut.

Hey er í hópi þeirra manna, sem hafa rif-

ið sig frá kirkjunni og í raun og veru stofnað nýjan trúarflokk, eins og eg mun víkja að síðar. En eg tel óhætt að fullyrða, að undir þessi 7 meginatriði hans mundu allir spíritistar skrifa — nema hvað ýmsir þeirra munu ekki samþykkja setninguna um ábyrgð mannanna nema í sérstökum skilningi.

Nú ætla eg jafnframt að benda ykkur á ummæli eins þeirra spíritista (í þeim skilningi, sem eg nota orðið í kvöld), sem heldur fast vð kirkjuna. Það eru niðurlagsorðin í bókinni „Raymond“ eftir Sir Oliver Lodge. Þau eru þessi: „Lærum það af vitnisburði reynslunnar — annaðhvort sjálfra okkar eða annara manna — að þeir, sem hafa verið til, þeir eru til enn; að þeim er líka að fara fram og að þeir eru að læra að starfa og vona; að til eru mismunandi tilverustig, eitt öðru hærra og hærra, upp eftir allri eilífðinni; og að guð sjálfur er, með fulltrúum sínum og sendiboðum sem verkfærum, stöðugt að keppa að því, og starfa og hugsa upp ráð til þess að koma þessu sköpunarverki sínu gegnum erfiði og þrautir undirbúningsins, og leiða það fram til tilveru, sem er æðri og betri en nokkuð það, sem vér höfum nokkuru sinni þekt.“ Þetta er sú óbifanlega sannfæring, sem Sir Oliver Lodge

hefir fengið við sálarrannsóknirnar. Þetta er óbifanleg sannfæring allra þeirra manna, sem eg nefni spíritista. Eg vona, að þið sjáið, að það er ekkert smáræði, sem þeim ber saman um.

Þá kemur ágreiningurinn. Auðvitað get eg ekki gert grein fyrir honum öðruvísi en afar-lauslega. Í stuttu máli verður ekki sagt nákvæmlega frá skoðanamun, er kemur fram í bókum, sem skifta mörgum þúsundum. En við getum sagt, að þó að uppistaðan sé hin sama — sú, er tekin er fram í niðurlagsorðunum í „Raymond“, — þá sé ívafið mjög margbreytilegt.

Ef þið færuð að lesa mikið af ritum spíritista, án þess að velja úr, en eins og þau gerast upp og ofan, mundi tæplega geta hjá því farið, að þið rækjuð ykkur á tilhneiging til þess að ganga að miklu eða litlu leyti fram hjá Jesú Kristi. Mikil líkindi eru til, að ykkur fyndist hreinn og hressandi en nokkuð svalur skynsemis-andvari í sumum þessum ritum, svipaður því sem mjög er títt í ritum Únítara, enda hugblærinn mjög líkur. Sumt, ekki sízt nokkuð af því, er frá Ameríku kemur, mundi ykkur finnast óskemtilega ógætilegt og garalegt. Ef til vill rækjuð þið ykkur líka í öðrum ritum á nokkuð óljósar og þokukendar Krists-hug-

myndir, svipaðar þeim hugmyndum, sem kristnin hefir gert sér um heilagan anda. En þar munduð þið sjá Jesú frá Nazaret að litlu getið.

Eg geri ráð fyrir, að þessi straumur innan spíritismans burt frá trúnni á Jesúm Krist stafi að einhverju leyti af því, hvað kirkjan hefir verið þessari stefnu fjandsamleg að öllum jafnaði. Það er enginn vafi á því, að ef kirkjan hagar sér svo, að menn fái óbeit á henni, þá vaknar jafnframt tilhneiging til þess að rísa gegn kenningum hennar. En að einhverju mjög miklu leyti er þessi straumur því að kenna, að framan af létu skeytin frá öðrum heimi Jesú að engu getið, eins og beint er tekið fram í einu af ágætustu ritum spíritista frá fyrri áratugum hreyfingarinnar. Mér finst það ekki neitt furðulegt. Fyrst er nú það, að þá var langmest áherzlan á það lögð, að færa mönnunum sem allra-sterkastar sannanir fyrir framhaldslífinu, en minna á hitt, að koma mönnum í skilning um hin æðri sannindi tilverunnar. Þá var blómatími hinna svo nefndu fysisku fyrirbrigða, manngerfinga og alls konar kynja-viðburða. Þau voru líkust einhverjum tröllauknum alheimsauglýsingum, sem mannkynið ætti að neyðast til að reka augun í. Og í öðru lagi

er þess að gæta, að þeir framliðnir menn, sem samband næst við, eru ófullkomnir menn eins og við, þó að þeir séu komnir á æðra tilverustig. Við vitum ekki, hver skilyrði eru óhjákvæmileg til þess að þeir geti orðið varir við Jesúm frá Nazaret. En það er áreiðanlegt, að það fellur ekki í hlutskifti þeirra allra fyrsta sprettinn, svo að það er skiljanlegt, að þeir séu margir, sem ekki hafa neinar fregnir af honum að flytja.

Nú er þetta mjög að breytast. Nú eru hvað eftir annað að koma, sem nýr fagnaðarboðskapur, fregnir af honum í dýrð himnanna, er nefndur hefir verið ljós heimsins. Eftir þessum fregnum er það hann, sem þessi heimur á að lúta, hann, sem óhætt er að reiða sig á, hann, sem er „meistari meistaranna“, eins og guðspekingarnir nefna hann. Eftir alt saman hefir hún þá ekki verið neinn fánýtur draumur trú hins vestræna heims á þennan óendanlega mikla bróður vorn. Eg geng að því vísu, að að því reki, að allir spiritistar verði að taka þessar fregnir til greina. Frá öðru sjónarmiði er þetta líka stórmerkilegt. Eftir að tilraunasamband var fengið við annan heim, urðum við að bíða áratugum saman eftir fregnunum af Jesú Kristi í dýrð himnanna. Þá fóru þær að koma. Við höfum hér sýnishorn af þró-

un opinberunarinnar. Við höfum hér bending um það, að okkur muni auðnast að finna mikinn dýrmætan sannleika enn eftir þessum leiðum, ef við reynumst staðfastir í leitinni eftir sannleikanum — að alt af eigi við fyrirheitð: „Leitið, og þér munuð finna, knýið á, og fyrir yður mun upplokið verða.“

Fjölda margir spíritistar hafa orðið fyrir miklum áhrifum frá guðspekinni. Um tíma stóðu þessar tvær hreyfingar nokkuð á öndverðum meið. En á síðari tímum virðast þær hafa sveigst mjög saman — og það svo mikið, að stundum er nokkuð örðugt að átta sig á því, úr hvorri áttinni kenningarnar koma. Eg get bezt trúað því, að þegar þessir tveir meginstraumar hafa eflst að þroska, hvor á sinn hátt, þá muni þeir renna saman að mestu eða öllu leyti. Þegar spiritisminn hefir fengið fyllri vissu en hann hefir enn fengið um það, að rannsaka megi ósýnilegan heim, eftir öðrum leiðum en hann hefir að jafnaði farið, og þegar augu guðspekinnar hafa opnast betur fyrir nauðsyninni á sönnunum, þá skil eg sannast að segja ekki, hvar þröskuldurinn milli þeirra þarf að vera. Við fleiri, meira og minna dulræna, strauma verður vart í ritum spíritista. En

út í það efni get eg ekki farið nú — verð samt að taka það fram, að mér finst þeirrar hættu kenna ískyggilega mikið sumstaðar, að dulrænu straumarnir — að guðspekinni meðtalinni — flytji spíritismann út úr upprunalegum farvegi hans, sem er vísindaleg reynsluþekking. Í henni er spíritismans óumræðilegi styrkleikur fólginn.

Á hitt verð eg að benda ykkur, að frá kristinni kirkju hafa mjög margir þeirra fengið mest áhrifin. Frá kirkjunni hafa þeir fengið sína heitu trú og ást á Jesú Kristi. Eg bendi þar framar allra annara á Sir Oliver Lodge, þann manninn, sem á síðustu árum hefir sennilega haft víðtækust áhrif í spiritista-áttina, allra manna í veröldinni. Boðskapur hans er ekki síður boðskapur um Krist en um spiritismann. Eg get ekki stilt mig um að minna ykkur á fáeinar línur í bók hans, „Raymond“, þó að þær hafi verið prentaðar í ritlingi mínum „Lífi og dauða“. Mér finnast ummælin vera svo elskulega einföld, og eitthvað átakanlegt við það að fá þau frá hinum gamla, heimsfræga vísindamanni. Lodge er að tala um Krist, og ummælin eru þessi:

„Minn tími hér niðri er orðinn stuttur; það gerir lítið til; en eg dirfist ekki að fara héðan, fyr en eg hefi borið þetta vitni um

þá náð og þann sannleika, sem streymir út frá þessari guðdómlegu veru. Yfir skilninginn á hans viðkvæma hispursleysi og ást á mönnunum kunna með köflum að hafa lagst kreddur, sem búnar höfðu verið til í góðu skyni, en áttu alls ekki við, og skilningurinn kann stundum að hafa glatast innan um þær. En enn eiga auðmjúkir menn og hógværir greiðan aðgang að þessari guðdómlegu veru, eins og þeir hafa æfinlega átt.“

Mér dettur í hug að benda ykkur á annan mann, sem eg hugsa að hafi einna mest áhrif meðal spiritista á Englandi um þessar mundir. Hann heitir Ellis T. Powell, og er lærdómsmaður mikill, bæði lögfræðingur og doktor í náttúruvísindum, vitur maður og mælskur og með afbrigðum ötull að boðun hinnar nýju opinberunar. Hann er bersýnilega einn af þeim mönnum utan prestastéttarinnar, sem hafa orðið fyrir sterkustum áhrifum af kirkjunni. Meðal annars má benda ykkur á það, að hann hefir ritað um kveldmáltíðar-sakramentið frá sjónarmiði þeirra, sem á það trúa, af þeirri snild, að eg efast um, að nokkur hafi ritað um það mál jafn-sannfærandi. Lítill vafi er á því, að sé lúterskri kirkju það alvara að halda uppi því sakramenti, þá ynnist

henni ólíkt meira á með skýringum Powells en skýringum Lúters, sem ekki eru líklegar til þess að auka skilninginn hjá neinum né sannfæra nokkurn nútíðarmann. Og annað dæmi skal eg minnast á.

Eins og mörg ykkar hafa sjálfsagt tekið eftir, hefir mjög fokið yfir þá kenning kirkjunnar á síðustu árum, að Jesús Kristur hafi ekki átt neinn jarðneskan föður. Sumir nýguðfræðingarnir neita henni algerlega sem gamalli helgisögu eingöngu, og aðrir láta hana liggja milli hluta. Eg geri helzt ráð fyrir, að fáir þeirra muni trúa henni. En hún stendur víst í trúarjátningum allra kristinna kirkjudeilda nema Únitara, og hún er svo gömul, að sum rit Nýja testamentisins halda henni fram. Í erindi, sem dr. Powell flutti í Lundúnum í fyrra vetur, tók hann sér fyrir hendur að verja þessa kenningu, ásamt fleirum frumkenningum kristninnar. Eg get hugsað mér, að einhverjum leiki forvitni á því að heyra, hvernig hann kemst út úr þessu óvenjulega dularfulla efni í ljósi sálarrannsóknanna, og ætla því að rekja hugsanaferil hans, að því er þetta efni áhrærir, í ofurlitlu ágripi.

Eins og Frederic Myers, hinn heimsfrægi brautryðjandi sálarrannsóknanna meðal vísindalegra mentaðra manna, gengur dr. Powell

að því vísu, að Jesús Kristur hafi haft fortilveru. Hann trúir því, eins og Myers, að hann hafi verið og sé guðdómleg vera, og hafi komið ofan á jörðina af æðri sviðum tilverunnar en vér getum gert oss nokkura hugmynd um. Hann kom vegna vor mannanna, í þeim erindum að frelsa heiminn. Til þess að hann gæti rekið það erindi, var nauðsynlegt, að hann héldi að einhverju töluverðu leyti endurminningunum frá því tilverusviði, sem hann hafði verið á. Til þess að varðveita endurminningarnar var það, eftir hugmyndum dr. Powells, beinasta leiðin, ef til vill eina færa leiðin, að forða Jesú frá því að þurfa að eiga meira en eitt jarðneskt foreldri. Með hliðsjón á ýmsum þeim stórmerkjum, sem fram hafa komið við rannsóknirnar, finst honum það alls ekkert ólíklegt, að unt sé að koma frjóguninni í framkvæmd með öðrum hætti en oss er kunnugt um, bersýnilega einkum fyrir þá sök, að hann tekur gildar fullyrðingar, sem komið hafa úr öðrum heimi um það, að ósýnilegar verur hafi mikil og stöðug afskifti af myndun hvers fósturs í móðurlífi.

Eg er ekki að segja ykkur frá þessu í því skyni að halda þessari kenningu að ykkur. Eg geri mér enga hugmynd um, hvort hún er rétt eða röng. Mér þykir marg-

falt meira um það vert, hvort við getum fengið vissu um afstöðu Jesú Krists til okkar n ú, en um tilgátur og kenningar áhrærandi það, með hverjum atvikum hann hefir komið í þennan heim. En eg segi ykkur frá því, til þess að ykkur verði ljóst, hve rík tilhneigingin er hjá sumum allra-helztu spíritistunum til þess að halda í og halda uppi vörn fyrir erfikenningar kristinnar kirkju.

En jafnframt verð eg að láta þess getið, að eg hygg, að slíkir menn, sem dr. Powell er í þessu efni, séu fremur fágætir með spiritistum. Að minsta kosti er mér víst óhætt að fullyrða það, að mjög margir þeirra hafa fremur litla lotning fyrir erfikenningum kirkjunnar. Þeir telja sitt verk að leita sannleikans, en ekki að vernda gamlar kenningar. En með því er ekki sagt, að þeir hafi ekki orðið fyrir áhrifum af kirkjunni, og það óafmáanlegum áhrifum. Og einkum á það þá við afstöðu þeirra til hinnar miklu persónu, sem verið hefir þungamiðja kristninnar frá upptökum hennar og fram á þennan dag.

Eg get ekki stilt mig um að lofa ykkur að heyra ummæli eins af allra-merkustu mönnunum innan þessarar hreyfingar. Vitanlega talar hann ekki í nafni annara en

sjálfs sín; en eftir þeirri þekking, sem eg hefi fengið á málinu, virðist mér mjög mikill hluti spíritistanna, að minsta kosti þeirra sem ekki leita trúarþörf sinni fullnægju innan kirkjunnar, muni líta mjög líkt á Jesúm Krist eins og þessi maður — muni alls ekki standa fjær Krists-trú kirkjunnar, en margir þeirra enn nær henni. Maðurinn heitir J. Arthur Hill. Hann er vísindalega mentaður maður, fékst einkum við efnafræði, meðan hann hafði heilsuna, og las mikið af heimspekiritum. Í trúmálum hafði hann komist að þeirri niðurstöðu, að ekkert vær unt að vita um þau efni, og sumar kenningar kirkjunnar höfðu gert hann henni fráhverfan; en hann var gæflyndur og óáleitinn í anda, og efnishyggjumaður segist hann í raun og veru aldrei hafa verið. Sum ágætustu heimspekiritin höfðu forðað honum frá því. Hann varð fyrir því slysi á bezta aldri, að hjartað bilaði á hjólaferð. Síðan hefir hann legið rúmfastur um mörg ár og orðið að liggja í ákveðnum stellingum. Hann getur ekki skrifað öðruvísi en að hann haldi blaðinu uppi með annari hendinni og skrifi með hinni. Það er alveg dásamlegt, hvað maðurinn hefir getað unnið með þessari heilsu. Hann hefir, síðan er hann lagðist, orðið einn af hinum fróðustu

mönnum heimsins um sálarrannsóknirnar og sannfærst af þeim um tilveru annars heims og samband við hann, þó að hann sé óvenjulega efagjarn maður, og þeirrar efagirni kenni fyllilega andspænis sumum fyrirbrigðum spiritismans. Sjálfur hefir hann gert merkilegar miðlatilraunir og skýrt frá þeim með mestu nákvæmni og vandvirkni. Hann hefir ritað nokkurar bækur um málið, allar ágætar. Og hann hefir skrifað mikið af greinum í ensk dagblöð og tímarit. Síðasta bók hans kom út síðastliðið ár og er um sögu spiritismans, fyrirbrigði hans og kenningar. Í þessari bók gerir hann þá grein fyrir afstöðu sinni til Krists-trúarinnar, sem eg skal nú lesa ykkur:

„Spritistar virðast fæstir hirða mikið um vafninga þrenningarlærdómsins. Allir hafa þeir lotning fyrir persónu og kenningu Jesú, og um það er líka meira vert en kappræður guðfræðinganna um hann. Eg hefi samúð með því hugarfari. Eg held, að Jesús sjálfur mundi kunna því vel, ef hann væri aftur holdi klæddur meðal vor. Það eru ekki þeir, sem alt af eru að segja: Herra, herra! heldur hinir, sem elska náunga sinn og lifa samkvæmt því, sem eru sannkristnu mennirnir. En ef gengið er á mig frekara, og eg er spurður: Trúirðu því þá, að Krist-

ur hafi verið að eins maður? Þá svara eg því, að eg viti það ekki. Mér finst ekki það vera skynsamlegt að ætlast til þess, að eg viti það. Frásögurnar um líf hans eru rýrar, og þær eru ekki ritaðar fyr en mörgum árum eftir andlát hans. Það er því ekki nærri því jafn-áreiðanlegt, að þær séu réttar, eins og t. d. frásögur Sir Williams Crookes um tilraunir hans. Ef vitnisburður spíritista er ekki nægur til þess að fá hleypidómalausa menn til að trúa, þá er vitnisburður ritningarinnar langtum síður fullnægjandi. Þeir menn, sem trúa hinum kristnu kenningum, en hafna vitnisburði spíritista, verða að kannast við það, að þeir eru sjálfum sér ósamkvæmir.

„En svo er annað: Þegar eg er spurður, hvort eg haldi, að Kristur hafi verið að eins maður, þá rek eg mig óþægilega á orðin „að eins“. Er það svo fyrirlitlegt að vera maður, þegar hann kemst hæst, að það sé guðlast, að ætla Jesú ekki meira en manneðlið? Það gæti verið það, eg kannast við það, ef allir menn stæðu á sama stigi og eg. En hvað er um menn, sem lifa heilögu lífi, eins og Emerson, Keble, heilagan Franciskus og fjölda marga aðra? Hver eru hin efri takmörk þess, sem manneðlið kann að geta komist? ‚Dragðu, ef þú getur, þá dul-

arfullu línu, er greinir það rétt sundur, sem er mannlegt, og hitt, sem er guðdómlegt,‘ segir Emerson.

„Eg trúi því, að Jesús sjálfur mundi aldrei hafa talað um neinn mann, jafnvel ekki hinn lítilmótlegasta, sem a ð e i n s mann. Hann gerði mikið úr mönnunum, af því að þeir væru synir guðs; hann kendi okkur að biðja föður, sem væri okkar faðir alveg eins og hans faðir. Sannleikurinn er sá, að hann skipaði sér á bekk með okkur með ákveðnum orðum. „Hví kallar þú mig góðan? Enginn er góður nema einn, það er guð.“

„En um þetta hefi eg enn meira að segja. Eg held því ekki fram, að Jesús hafi verið að eins maður. Eg veit ekki, hvað hann var. Hann kom í mannlegri mynd, en sumar lækningar hans og önnur máttarverk, sömuleiðis kenning hans og líf og hinar afskaplegu afleiðingar, sem þetta hefir haft — þetta bendir alt á, að hann hafi að minsta kosti verið meira en nokkur mannleg vera, sem vér höfum áreiðanlegar eða sæmilega áreiðanlegar sögur af. Ef Búdda hefir í raun og veru verið maður, getur verið, að hann hafi verið svipuð vera, því að áhrif hans á heiminn hafa líka verið ómælanleg, þar sem áhangendur hans eru 500 miljónir.

En mikið sögulegt rökkur hvílir yfir Gautama (Búdda), og eins er um Zoroaster, Lao-Tze og Confucius. Svo að — með því að eg trúi því, að frásögur guðspjallanna muni vera að mestu leyti sannar og hefi í huga þau ómælanlegu áhrif, er orðið hafa af því lífi, sem þar er lýst — þá dirfist eg að segja, að Jesús var æðsta veran, fullkomnasta opinberun guðs, sem menn vita af á jörðinni á söguöldunum. Fyrir því er eg því ekkert mótfallinn, að menn líti á hann sem yfirmannlega veru, langt fyrir ofan það stig, sem vér stöndum á. Í óendanlegum alheimi eru að líkindum óendanleg stig andlegrar tilveru, og Jesús kann að hafa tilheyrt einhverju stigi, sem er æðra voru stigi. .... Þess vegna hefi eg samúð með þeim mönnum, sem finna með réttu til auðmýktar út af sjálfum sér, meta ef til vill aðra menn og möguleika mannanna yfirleitt of lágt og finna til þeirrar nauðsynjar, að telja Jesú meira en mann. Þeir eiga rétt á þeirri skoðun sinni, og auðmýktin er mikil dygð. Allir menn, og að sjálfsögðu allar skapaðar vitsmunaverur, eru börn sama föður, og margir af okkar Eldri Bræðrum fara yfir hina „dularfullu línu“ við efri takmörk manneðlisins, verða „guðdómlegir“, þó að þeir

verði ekki að sjálfsögðu guð sjálfur. Um þessa miklu anda vitum vér lítið ....

„En mér virðist það ekki líklegt, og fæstum spíritistum mun virðast það líklegt, að það sé nauðsynlegt til sáluhjálpar að þekkja nákvæmlega eðli þessara miklu sálna. Af því að þær eru meiri en vér, getum vér ekki skilið þær að fullu; en sama er að segja um þá, sem standa oss ofar og allir kannast við að séu mannlegir, og vér vitum ekki, hvar vér eigum að draga línuna og hvenær vér getum sagt: „alt, sem hér er fyrir ofan, er mönnunum æðra.“ Það, sem máli skiftir fyrir oss, er að ná í andann í kenningu þessara miklu sálna; að koma auga á mikilleik þeirra og koma vorum vilja í samræmi við þeirra vilja.“

Mér finst þetta vera gætilega talað, og samboðið jafn-vitrum manni og Arthur Hill áreiðanlega er. Eg hygg, að allur þorri nýguðfræðinga sé í raun og veru svipaðrar skoðunar, ef þeir vilja vera hreinskilnir við sjálfa sig og aðra. Eg geri ráð fyrir því, að meiri hlýindi hefðu orðið í ummælunum, ef höfundurinn hefði tekið það þarna til greina eins vel og Sir Oliver Lodge, til dæmis að taka, hve afar-mikilvægt það er, að fregnir hafa komið af Jesú Kristi í dýrðinni, og þá ekki síður, hvernig þær

fréttir eru. En menn verða að gæta þess, að Arthur Hill er einn þeirra sálarrannsóknamanna, sem sannana-hugsjónin hefir náð svo föstum tökum á, að þeir vilja ekkert segja í þessu máli annað en það, sem þeim finst grundvallað á óyggjandi röksemdum. Þess vegna er það, að þrátt fyrir hans takmarkalausu lotning fyrir Jesú Kristi, sem meðal annars kemur fram í orðunum, að hann hafi verið æðsta veran, fullkomnasta opinberun guðs, sem menn vita af á jörðinni á söguöldunum, þá vill hann ekkert um það fullyrða, hvort eðli hans hafi verið gersamlega einstætt meðal stórmenna og guðsbarna jarðarinnar. Eg held ekki, að Jesús frá Nazaret hefði afneitað neinum manni með slíku hugarfari sem lærisveini sínum. Og fyrir því held eg ekki, að kirkjan hafi nokkurn rétt til þess að stjaka slíkum mönnum burt frá sér. Eg dirfist að taka dýpra í árinni. Eg held, að það hafi verið glæpsamlegt, að hún skuli hafa gert það.

Eg get ekki að þessu sinni gert frekari grein fyrir kenningum og játningum spíritista, að því leyti, sem þær koma við umtalsefni mínu. En eg verð að minnast fáeinum orðum á afstöðu þeirra til kirkjunnar sjálfrar. Í því efni má segja, að þeir skiftist í tvo flokka.

Annar flokkurinn ber í brjósti svo mikla trygð til kirkjunnar, að hann getur ekki fengið af sér að yfirgefa hana. Þeim finst, að þrátt fyrir alt og alt, eigi þeir þar andlegt heimili sitt. Ef til vill hafa margir þeirra presta, sem eru málinu hlyntir, og það getur auðvitað riðið baggamuninn. Því að þó að að svo raunalega hafi til tekist, að langmestur hluti andlegrar stéttar manna hafi orðið á móti þessu máli, þá eru líka til margir prestar, sem eru því góðviljaðir. Og sumir þeirra boða það af hinni mestu röggsemi. Þessi flokkur spíritistanna leggur ríka áherzlu á það, hve viðsjárvert sé að varpa frá sér jafn-rambyggilegum og víðtækum félagsskap eins og kirkjan er. Þessir menn vilja færa út veggi kirkjunnar og hækka hana undir loftið. Þeir vilja, að spíritisminn verði súrdeig, sem gagnsýri hana. Þeir vilja gera hana hæfa til þess að veita viðtöku og boða sérhvern þann sannleika, sem snertir trúarbrögðin, og faðir okkar á himnum lætur mönnunum auðnast að koma auga á.

Hinn flokkurinn vill yfirleitt ekkert hafa saman við kirkjuna að sælda. Þeir menn hafa myndað söfnuði út af fyrir sig, eru í raun og veru sérstakur trúarflokkur, þó að hver söfnuður hafi algerlega ótakmarkað sjálfstæði í öllum efnum. Þeir hafa alls ekki

getað þolað það, hvernig kirkjan hefir yfirleitt hagað sér, þó að undantekningar séu til. Kirkjan hefir vanrækt að kynna sér þann sannleika, sem spíritistarnir boða. Hún hefir látið vantrúaða vísindamenn verða á undan sér að sinna sönnununum fyrir eilífðarmálunum. Hún hefir jafnvel ekki rumskast, þegar merkustu vantrúarmenn heimsins hafa verið að sannfærast. Og hún hefir ekki látið sitja við vanræksluna eina. Hún hefir þanið sig með illindi gegn sannleikanum — þeim sannleika, sem var að staðfesta hennar eigin kenningar — svo að spíritistunum finst vitsmunum kirkjunnar í þessu efni álíka mikið ábótavant eins og góðgirninni. Víða gerði hún mönnunum ósætt í söfnuðunum — mönnunum, sem ekkert höfðu til saka unnið annað en það, að útvega sér sannanir fyrir æðstu vonum mannsandans. Við þetta háttalag fanst spíritistunum alls ekki unandi. Ótrúin á kirkjunni magnaðist meira og meira í huga þeirra. Þeir fóru að halda, að þeirra eftirlætis-sannleika stafaði ekki annað en hætta og bölvun af því að kirkjan væri nokkuð við hann riðin. Hann ætti að verða sístreymandi lind meiri og meiri, æðri og æðri opinberunar. Kirkjan væri vísust til að gera hann að stöðupolli.

---

Nú er þessi hreyfing komin hingað til landsins. Undan því verður ekki komist, hvort sem mönnum er það ljúft eða leitt. Hún hefir læst sig um landið, ef ekki um öll héruð þess, þá að minsta kosti um þau mörg. Eg geri ekki ráð fyrir, að nokkur maður með viti muni hugsa sér, að hún verði kveðin niður. Ísland er ekki jafn-einangrað nú og fyrir 100 árum. Og úti í menningarlöndunum hefir hreyfingin magnast svo síðustu árin, að undrum sætir. Síðustu fregnir frá Englandi segja, að þar skifti þeir nú miljónum, sem hafa skipað sér undir merki málsins. Enginn maður má hugsa sér að slík breyting verði áhrifalaus hér á landi. Auðvitað hefir enn ekki myndast neinn félagsskapur utan um málið annarstaðar en í Reykjavík. En valt er að treysta á það félagsleysi til lengdar. Svo að það er áreiðanlega kominn tími til þess fyrir kirkjuna að reyna að gera sér ljóst, hvernig hún ætlar í raun og veru að snúast við málinu. Ætlar hún að vinna að samruna? Eða ætlar hún að vinna að sundrung?

Þeir menn hér á landi, sem gerst hafa talsmenn hinnar nýju opinberunar, hafa ekki að neinu leyti til sundrungar stofnað. Enginn þeirra hefir, mér vitanlega, mælt nokkurt orð móti grundvallaratriðum kristninnar.

Jafnvel sá maðurinn úr þeirra hópi, sem harðorðastur hefir verið í kirkjunnar garð, hefir lýst yfir því á fundi, þar sem áheyrendur skiftu hundruðum, að hann haldi að kenningar Jesú Krists séu „hárréttar“. Það, sem hann finnur kirkjunni til foráttu, er að hún sé orðin svo andlaus og aum, að ekkert sé til hennar að sækja, af því að upprunaleg þekking hennar á ósýnilegum heimi og sambandi við hann sé glötuð — orðin dauður bókstafur. Mér finst ekki, að íslenzk kirkja ætti að telja það skyldu sína að fjandskapast við mann, sem trúir því, að Jesús Kristur hafi í öllum efnum haft rétt að mæla. Mér finst, að hún ætti fremur að líta til hans með bróðurhug. Og þegar eg athuga það, hvernig hag hennar er að ýmsu leyti háttað á þessum tímum, þá getur mér jafnvel ekki skilist, að hún sé upp úr því vaxin að láta sér hugkvæmast að athuga það, hvort hún geti ekkert af slíkum manni lært.

Annars hefir þessi hreyfing hér á landi, enn sem komið er, verið beinlínis vinveitt kirkjunni. Nokkurir menn innan hennar hafa, ásamt öðrum mönnum, sem bera andleg mál fyrir brjósti, fengið einn af kennurunum við guðfræðideild háskólans, prófessor Harald Níelsson, til þess að prédika

annanhvorn sunnudag. Öll Reykjavík veit það, að þeim guðsþjónustum hefir algerlega verið haldið á kirkjulegum grundvelli. Í þeim erindum, sem flutt hafa verið um málið, hefir ekki, mér vitanlega, verið nokkurt orð, sem kirkjunni megi til meins vera. En ef hún færi eftir þeim bendingum, sem henni hafa verið gefnar þar, mundi það verða henni mikill styrkur — enda bendingarnar komið fram í því skyni, að þær mættu verða henni til góðs.

Eg kveinka mér við að vera nokkuð að minnast á sjálfan mig í þessu sambandi. En eg geri það ekki af neinni fordild, heldur vegna þess, að eg álít það rétt, þar sem eg hefi verið töluvert við þessa hreyfingu riðinn. Eg tel mig vin kirkjunnar. Eg sé afarmikla galla á kirkjunni, meinsemdir, sem eg get vel hugsað mér, að verði henni að bana, ef ekki er við gert. En menn geta séð galla á vinum sínum, jafnvel á foreldrum sínum, og þótt vænt um þá samt. Mér finst ekki, að það þurfi að vera neitt leyndarmál, þó að eg viti, að það skifti litlu máli, að sumum vinum mínum hefir fundist eg hafa alt of mikla tilhneiging til þess að draga taum kirkjunnar. Einn þeirra hefir þózt vita, hvernig á því stæði — það væru erfðir, það kæmi til af því, að forfeður mín-

ir hefðu verið prestar langt aftur í aldir. Það getur vel verið, að í eðlisfari mínu sé eitthvað eftir af þeirra hugsunum og tilfinningum í kirkjunnar garð. Eg veit það ekki. Eg veit nú minna en það. Eg er 10. maður frá síra Einari Sigurðssyni í Eydölum, — og mikið vildi eg til þess vinna, að eg hefði getað ort jólakvæðið hans. Þeir langfeðgar mínir, sem hafa verið á milli okkar nafna míns í Eydölum, hafa langflestir verið prestar. Eg kannast við það, að mér væri það afar-ógeðfeld hugsun, ef hún kæmist inn í mig — sem eg vona, að aldrei verði — að lífsstarf allra þessara langfeðga minna hafi ekki yfirleitt verið til góðs. Eg vona að minsta kosti, að eg sé laus við alt ættardramb, og mér kemur ekki til hugar, að þeir hafi upp og niður verið öðrum prestum fremri. Eg hefi þá sannfæring, að prestar þessa lands hafi á öllum öldunum, síðan er kristni kom hingað, unnið ómetanlegt menningarstarf. Eg held ekki, að sú sannfæring sé eingöngu né aðallega nein erfða-áhrif. Mér finst, að mannkynssagan hafi kent mér þetta. Mér skilst ekki, að mikið hefði orðið úr guðstrúnni og eilífðarvonunum og bræðralagshugsjón mannanna og rétti smælingjanna og mörgum öðrum dýrmætum fjársjóðum mannsandans, ef kristin kirkja

hefði ekki starfað í hinum vestræna heimi. Eg get fyrirgefið gallana, þar sem jafnmikið hefir verið í aðra hönd. En það væri hræsni af mér, ef eg kannaðist ekki við það, að eg sjái þá.

En hvernig er nú afstaða hinnar íslenzku kirkju til hinnar nýju opinberunar? Mér skilst svo, sem rétt sé að segja, að hún muni enn vera óákveðin. Ýmsir prestar eru málinu góðviljaðir og meira og minna forvitnir um það. En þeir eru sárfáir, sem enn hafa gert nokkura verulega gangskör að því að fá þeirri forvitni svalað. Til eru þeir prestar, sem eru beint fjandsamlegir, jafnvel ofstækisfullir í málsins garð. En eg hygg, að afstaða þeirra langflestra sé eitthvað svipuð afstöðu Gamaliels til fyrstu kristnu mannanna. Þeir vilja ekki hleypa upp neinni vonzku. Þeir vilja sjá, hvað þessi nýja hreyfing kann að verða öflug. Þeir eru þessi ekki fullvísir, að þessi kenning kunni ekki að einhverju leyti að vera „af guði“, eins og haft er eftir Gamalíel. Og þeim er eins farið og Gamalíel að því leyti, að þeir vilja ekki láta það henda sig „að berjast gegn guði“. Og auðvitað er sá hugsunarháttur þakklætisverður í samanburði við ofsóknarandann. En sannleikurinn er kröfuharður. Hann lætur sér naumast það nægja til lengdar,

að menn láti hann óáreittan, eins og af einhverri vægð og miskunnsemi. Hann telur sig konung, og hann ætlast til að mennirnir lúti sér. Kristninni hefði ekki orðið mikið ágengt, ef enginn hefði verið ákveðnari í sannleiksleitinni en Gamalíel. Eg get ekki hugsað mér, að Jesús frá Nazaret sé fyllilega ánægður með það, að þeir menn, sem hafa sérstaklega tekið að sér að reka erindi hans, láti við það sitja, að vonzkast ekki við nýrri opinberun, en sleppi því alveg fram af sér að sinna henni neitt, og ætli öðrum mönnum alla eftirgrenslun og boðun hins nýja sannleika. Eg get hugsað mér, að honum, sem hafði svo ákveðna óbeit á hálfvelgjunni, sem kunnugt er, krafðist þess jafnvel stundum, að menn yfirgæfu alt og fylgdu sér, og tækju nánustu skyldmenni sín ekkert til greina, þegar sannleikurinn var á öðru leytinu — að honum muni þykja kenna nokkuð mikils tómlætis nú hjá sumum þeim mönnum, sem í sérstökum skilningi hafa gerst þjónar hans.

Mér finst, að það, hvernig gengið hefir að fá að tala um þetta mál í kirkjum landsins, marki nokkuð afstöðu kirkjunnar í þessu efni. Eg verð nú að segja það, að mér finst ekki til of mikils mælst, að þeir menn, sem eru að reyna að efla andlegan

áhuga með þessari þjóð, fái að gera það í kirkjunum, þegar ekki er unt að bjóða þeim neitt annað húsnæði. En því fer fjarri, að allir kennimennirnir líti svo á það mál.

Það getur verið, að sú stirfni, sem nú gerir vart við sig viðvíkjandi notkun kirknanna, stafi ekki að öllu leyti af mótþróa gegn þessu máli. Samt mun nokkuð alment vera litið svo á. Sumstaðar hafa kennimennirnir tekið þá föstu reglu — og eru hróðugir af — að leyfa engum öðrum en prestvígðum mönnum að fara með neitt í kirkjum sínum. Ef kirkjur hefðu verið til á dögum Jesú frá Nazaret og postula hans, þá hefði hvorki Jesús né postular hans, eftir þessari reglu, fengið að tala í þessum guðshúsum. Og auðvitað hefði ekki Jónas Hallgrímsson fengið að fara þar með ljóð sín um Tómas Sæmundsson, né Þorsteinn Þorkelsson frá Syðra-Hvarfi mátt lesa þar sálm sinn: „Eg fell í auðmýkt flatur niður.“ Einn af helztu rithöfundum landsins, — mann, sem aldrei hefir sagt neitt kalt orð en mörg hlý í garð trúarbragðanna — langaði til þess að lesa ljóð eftir sig í einni kirkju landsins á síðastliðnu sumri, á eftir samkomu, sem síra Haraldur Níelsson hélt þar. Honum var neitað um það. Nær kirkjunni máttu ljóðin ekki komast en það, að höfund-

urinn fékk að standa úti fyrir kirkjudyrunum, meðan hann fór með þau. Dæmi eru líka til þess, að hljómleikar hafa verið bannaðir í kirkjum hér. Það er alveg áreiðanlegt, að þetta er ekki leiðin til þess, að kirkjan hafi „vinsældir af öllum lýð,“ eins og fyrstu kristnu mönnunum er talið til gildis í Postulasögunni. Það bendir óneitanlega á nokkuð mikið kennimannlegt stærilæti að loka að sjálfsögðu kirkjunum fyrir öllu öðru en því, sem prestvígðir menn hafa að segja; og það er þá áreiðanlega öruggara fyrir prestana, að það sé nokkuð veigamikið, sem þeir hafa sjálfir á boðstólum.

Af reynslu sjálfs mín í þessu efni er það fyrst og fremst að segja, að eg átti einu sinni tal um þetta við Þórhall Bjarnarson biskup og spurði hann, hvort hann væri því nokkuð mótfallinn, að eg fengi að halda samkomur í kirkjum úti um landið. Hann kvaðst ekki vera það. „En þú mátt ekki segja, að eg hafi leyft það, af þeirri einföldu ástæðu, að eg hefi hvorki vald til þess að leyfa það né banna,“ sagði hann. Kirkjurnar væru á valdi presta og sóknarnefnda. En velkomið sagði hann, að mér væri að láta getið þessara undirtekta sinna. Nokkurir prestar hafa leyft mér að tala í kirkjum sínum af mestu vinsemd og góðfýsi. Eg

minnist þess hér með þakklætishug. Aðrir hafa auðsjáanlega viljað koma sér undan því með góðu. Og fyrir hefir það komið, að beint hefir verið neitað um kirkju, þegar safnaðarmennirnir sjálfir báðu um hana handa mér. Presturinn bar fyrir sig vilja yfirboðara síns, enda hefi eg ástæðu til að ætla, að presturinn hafi ekki verið mótfallinn þeim boðskap, sem eg ætlaði að flytja.

Það sé fjarri mér að vilja draga úr helgi þeirra húsa, sem sérstaklega eru ætluð til bænahalds og til þess að vegsama föður vorn á himnum. Eg hefi nokkura ástæðu til að ætla, að mér sé það jafnvel ljósara en sumum prestunum, að þangað má aldrei neitt óhreint komast, hvorki athafnir, orð né hugsanir. En eg held því fast fram, að fyrirlestrar um andleg mál séu engu vanhelgari en prédikanir. Eg hygg, að biskup landsins líti á það mál líkt og eg, því að sjálfur hefir hann ekki að eins flutt fyrirlestra í sjálfri dómkirkjunni, heldur líka látið þá fyrirlestra koma í stað prédikana. Og hinu held eg líka fram — og um það tel eg víst, að öll prótestantisk kristni sé mér sammála, — að prestvígslan er í þessu efni ekkert úrslita-atriði. Það er alt annað, sem skiftir máli: Hvernig er það, sem farið er með? Er nokkurt vit í því? Er nokkur

þekking í því? Er nokkur sannleikur í því? Er það borið fram af kærleik til mannanna? Er það borið fram af lotning fyrir göfugustu hugsjónum og æðstu öflum tilverunnar? Og alveg er þeim mönnum hér á landi, sem sérstaklega hafa ábyrgð á kirkjunni, óhætt að reiða sig á það, að þeir menn eru margir, og að þeim fer stöðugt fjölgandi, sem kunna því hið versta, að kirkjunum, sem vitanlega standa tómar ár eftir ár, ekki að eins á virkum dögum, heldur líka flesta helga daga, — sé lokað fyrir þeim, þegar þeir geta átt von á að fá að heyra eitthvað talað, utan venjulegra guðsþjónustna, um eilífðarvonir mannsandans. Þeir eru að verða nokkuð margir, sem telja það rangt, ekki að eins gagnvart þeim, heldur líka gagnvart málefni Jesú Krists.

Öll stirfni og alt stærilæti frá kirkjunnar hálfu er þeim mun varhugaverðara nú, sem hún stendur vitanlega á völtum fótum með þjóðinni. Það er ekki til neins fyrir neinn að láta sér þykja það, að það sé sagt. Hugsandi prestar finna til þess manna mest. Sumum prestunum finst eins og þeir standa einmana á einhverri andlegri eyðimörk. Þeir sjá ekkert koma upp af þeim gróðri, sem þeim er ætlað að rækta, og þeim finst þeir enga leiðbeining fá, sem sé þeim nokkurs virði. Eg

hefi nýlega lesið bréf frá einum prestinum, sem tekur það þar fram, að hann leggi það ekki á sig að sækja synodus, því að þar heyri hann ekkert, sem hann hafi gagn af. Annar prestur ritar í bréfi: „Við erum, allir prestarnir hér, farnir að finna sárt til þess — og höfum reyndar lengi gjört — hvað trúarlífið er dauft og dautt, og satt bezt sagt, þykjumst vér, margir hverjir eða helzt allir, hafa gert okkar ítrasta, til að glæða það, en engan sýnilegan árangur hefir það borið.“ Og hann herðir á þessu síðar í bréfinu með þessum orðum: „Þreytandi er það óneitanlega, að vinna ár eftir ár að sama augnamiðinu, og þykjast leggja sig fram, en sjá engan árangur.“ Nýlega var prentaður í „Tímanum“ kafli úr bréfi frá öðrum presti. Þar stendur þetta: „Okkar íslenzka kirkja stendur á völtum fótum. Það er mikill hluti þjóðarinnar, sem veit lítið af henni að segja, og virðist starfsemi hennar óþörf, eða þá rekin á þann hátt, sem fólk fellir sig ekki við. Alstaðar úti um land er það fjöldi fólks, sem nálega aldrei sækir kirkju. Er eðlilegt, að tvær grímur renni á þá sömu, hvort tilvinnandi sé að halda uppi þeirri stofnun, sem að eins er notuð af fáum.“ Þetta er sýnishorn af hugsunum prestanna sjálfra — mannanna, sem mesta þekking hafa á málinu, og

mannanna, sem að sjálfsögðu tekur það sárast, hvernig ástatt er. Eg veit ekki, hvort ykkur finst þessar hugsanir benda sérstaklega á það, að stirfnin og reigingurinn sé það, sem kirkjunni ríður mest á á þessum tímum.

Annars verð eg að gera þá athugasemd við ummælin í einu af þessum bréfum, að eg efast um, að prestarnir hafi „gjört sitt ítrasta.“ Fyrst og fremst er girt fyrir það yfirleitt með þeim kjörum, sem prestarnir eiga við að búa, að þeir geti „gert sitt ítrasta.“ „Þjóðin og löggjafarnir hrinda okkur sveitaprestunum bókstaflega út í brall og búsýslu,“ segir einn presturinn í bréfi, sem nýlega var prentað í „Tímanum.“ Og ekki standa prestar í kaupstöðunum betur að vígi. Menn verða vandlega að hafa það hugfast, sem sá prestur bendir á, að þess er engin von, að prestar leggi sig yfirleitt alla fram til preststarfanna, eins og nú er ástatt. Þeir mundu ekki geta séð fyrir sér og sínum, ef þeir gerðu það. Eg hefi enga von um viðreisn kirkjunnar, nema kjör prestanna verði bætt. Eg held, þvert á móti, að kirkjan veslist alveg upp og deyi, áður en langt líður, ef ekki er við þessu gert.

En hins verð eg jafnframt að láta getið, að eg get ekki hugsað mér, að viðreisn kirkj-

unnar velti eingöngu á launakjörum prestanna. Eftir því sem eg lít á, er hún engu síður undir því komin, að nýr andi komist inn í starfsemi prestanna. Eg geri ráð fyrir, að einhverjir kunni því illa, að eg sé að setja út á störf prestanna, telji það fremur biskups verk en leikmanns að gefa þeim leiðbeiningar. En óeðlilegt finst mér það ekki, að einhvern tíma komi rödd úr hópi okkar leikmanna, því að óneitanlega eru það við, sem prestsverkin eigum að þiggja. Og eg get þá ekki bundist þess að láta þess getið, að eg þekki ekkert málefni, sem er rekið jafn-undarlega og málefni trúarbragðanna. Vel veit eg það, að til eru á landinu prestar, sem mönnum þykir alt af ánægja að hlusta á. En kirkjusóknin sýnir það, að þeir prestar eru í miklum minnihluta. Það, sem gerir prestunum svo vandlifað nú og örðugt fyrir, er ef til vill framar öllu öðru það, að þroski þjóðarinnar hefir aukist svo mikið. Gagnrýnin hefir margfaldast við aukna mentun fólksins. Og um hitt er ekki minna vert, að áhugamálin hafa margfaldast. Samkepni málefnanna er orðin svo mikil. Þess vegna ríður nú á því meira en nokkuru sinni áður, að verulega vel sé vandað til boðunar trúarbragðanna. Annars sinna menn ekki þeim boðskap. Það er lífsskilyrði, að prestarnir

tjaldi öllu því, sem til er. Þetta finst mér fæstum prestunum vera full-ljóst. Eg hefi hlustað á prédikanir, sem ekki báru þess nein merki, að þær hefðu ekki verið samdar fyrir 70—80 árum. Eg hygg, að óhætt sé að fullyrða, að allur þorri prédikana, sem fluttar eru á þessu landi, sé gersneyddur öllum nýjum fróðleik — og reyndar gömlum fróðleik líka. Mér skilst svo, sem menn varist það af ásettu ráði að hafa prédikanirnar fræðandi. Merka kennimenn hefi eg heyrt halda því fram, að í prédikunum eigi ekki að koma fram nein ný guðfræði og ekki heldur nein gömul guðfræði, með öðrum orðum engin guðfræði. Í mínum eyrum hljómar þetta sem hrein og bein vitleysa. Presturinn yrði þá að fara í bindindi um það að gera mönnum nokkura grein fyrir trúarhugmyndunum. Hvenær sem farið er að skýra þær fyrir mönnum, er komið út í guðfræðina. En eftir þessu reyna áreiðanlega ýmsir prestar að haga sér. Heyrt hefi eg þann mælikvarða lagðan á prédikanir af mikilsvirtum kennimanni, hvort einhver fáfróð gamalmenni, sem kynnu að hafa verið í kirkjunni, mundu hafa haft nokkurt gagn af kirkjuferðinni. Eg veit, að það þarf að hugga og styrkja og gleðja fáfróð gamalmenni. En þroskuðum mönnum getur verið alveg óþol-

andi að sitja undir því,, sem kemur fáfróðum gamalmennum til að vikna. Yfirleitt virðist þrem reglum vera fylgt við samning prédikana: 1) Að fræða menn ekki um neitt. 2) Að segja ekkert, sem menn geta verið ósammála um. 3) Að segja ekkert, sem getur farið fyrir ofan garð og neðan hjá þeim allra fáfróðustu og skilningsminstu.

Það veitir ekki af miklum hæfileikum, til þess að geta prédikað eftir þessum reglum sunnudag eftir sunnudag, svo að hlustandi sé á. Afleiðingarnar hafa líka orðið ískyggilegar fyrir kirkjuna. Ein afleiðingin er sú, að prédikanirnar hafa orðið frámunalega efnislitlar og þokukendar. Stundum virðist þurfa einhverja afburða hæfileika til þess að geta sagt, um hvað presturinn hafi talað. Stórgáfaður prestur hefir sagt mér, að hann hafi einu sinni, ásamt þremur öðrum prestum, verið við kirkju hjá mjög merkum kennimanni. Eftir messu fóru þessir fjórir prestar að bera sig saman um það, um hvað ræðan hefði verið. Enginn þeirra vissi það. Önnur afleiðingin er sú, að prédikanirnar hafa orðið áhrifalausar. Þriðja afleiðingin er sú, að nauðafáir fást til þess að hlusta á þær.

Samt er ótalin súyfirsjónin, sem mestu máli skiftir: Boðun trúarbragðanna er eingöngu

miðuð við það, sem gerðist og skrásett var fyrir tugum alda. Sú villa er svo mikil og hættuleg, að hún verður naumast átalin með of kröftugum orðum. Guð hefir á öllum öldum verið að gefa mönnunum nýja opinberun. Og á nokkurum síðustu áratugunum hefir hann gefið þeim þá opinberun, sem veigamest er síðan á dögum Krists og postulanna, og sérstaklega sniðin eftir vorum þörfum, nútíðarmannanna. Guð er einmitt nú að svara vorum efasemdum, vorum miklu spurningum, sem vísindi síðustu ald_ ar hafa gert áleitnari og örðugri en þær hafa nokkuru sinni áður verið í kristninni. Því verður tæplega bót mælt, að þjónar og leiðtogar kirkjunnar horfi á hennar átakanlegu niðurlæging, og láti sér ekki einu sinni verða það að líta við þeirri opinberun nútímans, sem gamlir, vantrúaðir vísindamenn horfa nú á hugfangnir og boða með aðdáun, fögnuði og lotningu. Meðan svo er ástatt, verður naumast sagt með réttu, að þeir hafi „gert sitt ítrasta.“ Hugsum okkur, að önnur málefni væru rekin líkt þessu, læknisfræðin, lögspekin, náttúruvísindin, búnaðarvísindin, til dæmis að taka.

Menn mega ekki gera sér í hugarlund, að það geri ekkert til, hvernig fer um trúarbrögðin. Það stendur ekki á sama, hvernig

þeir haga sér, sem trúað er fyrir því að reka erindi þeirra. Aldrei virðist það hafa verið ljósara en nú, að á þeim veltur velferð þessa jarðneska heims. Hún veltur á því, að mennirnir gefi gætur að opinberun guðs. Menn mega ekki heldur halda, að það sé eingöngu hér á landi, að kirkjan hefir lent í niðurlæging. Sjón er sögu ríkari. Þjóðir veraldarinnar hefðu ekki borist á banaspjótum undanfarin ár, ef hugsjónir kristinnar kirkju væri ekki að engu hafðar.

Mig langar til, í þessu sambandi, að benda ykkur á nýkomin ummæli eins af prestum ensku kirkjunnar. Hann heitir Ellis G. Roberts, og er mag. artium frá Oxford-háskólanum. Í síðastl. janúarmánuði ritaði hann grein um „köllun spíritismans“. Þar heldur hann því fram, að kirkjan hafi algerlega orðið undir í sinni baráttu, og að köllun spíritismans í allra-víðastri merkingu — mannanna, sem í raun og veru trúi á ósýnilegan heim — sé hvorki meira né minna en sú, að bjarga veröldinni. Honum farast meðal annars svo orð:

„Vilja nú þeir, sem hafa tekið að sér leiðsögn mannkynsins, hætta eitt augnablik að haga sér eins og flón, og líta eitt skifti framan í sannreyndirnar? Reyndar hefir vísindaleg efnishyggja fengið það sár, að

henni er bani búinn í nálægri framtíð, þó að hún sé ekki óverkfær sem stendur. En efnishyggja athafnanna og siðgæðisins hefir naumast fengið nokkura skrámu, og jafnframt því, sem þessi kynslóð hefir séð hvern áratuginn líða eftir annan, hefir þessi efnishyggja sótt í sig veðrið meira og meira. Og menn þarf ekki að furða neitt á því. Vísindin hafa snúið sér að jarðneskum efnum, og hafa gert tiltölulega almennan annan eins auð og annað eins óhóf, eins og Rómverjakeisari ok Persakonungur bjuggu einu sinni einir að. Þau hafa lagt upp í hendurnar á óbreyttum iðnaðarmönnum slíkt vald, að erkienglarnir í skáldriti Miltons mundu hafa stórfurðað sig á öðru eins. Það þarf ekki að teygja ímyndunaraflið mikið til þess að segja, að maðurinn hafi unnið allan heiminn. En það vantar líka lítið á, að hann hafi glatað sál sinni. Og með sálartjóninu tapar hann áreiðanlega að lokum þeim hlutum, sem hann hefir keypt svo dýru verði. Mannlegt líf er að verða að baráttu um líf og dauða milli þeirra, sem eiga eitthvað, og hinna, sem eiga ekkert. Vísindin hafa reyndar séð óskabörnum jarðarinnar fyrir veizlu, þar sem feitur matur er fram reiddur, svo sem sál þeirra girnist, en

veizlusalurinn getur á hverju augnabliki breyzt í slátrunarhús. Úti fyrir dyrunum er ólgusjór æðisgengins múgs, sem ætlar sér að ryðja sér braut að borðinu og gæða sér á sælgætinu, þó að sú braut eigi að liggja yfir lík veizlugestanna. Göfuglyndi, heiður, karlmannlegar erfihugsjónir, kvenlegan yndisleik, trúna, trygðina — alt þetta hefir efnishyggjan brotið í smámola og fleygt því á eldinn — og út úr eldstæðinu eru komnir miljónamæringurinn og Bolshvíkingurinn!“

Við erum ekki svona langt komnir. Ógnaröldur byltinganna hafa ekki enn skollið á okkar ströndum. En víst er hitt, að það, sem enski presturinn nefnir efnishyggju atferlisins og siðgæðisins, er okkar mikla mein, eins og allra annara þjóða — þetta, að haga sér eins og enginn annar heimur sé til en þessi heimur — að meta meira fjársjóðu efnisins en andans, meira jarðneska fjársjóðu en himneska. Og það verð eg að segja, að mér finst þeir menn hafa lítið ímyndunarafl, sem geta verið þess fullvísir, að öllu sé óhætt hjá okkur, hvernig sem fer um aðrar þjóðir. Sambýli jarðarinnar er orðið nokkuð náið, og hvert heimili er í æði mikilli hættu, þegar veggur nágrannans brennur. Það verður ef til vill ekki á

valdi nokkurs manns að afstýra því, að einhverjar skelfingar dynji á þessari litlu þjóð okkar fyr eða síðar, eins og þær hafa dunið á svo mörgum bræðrum okkar og systrum úti í heiminum. En það er á ábyrgð erindreka kirkjunnar, fremur en nokkurra annara manna, að voðinn lendi að minsta kosti ekki á okkur sem þjóð með þokukendum siðgæðishugsjónum, máttlausum og óljósum trúarhugmyndum og veikum eilífðarvonum.

---

Mig langar nú til þess að minnast á það fáeinum orðum að endingu, hvernig okkar kirkja virðist standa að vígi með það að veita hinni nýju opinberun viðtöku og samþýðast henni.

Einn af merkisprestum landsins sagði við mig fyrir nokkurum mánuðum, að lúterska kirkjan mundi, ef til vildi, standa lakast að vígi í því efni af öllum kirkjudeildum. Hún hefði ekki að eins, þegar í upphafi tilveru sinnar, varpað burt trúnni á hreinsunareldinn, alt hreinsunar- og betrunartímabil eftir andlátið, heldur hefði hún haft sívaxandi tilhneiging til þess að þurka út hugmyndirnar um milliverur milli guðs og mannanna og um afskifti ósýnilegs heims

af mönnunum, önnur en afskifti guðdómsins sjálfs. Mér finst að minsta kosti, að þetta ætti ekki að verða þrándur í götu.

Fyrst er nú það, að ef kristin kirkja hefir trúað nokkuru þegar frá öndverðu, þá hefir hún áreiðanlega trúað á afskifti frá ýmsum verum úr ósýnilegum heimi af mönnunum, bæði af lausnaranum sjálfum og af öðrum mönnum eftir hans daga. Þetta hefir verið svo mikilvægt atriði í trúarhugmyndum kristninnar, að hún fer að verða lítt þekkjanleg, ef þetta er skafið út. Og ekki er sú útskafning sérstaklega „lútersk“. Það er alkunnugt, að Lúter trúði mjög fast á afskifti annars heims. Hann vildi láta kenna hverju barni, að það ætti verndarengil, sem vildi gæta þess við illu og vekti yfir því í vöku og svefni. Og í íslenzkum trúarhugmyndum var þetta atriði mjög ríkt. Það vita að minsta kosti allir þeir, sem þektu íslenzka alþýðu nokkuð nákvæmlega fyrir fáeinum áratugum, hvernig sem nú kann að vera komið. Meðan Passíusálmarnir voru sungnir á hverju sveitaheimili á hverjum vetri úti um alt þetta land, sungu menn áreiðanlega af sannfæring þetta vers:

Sjá þú, að engill sendur var
syni guðs hér til huggunar.

Þeir góðu andar oss eru nær
alla tíma, þá biðjum vær,
helzt þá lífs enda líður að;
Lazari dæmi kennir það.

En auðvitað eru þetta engin aðalatriði, sem eg hefi nú verið að benda ykkur á. Það á ekki að ráða neinum úrslitum, hverju menn hafa trúað hér á landi, né hvað Hallgrímur Pétursson hefir ort, né hvað Lúter hefir sagt, né jafnvel það, hvað kirkjan hefir kent frá öndverðu. Ekkert getur verið fjær mínu skapi en að æsa menn upp gegn kirkjunnar mönnum fyrir það, að þeir brjóti að einhverju leyti bág við gamlar kenningar, sem þeir hafa sannfærst um, að séu úreltar og rangar. Aðalatriðið í mínum augum nú, alveg eins og þegar eg samdi „Ofurefli“, er það að kirkjan fáist til að leita sannleikans og lúta honum, þegar hann er fundinn.

En er þá sannleikurinn fundinn? Er sá sannleikur fundinn, að til sé annar, ósýnilegur heimur, og að vér mennirnir getum komist í vitundarsamband við hann, þó að með ófullkomnum hætti sé?

Eg ætla ekkert að vera að stæla um það nú. Eg læt mér nægja að benda á það, að ekki að eins miljónir manna, eins og þeir

gerast upp og ofan, heldur og líka margir hinna lærðustu og vitrustu manna í mentuðum heimi, — manna, sem eru vanir að vega orð sín á hárfínum vogarskálum — fullyrða, að fyrir þessu séu ekki að eins margfalt sterkari sannanir en fyrir nokkuru því, sem kirkjan hefir talið grundvöll sinn um 19 aldir, heldur líka jafn-sterkar sannanir og vísindin láta sér nægja í öðrum efnum. Og það er líka fullyrt af hinum vitrustu mönnum, að allir menn, undantekningarlaust, þeir sem rekið hafa rannsóknirnar af þolgæði og stöðuglyndi, hafi komist að þessari niðurstöðu. Eg skal, rétt til dæmis, lofa ykkur að heyra fáein orð, sem einn af vísindamönnunum hefir nýlega látið frá sér fara út í heiminn, svo að þið getið fengið hugmynd um, hvernig þeir menn eru farnir að tala. Eðlisfræðingurinn Sir William Barrett er höfundurinn. Orðin standa í grein, sem hann ritaði í „Sunday Times“ 7. okt. 1917. Enginn maður hefir borið brigður á gætni hans, ráðvendni, einlægni, lærdóm né vitsmuni. Orðin eru þessi:

„Rannsóknirnar hafa sannfært mig um það, að hugur er til, sem laus er við jarðneskan líkama og heila, að gnægtir eru af lífi og vitsmuna-starfsemi í hinum ósýnilega alheimi. Í stuttu máli, að til er andlegur heim-

ur eins og til er jarðneskur heimur. Þetta er auðvitað mikilvæg og víðtæk ályktun, ef unt er að sanna hana svo, að hún verði ekki véfengd. Þetta er uppgötvun, sem lætur allar aðrar uppgötvanir virðast smáræði, og allir alvarlegir og þolinmóðir sannleiksleitendur geta gengið úr skugga um hana, því að hún er ómótmælanlega áreiðanleg."

Mér er með öllu óskiljanlegt, hvernig því verður bót mælt, að kirkjan fyrirlíti jafnafdráttarlausar staðhæfingar, í öðru eins máli og þessu, frá merkustu mönnum veraldarinnar. Því að þetta er ekki að eins uppgötvun, „sem lætur allar aðrar uppgötvanir virðast smáræði", eins og Barrett segir. Þetta er líka uppgötvun, sem alveg sérstaklega kemur kirkjunni við. Það getur ekki átt að hafa nein áhrif í þessu máli, hverjar sveiflur kunna að hafa verið á guðfræðinni fyr eða síðar. Sannleikurinn er allri guðfræði æðri. Og óneitanlega væri það bæði ilt og broslegt, sannarlega háðulegur harmleikur, ef sú yrði raunin á, að kirkjan annaðhvort léti sig það engu skifta, eða blátt áfram vonzkaðist til frambúðar við því, að sannanir komi fyrir því, sem hún hefir verið að fullyrða ósannað um 1900 ár. Það væri ekkert undarlegt, þó að einhverjir kynnu þá að koma með þá spurningu, hvort tilveruréttur

hennar í mentuðu mannfélagi sé ekki að rýrna.

Eg tók það fram áðan, að mér væri fjarri skapi að halda að nokkurum, um skör fram, kenningum kirkjunnar, hvort sem þær eru fornar eða nýlegar. En ekki get eg skilið það, að það skifti engu máli, allra-sízt frá kirkjunnar sjónarmiði, ef kristnin skyldi, einmitt í spíritismanum, vera að komast í eitthvað líkt horf sem frumkristnin var. Eg er ekki guðfræðingur, og get ekki um það dæmt að fullu. En víst er um það, að þessu er haldið fram af vitrum mönnum og lærðum. Einn þeirra er Arthur Hill, sá er eg nefndi áðan. Óneitanlega er hann gætinn maður og hefir sýnt alveg frábæra elju við það að kynna sér sem nákvæmlegast, hvað spíritisminn hefir til brunns að bera. Hann segir svo í síðustu bók sinni:*

„Þegar vér lesum rit feðranna á undan kirkjufundinum í Nikea — hinna kristnu stórmenna frá fyrstu þrem öldunum eftir Krists burð — þá freistumst vér til að halda, að trú spíritistanna sé kristilegri, eftir mælikvarða þeirra manna, sem næstir voru Kriststímanum, en mikið af kristninni er nú. Sann-

* Spiritualism, its History, Phenomena, and Doctrine, bls. 249.

leikurinn er sá, að það má líta á spíritismann sem endurvakning sannrar kristni, af því að kristnar kirkjudeildir nútímans hafa sokkið niður í sams konar stirða og andlausa íhaldsemi og þá, er ríkti með Gyðingum. Kristur kom til þess að ryðja þeirri íhaldsemi úr vegi og setja annað í staðinn. Rétttrúnaðurinn hafði nálega mist trú sína, og spíritistarnir urðu að stofna nýjan sértrúarflokk til þess að halda fram þeim sannleika, sem ekki var lengur boðaður skýrum orðum í prédikunarstólum rétttrúnaðarmanna.“

Hverjar sveiflur sem kunna að hafa komið á lúterska guðfræði, fyr eða síðar, í áttina frá hinni nýju opinberun, þá get eg ekki fengið af mér að sleppa voninni um það, að íslenzk kirkja geti samþýðst henni. Sú von er reist á því, að íslenzk kirkja er frjálslynd kirkja. Berið saman ástandið hér og í Danmörk, þar sem guðfræðiprófessorarnir þora ekki að gefa út háskólafyrirlestra sína af ótta við kirkjulega sinnaða fólkið, þá menn, sem Danir nefna „Menigheden“. Slíkt gæti ekki komið fyrir hér á landi. Hér finnur enginn til slíks ótta. Við höfum um langan aldur haft frjálslynda biskupa. Hirðisbréf núverandi biskups stefnir svo bersýnilega í frjálslyndis-áttina, að um það verður ekki deilt. Guðfræðideild háskóla vors er svo frjáls-

lynd, að hún gæti sennilega í því efni verið fyrirmynd guðfræðideilda í mörgum löndum. Það er undantekning að hitta ófrjálslyndan prest á þessu landi, þó að þeir séu til. Og að svo miklu leyti, sem alþýða manna úti um þetta land lætur sig trúmál nokkuru skifta, er hún, undantekningarlítið, frjálslynd. Það er sannarlega eftirtektarvert, hve þær tilraunir, sem gerðar hafa verið til þess að koma þeim hugsunarhætti í trúarefnum inn hér á landi, sem alþýða manna hefir talið ófrjálslyndan, hafa orðið árangurslitlar.

Það er nýja guðfræðin svo nefnda, sem skipar nú öndvegi í andlegum málum hér á landi. Það er í mínum augum afar-mikilvægt. Það skiftir engu í þessu efni, að eg er sannfærður um, að nýju guðfræðinni skjátlast í sumum efnum. Enginn okkar situr með allan sannleikann. Hitt skiftir miklu máli, enginn okkar veit hve miklu, að nýja guðfræðin hefir leitt rannsóknarfrelsið í kórinn. Það hefir í raun og veru aldrei verið gert í kirkjunni fyr en með henni. Hún er sjálf lifandi mótmæli gegn þeim andlega stirðleik, þeirri beinmyndun andans, sem nefnd er kreddufesta og rétttrúnaðar-þræl-dómur.

Það er nú einmitt rétttrúnaðar-þrældómurinn, sem hefir orðið kirkjunni í öðrum

löndum ásteytingarsteinninn í afstöðu hennar til spíritismans. Af þeim þrældómi höfum við mjög lítið að segja hér á landi. Svo er fyrir þakkandi, að andspænis öllum rétttrúnaðarkröfum líta flestir Íslendingar á sjálfa sig sem frjálsborna menn. Það er alt annað, sem þjáir okkur. Það er deyfðin, rænuleysið, roluhátturinn, skorturinn á verulegri, innilegri, ástríðuþrunginni ást á sannleikanum. Og ef til vill snertur af annari tegund þrældóms en rétttrúnaðar-þrældómurinn er. Það er manna-þrældómurinn. Við mótumst nokkuð fast af þeirri hugsun, Íslendingar, að við séum smælingjar. Megnið af kirkjunnar mönnum í öðrum löndum hefir óneitanlega, enn sem komið er, hafnað hinni nýju opinberun. Mér er ekki grunlaust um, að fyrir þ á sök og meðan svo stendur, þyki sumum öruggast að hafna henni líka. Það er sjálfsagt eðlilegt. Alt er eðlilegt, sem gerist. En það er andlegur smælingjabragur, en enginn höfðingjabragur á þeim hugsunarhætti. Það kann að vera sérvizka hjá mér, en eg get ekki varist þeirri hugsun, að sú mesta og endingarbezta sæmd, sem við getum gert okkar unga ríki, mundi vera sú, að hætta alveg að hugsa um það, hvað menn í öðrum ríkjum segja um okkur í svipinn, en taka stefnuna umsvifalaust og þráðbeint með

sannleikanum. Og þess er eg fullvís, að það er samboðnast þeim, sem hugsa sér að reyna að breyta eftir Jesú frá Nazaret.

Eg hefi nú sama sem lokið máli mínu. Sennilega finst einhverjum eg hafa verið of berorður í sumum atriðum. Eg á marga ágæta vini meðal prestanna, og eg tæki mér það nærri, ef þeir stygðust við það, sem eg hefi sagt í garð íslenzkrar kirkju. Viljandi hefi eg ekki farið með rangt mál. En eg veit, að mér skjátlast ekki síður en öðrum mönnum. Og eg vona, að þeim, sem kann að finnast, að eg hafi eitthvað oftalað, muni skiljast það, að eg hefi talað af kærleika til þess málefnis, sem þeim er, að sjálfsögðu, mest umhugað um — málefni trúarbragðanna.

Mér er það hið mesta áhugamál, að spíritisminn þurfi ekki að verða viðskila við kirkjuna hér á landi.

Hvers vegna?

Eg ætla að svara spurningunni með nokkurum orðum eftir hinn fræga skáldsagnahöfund Englendinga, Sir Arthur Conan Doyle, sen nú er orðinn einn af allra-ötulustu leiðtogum spíritista-hreyfingarinnar á Englandi. Þau eru þessi — og það verða niðurlagsorð mín í kvöld:

„Hreyfingin er, þegar dýpst er grafið, trúarlegs eðlis, og eftir því sem eg lít á, er henni

ætlað að hafa gagngerð áhrif á alla framtíð veraldarinnar. Þetta er ný alda, sem veltur hingað inn frá hinum dularfulla ómælileik annars heims og flytur hreinsun og hressingaráhrif inn í þá nokkuð hreyfingarlitlu polla, sem núverandi trúarbrögð okkar hafa sezt fyrir í. Afskiftum guðs af mönnunum var ekki lokið á Gyðingalandi fyrir 2000 árum, og í engri einni bók, hvað heilög sem hún er, er alt það, sem fá má að vita um það, sem fram undan okkur er. Það gæti verið hættulegt að fullyrða nokkuð fyrirfram um áhrifin af jafn-afskaplegu fyrirbrigði eins og fullkominni og nýrri opinberun frá næsta heimi tilverunnar; en ástæða er til þess að vona það, að þetta sé mikilvægara en svo, að ekki verði úr því annað en nýr sértrúarflokkur, og að því sé fremur ætlað að verða að súrdeigi fyrir alla mannlega hugsun og að hleypa nýju lífi í öll trúarbrögð. Það ætti ekki að rífa niður fyrir neinum öðrum en efnishyggjumönnunum, en fremur verða til þess að styðja hina fornu opinberun, og sýna það, að hún hefir stuðning í svo mörgum atriðum, að enginn vafi getur á því leikið, að hún hafi fyrst og fremst verið runnin frá æðra heimi. Jafnframt gerir hin nýja opinberun það einfaldara, sem er óþarflega torskilið, og setur í sitt rétta hlutfall mikið af því, sem

er að eins ytri búningur og á jarðneskan uppruna — nytsamt á sinn hátt, ef til vill, en hefir, eftir því sem aldirnar hafa liðið, fengið alt of mikið gildi, og þokað úr sæti verulegum, ómissandi sannindum, sem bak við það hafa verið. Allir alvarlega hugsandi menn finna til þarfarinnar á einhverri trúarvakning, sem sníði guðfræðina meira eftir þörfum mannanna, komi henni í samræmi við vísindin og skynsemina, og flytji þann anda inn í heiminn, er girði með öllu fyrir það, að mennirnir lendi aftur í því voðamyrkri liðinna alda, sem okkar kynslóð hefir orðið að horfa á. Þessi vakning virtist vera ofvaxin mætti mannlegs anda; en það er bersýnilegt, að hún er að komast í það horf, að öfl tveggja veralda geta hjálpast að því að koma henni í fyllingu sína.“

---

**Vargur í vjeum.** Skáldsaga. Eftir Gunnar Gunnarsson. Íslensk þýðing eftir Vilhjálm Þ. Gíslason. Verð kr. 4,00. Í bandi kr. 5,00 og kr. 5,50.

**Um þjóðarbúskap Þjóðverja.** Fyrirlestrar. Eftir G. Funk verkfræðing. Verð kr. 1,25.

**Með báli og brandi.** Pólverjasögur I. Eftir Henryk Sienkiewicz. Íslensk þýðing eftir Þorstein Þorsteinsson cand. jur. Verð I. bindi kr. 5,00, II. bindi kr. 4,00.

**Bessi gamli.** Skáldsaga. Eftir Jón Trausta. Verð kr. 4,00.

**Sambýli.** Skáldsaga. Eftir Einar H. Kvaran. Verð kr. 5,50. Í bandi kr. 7,00 og kr. 7,50.

**Undir ljúfum lögum.** Ljóðmæli. Eftir Gest. Verð kr. 5,00. Í bandi kr. 7,50.

**Út yfir gröf og dauða.** Eftir C. L. Tweedale. Íslensk þýðing eftir S. Kristófer Pjetursson. Gefin út að tilhlutun Sálarrannsóknafjelags Íslands. (Er að koma út).



